# ÍSLENZKUR

# KIRKJURJETTUR,

SAMINN

AF

JÓNI PJETURSSYNI.

---

REYKJAVÍK.
Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS, E. ÞÓRÐARSON.
1863.

*Það er kunnigra, enn frá þurfi að segja, að lagaþekking og lögvísi, sem margur annarr fróðleikur, stóð í fornöld í miklum blóma meðal vor Íslendinga, þó nú sje, því miður, svo komið, að sönn þekking um lög vor og lagaskipun, sje orðin býsna fágæt.*

*Nokkru eptir að eg kom hingað til Reykjavíkur, var eg fenginn til að kenna á prestaskólanum íslenzkan kirkjurjett, því reglugjörð prestaskólans mælir svo fyrir, að kenna skuli þar vísindagrein þessa; gekk eg þá fljótt úr skugga um það, hve eðlilegt væri, þó allan þorra manna skorti þekkingu á lagasetningum þeim, er um kirkju vora gilda, þar sem alls ekkert vísindalegt rit var til um það efni, en lögin á hinn bóginn, ef eg mætti svo að orði kveða, á víð og dreif, ýmist á íslenzkri eður danskri tungu, svo ofætlun er nokkrum ólögfróðum manni, að botna í þeim til hlítar. Eg þykist og mega fullyrða, að eg átti við ærinn örðugleika að búa, er eg samdi bækling þennan, þó hann hvorki sje stór nje nái yfir mikinn hluta af löggjöf vorri, þar sem eg að eins gat haft mjer til stuðnings Kolderup-Rosenvinges danska kirkjurjett, er eg þó mjög óvíða þóttist geta að mun fært mjer í nyt, nema um niðurskipun efnisins.*

*Þessir örðugleikar, er eg þóttist eiga í, urðu mjer þó á hinn bóginn hvöt til þess, að láta bækling þennan birtast fyrir almenningssjónir, þar sem eg verð að álíta, að vísindaleg rit og rannsókn um*

*ýmsa kafla af löggjöf vorri sje hið eina ráðið til að útbreiða aptur sannan fróðleik og þekkingu á lögum vorum.*

*Þó eg nú fúslega játi, að margt kunni að vera miður af hendi leyst í bæklingi þessum, enn vera skyldi, og eg sjálfur hefði óskað, bæði að efni, orðfæri og fleira, fulltreysti eg því, að lesendurnir láti sjer það tvennt hugfast, að ætíð er örðugra að brjóta ísinn í hverju sem er, og eptirleikurinn hægri, og líka það, að menn verði að lesa bæklinginn ítarlega og rækilega í heild sinni, áður enn þeir felli á hann þungan dóm; og vil eg í þessu efni taka það sjerstaklega fram, að eg með ásettu ráði bæði hefi þegjandi gengið fram hjá ýmsum dönskum lagaboðum, sem eigi eru gildandi hjer á landi, þó sumir kunni að álíta að svo sje, og eins hefi eg leitt hjá mjer, að minnast á þær ákvarðanir í nokkrum lagaboðum, er að öðru leyti þó gilda hjer, sem aldrei hafa náð að rótfesta sig; t. a. m. 27. gr. í tilsk. 3. júní 1746 um húsagann, og annað því umlíkt, þar eg annars hefði hlotið að leiðast út í óþarflegar máldálengingar.*

*Eg ætla nú eigi að mæða lesendur mína með lengra formála, en þess vil eg óska af heilum hug, að bæklingur þessi yrði til þess, að hvetja lagamenn vora til að rita um ýmsa kafla í löggjöf vorri, og til þess að glæða og efla löngun og áhuga alþýðu á sönnum lagafróðleik, er leiði hana aptur á feril þann, sem forfeður vorir gengu til frelsis og frama.*

Ritað í Reykjavík, í júním. 1863.

Jón Pjetursson.

## 1. gr.

### Kirkjan. Rjettur hennar að vera fjelag.

Eins og guð er upphaf og höfundur alls hins góða, svo er og hugsjónin um hann hin æðsta siðferðislega hugsjón, er getur hreift sjer í sálu mannsins. Áhrif þau, er hún gjörir á sál manns, þegar hún birtist í henni, eður þegar guð birtist þar, er *lotningarfullur ótti,* er leiðir til *tilbeiðslu á guðdóminum.* Því skýrara og optar sem hugsjónin um guð birtist í sálunni, því næmari verður sálin fyrir slíkum áhrifum og því sterkari verða þau; því meir lifandi og því öflugri verður þessi hugsjón í sálunni. Guðhræðslan verður manninum þannig eðlileg, eður *sálin verður bústaður eður musteri guðs.* Slík andleg sameining, er myndast við þetta millum allra rjetttrúaðra, nefnist guðs *ósýnilega kirkja* á jörðunni.

En það er eigi að eins, að hugarfarið fyllist lotningu við opinberun eður nálægð guðdómsins í sálunni, heldur nær guðhræðslan *einnig til breytninnar* og sýnir sig máttuga í henni. Guðsóttinn verður hin öflugasta *hvöt* hjá hinum guðhrædda fyrir öllum gjörðum hans, því hann finnur eigi neitt æðra, enn guð — og getur því af engu hrifizt eins kröptuglega — og ekkert æðra lögmál fyrir gjörðum sínum, enn guðs vilja. Guðs vilji er honum því allt, svo það, er honum finnst guðs vilji, því fylgir hann,

og hið góða, er hann gjörir, gjörir hann af því hann álítur það vilja guðs; allt, er hann gjörir, það gjörir hann í guðs nafni.

Og loksins, auk þess að guðhræðslan, eins og nú var sagt, bæði gagntekur og fyllir hugarfar hins guðhrædda, og líka stýrir öllum gjörðum hans, knýr hún hann og til *að takast í fang vissar gjörðir, er að eins lúta að því, að láta opinberlega í ljósi fyrir öðrum þá lotningu sína fyrir guðdóminum, er hugur hans er gagntekinn af*, eður knýr hann *til opinberrar guðsdýrkunar*. Samskonar tilfinning hjá fleirum knýr þá til að sameina sig og eiga iðulegar samkomur með sjer í þessu skyni, og við það stofnast *söfnuður*.

Samkomur þessar, eður stofnun safnaðarins, eru þannig í öndverðu beinlínis afleiðing af guðhræðslu hinna einstöku, án þess þar undir felist nokkurr annarr ásetningur hjá þeim, enn gegna þeirri þörf sinni, að vegsama guð opinberlega í samfjelagi með öðrum; en samt sem áður hafa þær í sjer fólginn líka annan æðra tilgang, er eigi er fyrirhugaður af hinum einstöku; því slíkar samkomur, þar sem allir koma saman í sama tilgangi eður til að sýna lotningu sína fyrir guðdóminum, hljóta eptir eðli mannsins að vekja langtum öflugar enn annars í sálu hvers einstaks hugsjónina um guð, og efla hann og styrkja í guðhræðslunni. En af þessu leiðir beinlínis, að *hinn sanni tilgangur samkomnanna eður safnaðarins hlýtur að vera sá: að efla menn í guðsótta.*

Samkomurnar, eður tilvera safnaðarins, eru þann-

ig eigi fyrir neinn einstakan eingöngu, heldur jafnt fyrir alla þá, er í söfnuðinum eru eður samkomurnar sækja, og enginn einstakur sækir því samkomurnar eður er limur safnaðarins í rauninni eingöngu fyrir sjálfan sig, heldur líka fyrir alla þá, er á samkomunum eður í söfnuðinum eru. Hverr einstakur verður verkfæri fyrir heildina eður söfnuðinn, til að geta náð tilgangi sínum, og söfnuðurinn eður heildin aptur verkfæri fyrir hvern einstakan til að geta vaxið í guðsótta; með öðrum orðum: hverr einstakur er sjálfum sjer ónógur til að geta náð þeim þroska í guðsótta, sem honum er unnt að geta náð, og *hlýtur* því að njóta til þess annarra eður safnaðarins liðsinnis, og gjörast limur hans.

Menn hljóta þannig að játa, að, þó sála hvers einstaks að vísu sje musteri guðs, sje þó *söfnuðurinn veglegra musteri hans,* eður að guðdómurinn búi ríkulegar í hjörtum allra rjetttrúaðra til samans, enn í hjarta hvers einstaks þeirra.

Þegar söfnuðurinn kemst til viðurkenningar á fyrtjeðu ætlunarverki sínu, og hinir einstöku limir hans þegar fyrirfram eru gagnteknir af guðsótta, *hlýtur* söfnuðurinn að vilja fram yfir hvern mun ná þessum háleita tilgangi sínum, og því nota til þess eigi að eins samkomurnar einar, heldur og öll önnur ráð, er hann getur og álítur hentug til þess, en þetta leiðir til þess, að hann *verður* að bindast í *reglulegt fjelag* og *ætlunarverk hans að gjörast að fjelagsmálefni.*

Fjarlægðin millum manna og að eigi geta nema nokkrir sótt á sama stað gjörir, að söfn-

uðirnir verða að vera margir, en skyldleikinn í hugarfari manna, og að söfnuðirnir hafi allir sama tilgang, sameinar aptur hina einstöku söfnuði á ýmsa vegu hvern við annan meir eður minna. Allir slíkir söfnuðir til samans nefnast *kirkja*. Hin *sýnilega kirkja* er þannig *söfnuður safnaðanna* eður þeir allir til samans.

Af hinu fyrsagða er auðsætt, að kirkjan er eigi *manna verk* eður *manna stofnun*, því það er ekki mannanna verk, að hugsjónin um guð hreifi sjer í hugum þeirra, en í hugsjóninni um guð felst kirkjan, eins og að framan er sýnt, er því útbreiðir sig á jörðunni með ómótstæðilegu afli við það, að hugsjónin um guð hreifir sjer í sálum hinna einstöku. Að eins í kirkjunni getur guðsóttinn náð sínum fulla þroska; að eins þar geta því allar mannanna gjörðir lofað og vegsamað guð; þar getur hann verið mestu orkandi í mönnunum og í gegnum þá, og þar getur hann á dýpstan hátt birzt í hjörtum mannkynsins og þess gjörðum. Kirkjan er því í uppruna sínum *afleiðing af þeim framkvæmdarsama vilja guðs, að mannlegt fjelag verði samneyti heilagra, er stjórnist af heilögum anda bæði í hugsunum sínum og gjörðum.*

Það er nú þannig af öllu hinu fyrsagða auðsætt, að *kirkjan* hefir *langtum meira rjett, en hvert annað fjelag, er stofnað er af geðþekkni manna, að vera til*, því einmitt við það, að tilvera hennar eigi er komin undir geðþekkni mannanna, hlýtur rjettur hennar, til þess að vera til, eigi að styðjast af geðþekkni þeirra. En af því, að hún hefir rjett til þess

að vera til, leiðir aptur beinlínis *rjettur hennar að ná tilgangi sínum,* þar tilvera hennar annars væri til einkis, og af þessu leiðir aptur *rjettur hennar að hafa stjórn sína,* því án stjórnar getur hún eins og hvert annað fjelag eigi staðizt nje náð tilgangi sínum. Með því nú þjóðfjelögin eiga að vera bústaðir rjettlætisins á jörðunni, *hlýtur þeim þess vegna að vera skylt að líða kirkjuna og lofa henni ótálmað að ganga fram að marki sínu og miði.* Og auk þessa hlýtur sú skylda að liggja á þeim *að efla kirkjuna að því leyti, er þau geta viðkomið, með hentugum stofnunum, er miði til þess, að hún því hægar geti náð tilgangi sínum,* því þjóðfjelögum ber að efla með almennum stofnunum velferð þegnanna bæði í andlegan og líkamlegan máta, en hin æðsta andlega velferð þeirra er fólgin í sönnum guðsótta, sem einmitt er kirkjunnar tilgangur að efla og útbreiða.

Þó guðdómurinn sje einn, geta þó hugmyndir mannanna um hann verið mjög mismunandi og jafnvel í aðalatriðunum, og því eru *trúarbrögðin ýmisleg í heiminum.* Þá, er hafa sömu trúarbrögð, getur aptur greint á sín í millum í ýmsum verulegum atriðum í trú sinni, þó þeir allir sje samdóma í þeim aðalatriðum, er auðkenna trúarbrögð þeirra frá öðrum trúarbrögðum, og við það koma upp ýmsir *trúarbragðaflokkar.* Trúarbrögð þau, er Kristur kenndi mannkyninu, eru kennd við hann og nefnast *kristin trú* og játendur þeirra *kristnir menn; þeir allir til samans er kristileg kirkja* eður *kristnin.* Því

meir sem trúarbrögðin samsvara tilgangi sínum, eður eru löguð til að útbreiða sannan guðsótta á jörðunni, því rjetthærri verða þau að vera í sjálfu sjer, og því getur engin trú verið rjetthærri, enn kristin trú, þar engin trúarbrögð eru betur löguð til þessa, nje ná svo til allra, sem hún. það er og auk þessa eðlilegt, þó kristin trúarbrögð njóti langtum meiri aðhlynningar meðal kristinna þjóða, er einmitt álíta, að þau sje hin einu sönnu, heldur enn önnur trúarbrögð, er þær álíta eigi rjett. Við kirkjuna skilja menn og almennt að eins *kristna söfnuði.* Stundum er þó orð þetta haft í þrengri þýðingu og *hver trúarbragðaflokkur í kristninni kallaður sjer kirkja,* t. a. m. pápiska kirkjan, mótmælandakirkjan o. s. frv. það er auðsætt, að trúr þær, *er niðurbrjóta sannan guðsótta og spilla siðferði manna,* og þannig niðurbrjóta það, er trúarbrögðin eiga að efla, hafa engan rjett að líðast.

## 2. gr.

## Orðið: Kirkjurjettur; skipti á honum.

*Vísindi þau, er hljóða um rjettarástand kirkjunnar,* nefnast *kirkjurjettur.* Í nokkuð annari þýðingu nefna menn *kirkjurjett* eður *kristinnrjett lög þau* eður *þann þátt laganna, er ákveður rjettarástand kirkjunnar.* Af tilgangi og eðli kirkjunnar hljóta að leiða ýmsar almennar kröfur um rjettarástand hennar, hvernig það skuli vera, er rjettlætið heimtar af þjóðfjelögunum, að þau gefi fullan gaum; en þjóðfjelögin verða þó á hinn bóg-

inn að vera sjálfráð í því, hvernig þau haga fyrirkomulagi þess hjá sjer. Vísindum þessum eður kirkjurjettinum skipta menn því 1. í *náttúrlegan* eður *eðlilegan* kirkjurjett og *settan kirkjurjett* eptir uppruna reglna þeirra, er hann byggist á. Í hinum fyrnefnda er rakinn rjettur sá, er kirkjunni ber eptir eðli sínu og tilgangi eður að eðlilegum hætti, en í hinum síðarnefnda rjettarástand hennar í þjóðfjelögunum eptir settum lögum og öðrum þar gildandi rjettarreglum; en með því lögin eður rjettarreglur þessar eru í hverju landi eður hjá hverri þjóð komin undir ýmsum atvikum, er sumpart eru meir eður minna almenns eðlis og sumpart sjerstaklegs, er hinn setti rjettur kirkjunnar eigi hinn sami hvervetna, heldur ýmislegur í löndunum, svo hvert land eður þjóðfjelag hefir sinn kirkjurjett fyrir sig. Eigi neitt hefir þó svo mikil áhrif á rjettarástand kirkjunnar og allt fyrirkomulag hennar, sem trúarbrögðin, eins og auðskilið er.

Trúr þær, er mest snerta kirkjurjett vorn, er trú hinnar *pápisku kirkju (hinnar rómversku katólsku)* og *trú mótmælandakirkjunnar.*

Kristin trú varð þjóðtrú í hinu rómverska ríki á 4. öld, og biskupinn í Róm eður páfinn, er skjótt varð formaður hennar, dró sig einlægt meir og meir undan veraldlegu valdi. Hin pápiska kirkja útbreiddist síðan því nær yfir alla Norðurálfuna, og með henni hinn *rómverski katólski kirkjurjettur,* er nefndist hinn *kanóniski;* en mótmælandakirkjan kom fyrst upp á 16. öldinni af henni, og með henni

myndaðist *kirkjurjettur Mótmælanda.* Hinn *rómverski katólski kirkjurjettur* er að vísu, sem eðlilegt er, eigi hinn sami í öllum pápiskum löndum; en með því hann þó í mörgum greinum hvervetna er eins, geta menn skipt honum í *almennan pápiskan kirkjurjett,* er hljóðar um þann rjett kirkjunnar, er hún hefir í *öllum* pápiskum löndum, og *sjerstakan,* er eigi gildir nema í sumum pápiskum löndum. Að vísu hafa menn eigi í löndum Mótmælanda gjört nokkrar setningar í kirkjunni að almennt bindandi lögum, en skoðunarháttur sá, er drottnaði við siðaskiptin meðal Mótmælandanna, hefir þó haft, sem von var, þau áhrif á löggjöfina í flestum löndum þeirra, að menn og hafa reynt að ræða *almennan kirkjurjett Mótmælanda*

Enn fremur hafa menn skipt hinum setta kirkjurjetti í *guðlegan* og *mannlegan,* og kallað þann guðlegan, er settur væri af guði, en mannlegan þann, er menn settu.

2. skipta menn kirkjurjettinum í hinn *ytra* og *innra kirkjurjett;* hljóðar hinn fyrnefndi um *kirkjunnar ytra rjettarástand,* en við það skilja menn *rjettarástand kirkjunnar gagnvart þjóðfjelaginu, og eins rjettarástand hennar gagnvart öðrum kirkjum,* en þá er samt í seinna skiptið verið að rekja rjettarástand einhverrar vissrar kirkju. Hinn síðarnefndi hljóðar þar á móti um kirkjunnar *innra rjettarástand* eður um hennar *innra fyrirkomulag og stjórn, rjettarástand hennar gagnvart limum sínum og þeirra aptur sín á millum.*

### 3. gr.

### Undirstöður hins setta kirkjurjettar yfir höfuð meðal pápiskra manna og Mótmælanda.

Undirstöður fyrir rjettarástandi kirkjunnar eru hinar sömu sem fyrir öðrum settum rjetti. Yfir höfuð eru þær einkum *lög* og *venjur*, en það er einkennilegt við rjettarástand kirkjunnar, að það er mjög komið undir *trúarbrögðunum*, sem fyrr er sagt. Katólskir menn og Mótmælendur leggja *biflíuna* til grundvallar fyrir trú sinni, eins *3 hinar elztu trúarjátningar*, hina *postullegu, nicensku* (nicæo-constantinopolitönsku) og *Aþanasíusar;* álíta þeir, að þær með öllu sje samhljóða biflíunni. En auk þessa trúa *pápiskir menn því öllu, er seinna hefir gjörzt á almennum biskupa eður kirkjusamkomum þeirra,* og er þeirra merkust sú, er haldin var í borginni Trídent (1545—1563); líka álíta þeir, *að margt hvað, er snertir trúarbrögðin, kirkjusiði og annað því um líkt, sje komið frá Kristó og postulunum, þó þess sje eigi getið í nýja testamentinu, og hafi einlægt munnlega, mann frá manni, viðhaldizt í kristninni óbrjálað.* Þessu hvorutveggja síðastnefnda kasta Mótmælendur, en þeir hafa samið sjer bækur, er trúarlærdómar þeirra eiga að felast í, og eru þessar trúarbækur *lúterskra* manna: *Ágsborgartrúarjátningin (Confessio augustana); varnarrit fyrir Ágsborgartrúarjátningunni (Apologia confessionis augustanæ); hinar smalköldsku trúargreinir; Lúters fræði,* bæði *hin stærri og hin minni og formula concordiæ;* þó

er það í ýmsum löndum, að lúterskir menn viðurkenna eigi, að allar þessar bækur sje regla fyrir trú sinni. En hjá *Siðbótamönnum* (*hinum reformeruðu*) eru þessar trúarbækur: *Heiðelbergsfræði*; *trúarlærdómasafn Filippusar* (*corpus doctrinæ philippicum*); *hin belgska trúarjátning og ákvarðanir samkomunnar í Dortrekt.* Hið sama er um þær og trúarbækur lúterskra manna, að í ýmsum löndum álíta Siðbótamenn, að eigi nema að eins nokkrar af þeim sje regla fyrir trú sinni.

Að því er lögin snertir, verða þau að vera gefin af *þeim, er hefir löggjafarvaldið í kirkjunni*; þessi lög geta annaðhvort haft *guðlegan uppruna* eður verið gefin af *mönnum*. Guðlegan uppruna hafa boðorð þau, er Kristur gaf um kirkjuna, og viðurkenna bæði pápiskir menn og Mótmælendur, að þau sje bindandi alla, og að þau sje óumbreytanleg. Þar að auki viðurkenna hvorirtveggju þeirra, að *menn* hljóti og að geta gefið lög fyrir kirkjuna, en skoðunarháttur þeirra á því, *hverjum beri sá rjettur*, er mjög mismunandi. Pápiskir menn álíta almennt, að biskupunum einum á almennum samkomum sínum beri þessi rjettur. Vald yfir kirkjunnar málefnum og hið kennimannlega embætti sje af Kristó í fyrstu veitt postulunum við handa uppálagningu, og þeir hafi aptur veitt það biskupunum á sama hátt; það veitist og viðhaldist einlægt við handa uppálagningu. Allir biskupar kirkjunnar til samans, er uppi sje á vissum tíma, fyrirmyndi því kirkjuna; þessi kirkjunnar fyrirmynd hljóti að stjórnast af heilögum

anda í því að halda áfram starfi postulanna í kirkjunni og sje nauðsynlegt verkfæri opinberingarinnar, og verði að hafa, til þess Kristí opinberun geti náð tilgangi sínum, hinn sama áreiðanlegleika, og hún sjálf. En með því þó allir biskupar kirkjunnar eigi geti einlægt verið saman á einum stað, sje nauðsynlegt til þess að viðhalda einingu í kirkjunni, að hún hafi einn sýnilegan yfirhirði eður yfirformann; þessi yfirhirðir hennar sje páfinn, sem eptirmaður Pjeturs postula á hinum rómverska biskupsstóli, og hann sje hið sama í tilliti til hinna annarra biskupa kirkjunnar, sem Pjetur var í tilliti til hinna postulanna. þessi skoðunarmáti nefnist *biskupalærdómur*. Aðrir pápiskir menn álíta páfann og kirkjuna sem eitt, og að páfinn einn hafi hið æðsta löggjafarvald í kirkjunni, eður í hið minnsta, að biskupasamkomurnar enga bindandi ákvörðun geti gefið, nema hann samþykki það; þetta kalla menn *páfalærdóm*.

Mótmælendur álíta almennast þar á móti, að bæði andlegir og veraldlegir til samans sje kirkjan; að löggjafarvaldið í kirkjunnar málefnum beri því eptir eðli sínu eigi fremur hinum andlegu, enn hinum veraldlegu, heldur öllum jafnt, og í hverju þjóðfjelagi megi rjettilega fela það á hendur *þeim, er hafa þar löggjafarvaldið í öðrum greinum.*

Í ýmsum löndum er rjettarástand kirkjunnar og mjög komið undir *samningum páfanna við hina veraldlegu drottna þar*, friðarskilmálum og fleirum *þjóðagjörningum*, sem þó allt er sjerstaklegs eðlis. Loksins er það auðsætt, að, með því hinn kanóniski

rjettur gekk í löndum Mótmælanda, þegar siðabótin kom, liggur hann og til grundvallar fyrir rjettarástandi kirkjunnar þar, að því leyti staðizt getur með trúarbrögðunum og breytingum þeim, er þar síðan hafa orðið á rjettarástandi kirkjunnar.

### 4. gr.

### Almennar athugasemdir um hinn ytra kirkjurjett.

Menn hefir mjög greint á um það, hvert væri hið eðlilegasta samband millum kirkjunnar og þjóðfjelagsins. Sumir hafa viljað setja kirkjuna yfir hina veraldlegu stjórn, og aptur aðrir hina veraldlegu stjórn yfir kirkjuna; en hvorigur þessi skoðunarmáti virðist rjettur, því hinn fyrri leiðir til þess, að veraldleg stjórn yrði blint verkfæri í hendi kirkjunnar, er hún eptir eðli sínu eigi getur verið, og hinn síðarnefndi til þess, að tilvera kirkjunnar og rjettur hennar að ná tilgangi sínum yrði við það háður geðþekkni manna. Þá hafa og enn nokkrir álitið, að þjóðfjelagið og kirkjan ætti að vera tvö sjerskild fjelög, hvort við hliðina á öðru, og hvorigt hinu háð, og það virðist óneitanlegt, að margt mæli með því, að kirkjan ætti að vera frjáls í þeim löndum, þar sem margar trúr ganga, svo að veraldleg stjórn eigi taki þar neinn beinan þátt í stjórn kirkjulegra málefna, heldur láti hvert kirkjufjelag, er líðast má, vera sjálfrátt um það, hvernig það stjórnar málefnum sínum, meðan það eigi neytir til þess ólöglegra ráða, því það getur ekki legið í eðli nokkurs kirkjufjelags, að það sje borið til að stjórna kirkjumálefnum annarra trúar-

bragðaflokka, heldur þvert á móti hlýtur hverr trúarbragðaflokkur, sem á annað borð hefir rjett til þess að vera til eður líðast, líka að hafa rjett til þess, að reyna að ná ætlunarverki sínu ótálmað af öðrum, Samt sem áður her veraldlegri stjórn að styrkja þar hin ýmsu trúarbragðafjelög yfir höfuð, bæði með því að vernda þau í rjetti sínum, sem hver önnur lögleg fjelög, og eins með því að efla almenna uppfræðingu, vísindi og siðgæði meðal þegna sinna jafnt, hverrar trúar, sem þeir eru.

Og loksins eru þeir, er álíta, að þjóðfjelagið og kirkjan eigi að vera eitt, og virðist það hið eðlilegasta, þar sem kirkjan er ein; og að hún með tímanum geti orðið það, virðist, að liggja í eðli hennar — því þar getur framför í andlegum og veraldlegum efnum bezt stutt hvor aðra, sem öllu þjóðfjelaginu er stýrt eptir sömu grundvallarreglum. Í kristninni hefir annars gengið ýmislega til á ýmsum öldum með stjórn kirkjulegra málefna í þessu tilliti.

Fyrst var, sem eðlilegt er, öll stjórn kirkjunnar hjá Kristó og síðan postulunum, og eptir þeirra daga hjá biskupunum og hinum elztu safnaðanna, er þá stundum komu saman til að taka ákvarðanir um málefni kirkjunnar, og voru þá ákvarðanir þær álitnar bindandi reglur fyrir söfnuðina. Eins var það og eðlilegt, að teknir væri upp kirkjusiðir þeir og venjur, er tíðkuðust í söfnuðum þeim, þar sem postularnir höfðu kennt. Aptur á hinn bóginn var kristnin fram eptir öldunum álitin að vera ólöglegt fjelag, er ekki ætti að líðast, og mátti því tíðum sæta ofsóknum.

Á meðan þetta kirkjunnar ástand varaði, hafði kirkjan sjálf alla sína stjórn út af fyrir sig, en vantaði aptur alla vernd og aðhlynningu hjá hinni veraldlegu stjórn. En er hin veraldlega stjórn viðurkenndi rjett hinnar kristilegu kirkju, og áleit hana að vera löglegt fjelag í þjóðfjelaginu, breyttist þetta svo, að, þó öll hin vanalega stjórn kirkjunnar hjeldi áfram að vera í höndum hinna andlegu yfirmanna kirkjunnar, áleit keisarinn sig þó að hafa nokkurskonar yfirumráð yfir henni, og eins aðrir höfðingjar í ríkjum, sínum, þar sem kristnin komst á. Þessu hjelt áfram um stund; hinir andlegu yfirmenn kirkjunnar uxu á meðan meir og meir í áliti, fengu ýms forrjettindi, miklar tekjur, og gjörðust mjög auðugir menn, og loksins heppnaðist biskupinum í Róm, er bæði hafði fengið ríki til umráða og við það var orðinn veraldlegur fursti, og líka var af mestum hluta kristninnar álitinn yfirmaður hennar, sem eptirmaður Pjeturs postula á hinum rómverska biskupsstóli, að útbreiða það álit, að hin andlega stjórn væri yfir hinni veraldlegu, og að hann því hefði rjett til, að losa þegnana undan yfirráðum veraldlegra drottna, er væri kristninni móthverfir, þegar hann fyndi næga ástæðu til þess. En þegar siðferði hinna andlegu tók að spillast á marga vegu, og ágirnd og kúgun urðu almennir lestir meðal þeirra, reis út af því hin megnasta óánægja í mörgum löndum, er endaði með því, að í byrjun 16. aldarinnar stofnaðist ný kirkja evangelisk, er reif sig undan yfirráðum páfans, en sökum styrjaldar þeirrar, er undir eins á eptir brauzt

út vegna siðaskiptanna, gafst kirkju þessari ekki færi á, að koma stjórn sinni fyrir í nokkurt fast horf, enda ljet hún sjer líka í fyrstu mest um það varða, að hreinsa trúna, og hugsaði minna um hitt. Hún var komin upp á vernd og aðhlynningu hinna veraldlegu drottna, og ljet sjer því víðast vel lynda, þó þeir tæki þar að sjer stjórnina í kirkjunnar málefnum, og það því fremur, sem þeir í þeim lítið sem ekkert gjörðu, án þess að ráðfæra sig um það fyrirfram við siðabótarhöfundana sjálfa, eður hina lærðustu guðfræðinga. Löngu seinna fóru menn að tala um það, hvernig það gæti rjettlætzt, að veraldlegir drottnar skyldi hafa yfirráð yfir kirkjunnar málefnum, og hafa menn á ýmsa vegu viljað rjettlæta það. Nokkrir hafa sagt, að drottnarnir í þessum löndum væri æðstu biskupar, og álitið, að þeir hefði við trúarbragðafriðinn 1555 fengið vald það yfir kirkjunni, er hinum katólsku biskupum áður bar, þar eð vald hinna síðarnefndu við hann hefði verið ónýtt. En það er þó auðsætt, að þó veldi hinna katólsku biskupa í löndum Mótmælandanna væri ónýtt við fyrtjeðan frið, þá verður ekki leitt út af þessu, að vald þeirra við það hafi hlotið að ganga yfir á drottna Mótmælandanna, eins og líka drottnar þeirra eigi gátu fengið allt það kirkjulegt vald, sem katólskum biskupum er eignað.

Aðrir hafa því viljað vernda þetta með því, að sá, hvers landið væri, yrði og að mega ráða því, hver trúarbrögð þar skuli vera, en þessi kenning er með öllu skökk, því eptir henni ætti trúarbrögð-

in í heiminum að laga sig eptir vilja veraldlegra drottna, og kristileg kirkja þannig vera komin undir miskun þeirra, hvort hún mætti líðast eður eigi.

Og loksins hafa nokkrir sagt, að veraldlegum drottnum beri ómótmælilega eptir stöðu sinni sem formönnum þjóðfjelaganna rjettur til að hafa umsjón með kirkjunni (jus circa sacra), en vald yfir innri stjórn hennar (jus sacrorum) hafi þeir af söfnuðunum; söfnuðirnir hafi unað því, að þeir hefði það, og þess vegna með þögninni samþykkt því. En þó söfnuðirnir hafi unað við þetta, getur það eins vel komið til af hinu, að þeir hafi hugsað, að úr því veraldlegum drottnum sínum bæri rjettur að stjórna málefnum þeim, er þjóðfjelagið varðaði, mundi þeim og bera rjettur til að stjórna kirkjunnar málefnum, en í þessari skoðun felst ekki fyrnefnt samþykki, og verður því eigi dregið út af henni.

## 5. gr.

### Undirstöður hins nú gildanda kirkjurjettar á Íslandi.

Auk *trúarbragðanna,* er hjer seinna skal verða nákvæmar talað um, eru undirstöður hins nú gildanda kirkjurjettar hjer á landi fyrst og fremst *lögin.*

Árið 1275, eður skömmu eptir að landið var komið undir Norvegs konung, fjekk Árni bikup Þorláksson í Skálholti lögtekinn á alþingi fyrir biskupsdæmi sitt kristinn rjett þann, er hann hafði samið, og seinna bauð Magnús konungur Smekkur í rjettar-

bót sinni, sunnudaginu fyrstan í vetri 1354, að hann og skyldi gilda í Hólabiskupsdæmi, er og framgang fjekk, sem sjá má af fleirum fornum dómum. Áður hafði hjer á landi gilt kristinnrjettur biskupanna Þorláks og Ketils, er nefnist kristinnrjettur hinn forni, til að greiningar frá hinum. Með kristnarjetti Árna biskups mega því álítast öll hin eldri lög um kirkjumálefni hjer á landi úr gildi numin, og með því engin almenn lög um það efni seinna hafa verið gefin fyrir landið, er hann grundvallarlögin fyrir hinum nú-gildanda kirkjurjetti hjer, að því leyti staðizt getur með trúarbrögðum vorum. Hann og öll þau lög, er síðan hafa verið gefin fyrir kirkjuna hjer á landi, að svo miklu leyti þeim aptur eigi hefir verið breytt við seinni lög, eru því lög þau, er hinn nú gildandi kirkjurjettur vor byggist á.

Allt fram til siðaskiptanna höfðu konungar vorir yfir höfuð lítil afskipti af kirkjunnar innri málefnum; þau önnuðust biskuparnir sem kirkjunnar formenn; þó gátu þeir engin ný lög gefið, nema alþingið samþykkti þau. Að vísu gáfu biskuparnir stundum á prestastefnum sínum í sameiningu með prelátum og prestum kirkjunnar út ýmsar reglur og boðorð undir dóms nafni, er fylgt var; en slíkir dómar máttu þó aldrei vera gagnstæðir lögunum, eður grundvallarreglum þeirra, því þeir höfðu ekki lagaafl, og gátu því ekki svipt hin eldri lög gildi þeirra. Einkum er markverður frá þessum tíma samningurinn frá 1297 millum Noregs konungs og Árna biskups um kirkju-

máta um lögin, er alþingið allt þangað til þar að auki hafði átt svo mikinn þátt í; enda var þessa og einlægt gætt, meðan alþing hið forna stóð, að lögin voru birt þar, og þegar alþingið var lagt niður nú við síðustu aldamót og landsyfirrjetturinn var stofnsettur í þess stað, var farið, samkvæmt tilsk. 11. júni 1800 § 12, að birta þar lagaboð þau, er út komu, og hefir það einlægt viðhaldizt síðan allt til seinustu tíma, að nú er farið að hætta því, annaðhvort af hirðuleysi stiptamtmannanna, er senda ætti formanninum í yfirdóminum lagaboðin til lesturs, eður þá af misskilningi þeirra á tilsk. 24. apr. 1833, er að eins bauð að hætta skyldi að lesa í yfirdóminum *viss skjöl*, er snerta *eigur einstakra manna;* en eins og tilskipun þessi engan veginn snertir *öll þvílík* skjöl, og því síður í minnsta máta nær til *lagaboða*, þannig hefir stjórnin í Danmörku á seinustu tímum sent lagaboð til þínglesturs í yfirdóminum, sem henni var annt um að næði hjer lagagildi. Auk þessa almenna þinglesturs á lagaboðum, sem nú var nefndur, hefir og einlægt tíðkazt hjer á landi jafnhliða honum annarr þinglestur þeirra heima í hjeruðum. Meðan landið átti með sig sjálft, áttu goðarnir, er þeir kæmi af alþingi, að eiga þing við þingmenn sína, og segja þeim þar frá öllum nýmælum þeim, er gjörzt höfðu á þinginu, og öðru, er þá varðaði; voru þing þessi kölluð leiðarþing, og viðhjeldust lengi eptir að landið var komið undir konung; þau nefnast og í Jónsbókinni konungsbrjefalestursþing, og háðu sýslumenn þau, er þeir

komu af alþingi; en á 17. öld lögðust þing þessi smámsaman niður við það, þegar landskrifararnir komu upp, og hver tók að geta fengið hjá þeim eptirrit af því, sem hann vildi, úr alþingisbókinni; tóku þá sýslumennirnir að halda þau eigi fyrri en á vorin, og slengja þeim saman við manntalsþingin, svo að úr báðum þessum þingum varð nú eitt þing, og þar lýstu þeir þá lagaboðum þeim og öðrum almennum ráðstöfunum, er lýst hafði verið á alþingi árinu áður, eður þar höfðu þá gjörzt. Það er og fullkomlega víst, að eigi sjerhverr vilji löggjafans er lög, og jafnvel sá vilji hans, að eitthvað skuli verða lög, er allt annað enn sá vilji hans, er orðinn er að lögum, því lögin deyja þó eigi út við hver konungaskipti, heldur halda þau áfram að vera í fullu gildi, þó skipti um löggjafendur, og þó er það engan veginn víst, að hverr nýr konungur hafi allan þann vilja, er liggur í lögunum, en af þessu sjest aptur, að vilji löggjafans, til að geta orðið að lögum, verður að ná einhverri ytri festu, og það virðist eðlilegast, í hið minnsta þar sem þegnarnir því nær engan þátt taka í tilbúningi laganna, að til þess vilji löggjafans geti orðið að almennri skuldbindandi reglu fyrir þá eður að lögum, verði hann að auglýsast þeim á almennan og hátíðlegan hátt, og þetta er samkvæmt tilskipun 8. október 1824, sem hjer á landi var lögleidd með konungsbrjefi 7. desember 1827, er segir: *að hinn venjulegi þinglestur laga og tilskipana skuli framvegis, sem hingað til, vera hinn almenni og alla skuldbindandi auglýsingarmáti þeirra;* og eins

er það og samkvæmt hæstarjettardómi, er áleit, að tilsk. 11. apr. 1840 væri eigi orðin hjer gildandi, þar eigi var búið að þinglýsa henni á íslenzku máli; jafnvel þó boðið væri í tilskipun 24. janúar 1838, 7. gr., að öll almenn hegningarlög, er út kæmi fyrir Danmörku, einnig skyldi gilda hjer á landi, og þar að auki búið væri að þinglýsa hjer tilskipuninni á dönsku.

Það ber opt við, að í lögum þeim, er lögleidd hafa verið hjer á landi, *er vitnað í dönsk lög*, og meðan Norvegur var undir Danmörku, í *norsk lög;* er þá tilvitnun þessi stundum svo laus, að hún hefir engin áhrif á efnið, og *er því með öllu ónauðsynleg;* stundum virðist *sem löggjafinn álíti, að þessi lög, er hann vitnar til, sje hjer gildandi*, án þess þau þó *nokkurn tíma hafi verið lögleidd hjer;* en þessi *ranga skoðun löggjafans á því, að þau hafi verið lögleidd hjer,* getur engan veginn verið *nóg til að lögleiða þau,* og þegar af þeirri ástæðu, *að menn ekki vita, hvort hann hefði viljað hafa þau fyrir lög hjer á landi, ef hann hefði vitað hið rjetta, að þau hefði ekki verið lögleidd hjer.* Og loksins er stundum sagt, *að þetta og þetta norskt eður danskt lagaboð skuli gilda hjer,* eður þá í almennum orðum, að *norsk eður dönsk lög skuli gilda hjer á landi í því eður því efni,* án þess þó að stjórnin hafi nokkuð annazt um, að þessi lög kæmi hingað til landsins og því síður, að þau væri hjer birt. Að vísu virðist það nú of mikið, að vilja neita þessum *vilja löggjafans* um allt gildi hjer á landi, en það væri eins um of á hinn bóginn, að eigna honum undan-

tekningarlaust sama gildi og lögum þeim, er *þinglesin hafa verið eður birt á hinn almenna og alla skuldbindanda hátt;* það á ekki við, að rannsaka þetta hjer út í hörgul, nje frekara, heldur enn hvert þvílíkt lagaboð krefur, jafnóðum og þess verður getið; að eins skulum vjer geta þess, að við þvílíka rannsókn virðist margt athuganda, svo sem, hvers eðlis og efnis lög þessi sje, og hverja þau snerti, auk annars fleira.

það virðist og eðlilegt, að sá vilji löggjafans, *sem birtur er þegnunum á því máli, er allur þorri þeirra ekki skilur,* geti *síður verið bindandi regla fyrir breytni þeirra allra,* enn hinn, sem birtur er þeim *á því máli, er landslýðurinn skilur og talar.* Lengi fram eptir öldunum og þangað til landið kom undir Danakonung, voru lög þau, er komu út fyrir land þetta, samin á íslenzku máli, en síðan fóru þau að koma út á dönsku; samt má það af mörgu ráða, að það hefir lengi fram eptir verið venja á alþinginu, að lesa upp dönsku lagaboðin á íslenzku eptir einhverri útleggingu, er þeir önnuðust að gjörð væri, sem fyrir upplestrinum stóðu, og eptir þessari útleggingu var eingöngu farið, svo menn ekki fundu til þess, þó lagaboðin sjálf í öndverðu væri samin á dönsku máli og ekki íslenzku. Einstöku lagaboð komu og út á íslenzku, og í erindisbrjefi biskupanna 1. júlí 1746 var biskupunum á Hólum, er prentverkið höfðu, boðið að snúa á íslenzka tungu öllum þeim tilskipunum, er undir innsigli konungsins væri sendar báðum biskupunum, og það er auðsjeð, að

löggjafinn ekki hefir ætlazt til, að þær gæti náð fullkomnu lagagildi, fyrri enn búið væri að birta þær á íslenzku máli á venjulegan hátt (sjá konungsbrjef til stiptamtmanns Ocksens 29. maí 1744).

Þegar búið var að steypa alþingi hinu forna, og prentverkið var komið frá Hólum, var dómöndunum í yfirdóminum falið á hendur með kannsellíbrjefi 2. ágúst, að snúa á íslenzka tungu öllum þeim tilskipunum, er þá framvegis kæmi út fyrir landið, og hinum helztu þeirra, er áður hefði komið út fyrir það; en þessar útleggingar geta af mörgum ástæðum eigi haft sama gildi og hinar fyrri. Síðan 1831 hafa tilskipanir þær, er út hafa komið fyrir Ísland bæði verið á dönsku og íslenzku máli, og nú er konungur vor farinn að skrifa undir íslenzkuna líka, er hann eigi hafði áður gjört, nema einstöku sinnum.

Af lagaboðum þeim, er, síðan konungurinn varð einvaldur hjer á landi, hafa út komið eingöngu fyrir Ísland, um kirkjunnar málefni, eru þessi hin helztu: 3 tilskipanir 29. maí 1744, ein um helgidagahald, önnur um barnaspurningar, hin þriðja um barnaferming; 2 tilskipanir 27. maí 1746, önnur um húsvitjanir presta, hin um altarisgöngur; tilskipun 3. júní 1746 um húsaga; erindisbrjef biskupanna 1. júlí 1746; reglugjörð 17. júlí 1782 um tekjur presta og kirkna, (almennt kölluð tíundarreglugjörðin); tilskipun 6. janúar 1847 um fardagaár presta; tilskip. 27 s. m. um tekjur presta og kirkna, kgsbr. 21. maí s. á. um stofnun prestaskóla; tilskipun 28. marz 1855 um sunnudaga og helgidagahald hjer á landi, og opið

brjef um sama efni 26. september 1860, og fleiri, er getið skal verða á sínum stöðum.

Líka hafa ýms lagaboðorð, er gefin hafa verið út fyrir Danmörku, og fyrrum fyrir Norveg, verið gjörð gildandi hjer á landi með konunglegum brjefum; en 6. júní 1821 gaf konungur með úrskurði sínum hinu þá veranda *danska kansellíi* myndugleika til, að láta auglýsa hjer á landi á löglegan hátt til eptirbreytni þær almennu »anorðningar«, er út kæmi fyrir Danmörku, ef álítast mætti vafalaust, að þær ætti hjer við, en áður yrði það þó í hvert skipti að skrifast á um þetta við rentukammerið, eður hina æðstu embættismenn hjer á landi. Seinna aptur í tilsk. 21. desember 1831, er innleiddi hjer nokkrar tilskipanir, er út höfðu komið fyrir Danmörku 1827, lýsti konungur því yfir, að eins og hann við og við á seinni árum hefði með brjefum sínum til hlutaðeiganda valdsmanna ákveðið, hverjar af þeim almennu »anorðningum«, er öðru hvoru hefði komið út fyrir Danmörku, skyldi gjörast að lögum á Íslandi, annaðhvort breyttar eður óbreyttar; þannig hefði hann ákvarðað, að kunngjöra framvegis yfir höfuð vilja sinn um þetta efni í tilskipunum, er út skyldi koma á prenti bæði á danskri og íslenzkri tungu. Í alþingistilskipaninni 8. marz 1843 hefir konungurinn heitið því, að öll þau lög og ráðstafanir, er eingöngu áhræra Ísland, skuli berast undir þingið, áður en þeim verði gefið lagagildi; og í konunglegri auglýsingu til alþingis 1. júní 1861 hefir konungurinn heitið því, að almenn lagaboð, er virðist vera þess efnis, að

þau bæri að lögleiða hjer á landi, verði hjer eptir lögð fyrir alþingi, sem lagafrumvarp á danskri og íslenzkri tungu, hvert lagaboð út af fyrir sig, með þeim breytingum, er þurfa þyki. Á tímabilinu frá 5. júní 1821 til 21. desember 1831 sendi *kansellíið* við og við með umburðarbrjefum til hinna æðstu valdsmanna hjer á landi nokkur af þeim almennu lagaboðum, er út komu fyrir Danmörku, allt til 1827, til eptirbreytni hjer á landi; en með því svo nær sem ekkert af lagaboðum þessum áhræra kirkjunnar málefni, þarf hjer ekki að rannsaka, hvort þeim geti borið hjer lagagildi eður ekki. Þau *lagaboð*, er kirkjurjetturinn hjer á landi byggist á, eru þannig *annaðhvort í öndverðu gefin fyrir Ísland, eður þá í fyrstu gefin fyrir Danmörku eður Norveg, en síðan gjörð hjer gildandi, annaðhvort óbreytt eður breytt, með konungsbrjefum eður tilskipunum.*

Þó eitthvert lagaboð, er konungurinn hefur gefið *öðrum þegnum sínum,* hafi verið *þinglesið hjer á landi,* er opt kann að hafa verið, einkum fyrrum, getur *slíkur þinglestur út af fyrir sig ekki gefið því neitt lagagildi,* því *hjer* getur eigi neitt orðið að *lögum,* nema það, er *löggjafinn einmitt vill að skuli verða hjer að lögum,* en slíkan ákvarðaðan vilja löggjafans vanta áminnzt lög þegar í öndverðu, og fá hann, sem eðlilegt er, eigi við þinglesturinn, en annarra vilji eður ákvörðun um, að þau skuli vera hjer lög, er markleysa ein, þareð þeir ekki hafa löggjafarvald.

## 6. gr.

### Áframhald.

Áður enn landið kom undir konung, hafði *alþingið fullkomið löggjafarvald í öllum málefnum hjer á landi, bæði veraldlegum og andlegum.* Biskuparnir voru formenn kirkjunnar, og voru því álitnir sem höfuð landsins í öllum andlegum málefnum, en löggjafarvaldið í málefnum þessum var þó hjá alþinginu. Að vísu gat það, sem eðlilegt var, eigi án samþykkis biskupanna breytt því, er það hafði lögtekið eptir undirlagi þeirra, eður heitið þeim, að haldast skyldi sem lög, og að gjöra nokkur nýmæli um kirkjunnar málefni án samþykkis þeirra, þó eigi hefði horft til breytingar á viðteknum lögum, hefði sökum trúarbragðanna verið samvizkusök fyrir það; en biskuparnir gátu eigi heldur á hinn bóginn gefið nein lög, án þess þau væri samþykkt af alþinginu, og þetta fyrirkomulag viðhjelzt allt fram að siðaskiptunum, og *breyttist ekki við það, að landið kom undir konung,* því hann fjekk eigi neitt vald yfir stjórn kirkjunnar, nje löggjafarvald í hennar málefnum; að eins gat hann varið landsmenn fyrir ólöglegum ágangi klerkanna.

Þar á móti urðu nú konungarnir formenn og höfuð landsins í allri veraldlegri stjórn, á sinn hátt, og biskuparnir voru það í hinum andlegu málefnum þess, en *löggjafarvaldið hjelt þó áfram að vera í höndum alþingis eigi síður í þessum málefnum enn hinum andlegu.* Að vísu hlýddi konungunum,

eins og biskupunum, að stinga upp á breytingum í þeim lögum, er áhrærðu málefni þau, er þeir voru formenn yfir, eður koma fram með breytingar, er miðaði til að bæta lög og rjett manna í veraldlegu tilliti, en það var þó á valdi alþingisins með öllu, hvort það vildi samþykkja þessar uppástungur eður eigi, því eigi neitt gat orðið að lögum án þess samþykkis, og eru ótal dæmi, er sanna þetta; en þegar alþingið hafði fyrir hönd landsmanna lögtekið einhverjar lagauppástungur konungs eður brjef hans, var það eðlilegt, þó það eigi aptur mætti svipta þau lagagildi án hans samþykkis, en hvervetna þar, sem lögin eigi skýrlega kváðu á, varð alþinginu að standa frjálst fyrir, að gefa landinu lög um það efni; með því braut það og eigi heldur lög konungs nje heiti sitt. Þessi rjettur þurfti eigi að heimilast alþinginu með lögum; *það var nóg, að hann hvergi hafði verið frá því tekinn*, enda *neytti* það hans og iðulega, þegar svo bar undir, og gengust stundum *sjálfir höfuðsmennirnir* fyrir því, að alþingið gerði skipun á um ýmislegt, þegar þeim virtist þess þurfa, en lög annaðhvort vanta um það efni, eður eigi vera nógu glögg eður nákvæm. Þessar *ákvarðanir* alþingisins nefndust þó eigi lög, heldur *alþingisdómar*, og hljóða nokkrir af þeim, einkum eptir siðaskiptin, um kirkjunnar málefni, er konungurinn þá var orðinn formaður fyrir, eins og hann hafði verið fyrir hinum veraldlegu. Alþingið hjelt einlægt áfram að dæma þessa dóma öðru hvoru, og *jafnvel eptir að konungurinn var orðinn hjer einvaldur.*

*Dómar* og *sýnodusarályktanir* hljóta og að hafa áhrif á rjettarástand kirkjunnar. Þótt hið *danska kansellí* ekki neitt löggjafarvald hefði, eru þó brjef þess mjög mikilvæg fyrir kirkjurjett vorn, þar öll andleg málefni hjer á landi voru lögð undir það; þetta eru þau, bæði að því er áhrærir skilning laga þeirra, er út komu gegnum kansellíið, og einkum að því leyti sem þau gefa ýmsar reglur hinum geistlegu embættismönnum fyrir stjórn embætta þeirra. Líkt er og nú um brjef ráðherra kirkjumálefnanna. Enn eru og brjef stiptsyfirvaldanna og biskupanna hjer á landi merkileg fyrir kirkjurjett vorn í sumum greinum.

### 7. gr.

### Rjettarástand kirkjunnar gagnvart stjórninni.

Eins og vjer höfum áður getið, urðu konungarnir einvaldir hjer á landi á seinni hluta seytjándu aldar; og eptir *konungalögunum* frá 14. nóvember 1665, 2. gr., á konungurinn að álítast af þegnunum hinn ypparsti og æðsti höfðingi hjer á jörðu, yfir öllum mannlegum lögum, er engan annan höfðingja og dómara þekki yfir sjer, hvorki í andlegum nje veraldlegum efnum, enn guð einan. Í 3. gr. er honum gefið óbundið löggjafarvald; í 4. gr. óbundið vald til að veita öll embætti, og afsetja embættismenn; í 6. gr. hið hæsta vald yfir öllum klerkum, frá hinum æðsta til hins lægsta; vald til að skipa fyrir og regla niður alla kirkjuþjónustu og guðsþjón-

ustu; til að bjóða og banna mót og samkomur um trúarbragðamálefni, þegar hann áliti það ráðlegt.

*Konungalögin* veita konungi vorum þannig eins í kirkjunnar málefnum, sem öðrum, óbundið vald. Þó gjöra *konungalögin* honum að skyldu, að hann bæði sjálfur heiðri, þjóni og dýrki hinn eina rjetta og sanna guð á þann hátt, sem kennt sje í biflíunni og hinni óbreyttu *Ágsborgar*trúarjátningu frá 1530, og líka að hann haldi þegnunum við þessa hreinu og ómeinguðu kristilegu trú, og volduglega varðveiti og verndi hana í ríkjum og löndum sínum móti öllum villumönnum og guðníðingum. Að vísu er nú konungur vorr orðinn bundinn í stjórn sinni í Danmörku bæði í kirkjunnar málefnum og öðrum; en sú takmörkun á veldi hans er að eins þar og nær eigi hingað.

Skömmu eptir að konungurinn varð einvaldur, voru kirkjunnar málefni í Danmörku lögð undir *kansellíið;* og undir það komust og kirkjunnar málefni hjer á landi. Um tíma stóðu öll kirkjunnar málefni undir sjerskildu ráði, er nefndist *generalkirkju-inspections Collegium,* er þó stjórnaði þeim í sameiningu með *kansellíinu;* nú sem stendur liggja kirkjunnar málefni hjer á landi undir *ráðherra kirkjumálefnanna í Danmörku;* en eiga þó þangað að ganga gegnum hina *íslenzku stjórnardeild* þar.

## 8. gr.

### Rjettarástand hinnar lútersku kirkju hjer á landi, gagnvart öðrum kirkjum.

Þegar katólsku trúnni var kastað hjer á landi við siðaskiptin seinni eður um miðju sextándu aldar, voru það hin *evangelisku* trúarbrögð, eptir Lúters lærdómi, er þjóðin tók upp. *Kirkjuordinantsía* Kristjáns konungs 3. var lögtekin, sem fyrr segir; en hana hafði konungurinn sent Lúter sjálfum til yfirlesturs og skoðunar. Í henni er talað um *Lúters minna Katekismus,* eður fræði, er prestarnir skuli fylgja í þýðingu sakramenntanna, og í ýmsum seinni tilskipunum fyrir Ísland er og mönnum boðið að læra hann, svo sem tilsk. 27. maí 1746, 11. gr., um húsvitjun presta; sjá og kgl. úrskurð 25. sept. 1795. Í erindisbrjefi biskupanna á Íslandi 1. júlí 1746, 43. gr. er biskupunum boðið að reyna stúdenta þá, er vígjast eiga, í guðfræði og biflíunni, og líka í þeim »í vorri kirkju» viðteknu trúarbókum; en hverjar þessar trúarbækur sje, er löggjafinn hjer hefir átt við, sjest af *dönsku* og *norsku laga* (D og NL) 2. bókar 1. kapítula, er segir, að þau trúarbrögð ein skuli leyfast í konungsins ríkjum og löndum (en þar við skilst og Ísland), sem sje samhljóða heilagri ritningu, hinni *postullegu, nísænisku* og *Athanasíusar* trúarjátningu, hinni óbreyttu Ágsborgartrúarjátningu frá 1530, og Lúters minna *Katekismusi.* Eins og þannig hin lútersku trúarbrögð útrýmdu hjer á landi hinum pápisku, og hafa síðan verið þau einu trúar-

brögðin, sem hjer hafa gengið, svo er og auðsjeð af seinastnefndum lagastað — þó það eigi sje beinlínis lög hjer á landi — eins og líka *konungalögunum*, að konungur vorr eigi muni líða, að önnur trúarbrögð nái hjer á landi almennri festu, meðan hann er hjer einvaldur. Hin *evangeliska lúterska trú* er þannig *drottnandi* trú hjer á landi, *og önnur trúarbrögð mega því hjer hvergi líðast nema eptir sjerstöku leyfi konungs*, er þó eigi getur orðið *almennt*, heldur verður annaðhvort að vera skorðað við ákveðna staði eður þá öðrum takmörkunum bundið. Þannig fengu hjer fyrst Siðbótamenn takmarkað trúarbragðafrelsi hvervetna um landið, og síðan hafa allir kristnir menn fengið fullkomið umburðarlyndi í trúarbragða efnum, en að eins á verzlunarstöðunum, sem síðar skal sagt.

Að vísu er hin lúterska trú eptir hinum nýju grundvallarlögum í Danmörku hætt að vera þar drottnandi trú, og nýtur þar nú að eins sem þjóðtrú aðhlynningar frá stjórnarinnar hálfu, en slík breyting er þó eigi enn þá hjer á komin.

Af áminnztri skyldu stjórnarinnar að halda hjer uppi lúterskri trú, leiðir beinlínis, *að henni ber að sjá um*, að *nógu margir, er notið hafi nægrar menntunar í guðfræði, boði trúna hvervetna um landið og úthluti sakramentunum á þann hátt, er ber*; að *hin uppvaxandi kynslóð æ fái tilhlýðilega tilsögn í trúarbrögðunum*; að *sómasamleg hús sje til, er menn megi koma saman í, til opinberrar guðsþjónustugjörðar*, og að *tilhlýðileg stjórn sje höfð á kirkjunnar*

*málefnum*. Á móti öðrum trúm liggur engin slík skylda á stjórninni, sem auðvitað er, þar þær skoðast sem villulærdómur, og enginn sá kostnaður, er af þeim leiðir, getur náð til hennar. — Svo hinir andlegu embættismenn geti fengið því betra undirbúning, stofnsetti Kristján konungur hinn 8. hjer á landi 21. maí 1847 *nokkurskonar háskóla handa þeim, er fá vildi hjer andleg embætti;* hefir prestaskóli þessi, er menn almennt nefna svo, sjerskildan forstöðumann og tvo kennendur að auk; á þar á tveim árum að vera búið að lesa það með lærisveinunum, er nema þarf. — Að þessu hnígur og, að í alþingistilskipuninni 8. marz 1843, 2. gr., er ákveðið, *að af þeim 6 landsins embættismönnum, er konungur hefir áskilið sjer að kjósa til alþingisins, skuli tveir vera af andlegu stjettinni,* því þetta er auðsjáanlega gjört af ummönnun fyrir hinni drottnandi trú. Ýms lagaboð lúta áð því, að efla *ytri helgi hinnar drottnandi trúar, og er víða hegning viðlögð, ef henni er misboðið* — en að tala nákvæmar um þær hegningar hlýðir fremur að gjöra í sakamálarjettinum — og þó sumar aðrar trúr njóti hjer og nokkurrar helgi, er hún samt langtum minni; má einkum til þessa telja, *að allir, hverrar trúar sem eru, verða að haga sjer í ytri siðsemi sinni eptir lögum þeim, er hjer eru gefin um helgidagahöld,* en alla aðra daga, þó helgir sje eptir öðrum trúarbrögðum, má hverr maður halda sem rúmhelga. — *Þeir, sem eru annarlegra trúarbragða, verða að borga til sóknarprestsins og sóknarkirkjunnar* í þeirri sókn, er

þeir eru í, *allar lögboðnar skyldur;* þetta leiðir beinlínis af því, að lög þau, er um þá tolla hljóða, fara þar um svo almennum orðum, að þau ná til allra, er í sókninni búa og í því ástandi eru; þetta er og boðið Siðbótamönnum í rjettindabrjefi þeirra 1747, og sagt, að þeir sje skyldir til þess, þó þeir eigi sæki sóknarkirkjuna.

Þeir, er eigi hafa lúterska trú eður landstrúna, geta sökum trúarbragða sinna *eigi komizt í ýmsa opinbera stöðu;* þannig geta þeir eigi fengið neitt af *landsins andlegu embættum,* eigi heldur *kennaraembætti við prestaskólann* nje *latínuskólann,* nje önnur þau embætti, *er almenn unglinga eður barna kennsla er bundin við;* eigi orðið *valdsmenn* nje *dómendur í yfirdóminum;* því meðal annars gæti menn eigi ætlazt til, að þeir hlutdrægnislaust ákærði þá, er bryti gegn lögum þeim, er gefin eru trúnni til verndar, eður væri óvilhallir dómendur í þeim málum; og *yfir uppeldi barna sinna* hafa þeir almennt eigi eins mikil ráð, sem lúterskir menn hafa.

Hvorki *Gyðingar* nje *aðrir menn þeir, er eigi hafa kristna trú,* verða *gefnir í hjónaband af vorum prestum,* eður *grafnir af þeim eður í vorum kirkjugörðum.* Þeir geta eigi *gipzt hjer án konunglegs leyfis,* og yrði þá leyfi það að ákveða um leið, hvernig hjónaband þeirra ætti að stofnast, og hvergi á landi hjer mega þeir hafa opinbera guðsþjónustugjörð.

Að *lúterskir* prestar þar á móti eigi megi gjöra öll venjuleg prestsverk *fyrir kristna menn, þó þeir*

*eigi hafi lúterska trú,* til að mynda: skíra börn þeirra, taka þá til altaris, vígja þá í hjónaband og syngja yfir þeim, ef þeir enga annarlega siðu hafa í frammi við það, geta menn varla með rökum álitið eptir vorum lögum.

Hvort *frelsi þeim kristnum mönnum ber í trúarbragðaefnum, sem eigi hafa lúterska trú,* fer mjög eptir því, hvort þeir eru *á verzlunarstöðunum* eður *fyrir utan þá,* eins og fyrr var ávikið.

1. *Fyrir utan verzlunarstaðina.* Þar mega þeir enga *opinbera guðsþjónustugjörð* fremja samkvæmt trú sinni; þó hafa *Siðbótamenn* eptir rjettindabrjefi þeirra 15. maí 1747, er gefið var fyrir konungsins ríki og *lönd,* þar takmarkað trúarbragðafrelsi, því þó rjettindabrjef þeirra eigi hafi verið hjer þinglesið, hlýtur það þó að gilda hjer eins fyrir því, þar löggjafinn hefir viljað, að það skyldi gilda hjer, og það að eins gefur rjett gegn hinu opinbera, án þess að gjöra nokkra breytingu eður skerðingu á rjetti einstakra manna, en samt eru engar líkur til þess, að Siðbótamenn svo fljótt muni stofna söfnuði hjer á landi fyrir utan verzlunarstaðina. Þess er og getið í kgsbrjefi 7. des. 1827 (tilsk. 30. apríl 1824), að *pápiskir prestar geti fengið leyfi hjá stjórninni, að gefa brúðhjón saman, en um þvílíkt leyfi verði þeir samt að sækja í hvert skipti, er þeir vilji gjöra það;* og ætti þá prestar annarra kristinna trúarbragða eins að geta fengið leyfi til þess; þar er og boðið, að, þegar *annað brúðhjónanna sje pápiskrar trúar,* en hitt *lúterskrar,* skuli presturinn

gæta þess, að *hið pápiska gefi brjeflega skuldbindingu*, er rituð sje inn í kirkjubókina, um það, *að það skuli láta öll þau börn, er það eignist í hjónabandinu, ala upp í lúterskri trú;* og á síðan presturinn og veraldlegt vald að sjá um, að þetta verði haldið. Þegar þar á móti *annað brúðhjónaefnanna* er *lúterskrar trúar,* en *hitt reformeraðrar,* þá á eptir kgs. brjefi 7. sept. 1736 að gjöra í viðurvist hinna nánustu náunga þeirra samning um það, *hver og hve mörg börn þeirra ala skuli upp í hverri trúnni fyrir sig; en sje enginn slíkur samningur gjörður, skuli ala sonuna upp í hinni lútersku trú, en dæturnar upp í hinni reformeruðu.* Þessu var að vísu breytt í rjettindabrjefi Siðbótamanna 15. maí 1747, en aptur veitt þeim með kgs.brjefi 19. marz 1751. Eptir áminnztu boði í kgs.brjefi 1827 virðist ætíð ætti að fara um uppeldi barnanna, *þegar annað brúðhjónanna er lúterskrar trúar, og hitt annarrar, þó eigi reformeraðrar;* að börn þau, er þeim aflist í hjónabandinu, alist upp í lúterskri trú; því bæði virðist það með öllu eðlilegt, að börn þau, er hjer á landi fæðast, sje alin upp í landstrúnni, nema þar sem lögin leyfa undantekningu frá því, og þó Siðabótamenn hafi fengið þau rjettindi að mega ala nokkuð af börnum sínum upp í trú sinni, þegar svo ástendur sem fyrr greinir, þá geta þau rjettindi eigi komið öðrum að liði, enn þeim, er þau eru gefin.

Þegar *bæði hjónin eru reformeraðrar trúar,* mega þau eptir rjettindabrjefi Siðabótamanna 1747 *ala öll börn sín upp í trú sinni,* og konungsbrjefið

7. des 1827 virðist benda á, að löggjafinn hafi líka viljað gefa pápiskum mönnum hjer og þenna rjett, þegar *bæði hjónin væri pápiskrar trúar;* því væri það eigi, og öll börn pápiskra manna ætti að ala upp í pápiskri trú, hvernig sem ástæði, hefði það boð verið hjer þýðingarlaust, að börnin skuli alast upp í lúterskri trú, þegar annað hjónanna væri lúterskrar trúar, en hitt pápiskrar. En þó Siðbótamönnum og pápiskum mönnnum sje veitt þessi hlunnindi, ná þau eigi til annarra trúarbragðaflokka.

Af hinu fyrsagða leiðir þannig: að *fyrir utan verzlunarstaðina ber að ala öll börn upp í hinni drottnandi trú, nema þau, er fæðast þeim foreldrum, í hjónabandi, er bæði eru annaðhvort reformeraðrar trúar eður pápiskrar, eður þá annað lúterskrar, en hitt reformeraðrar trúar.*

2. *Á verzlunarstöðunum.* Í verzlunartilskipaninni 17. nóv. 1786, 1. gr., *er öllum trúarbragðaflokkum veitt hjer í kaupstöðunum fullkomið umburðarlyndi og leyfð frjáls og óhindruð guðsþjónustugjörð,* og er þar enn fremur sagt, að *þeir reformeruðu, eptir ásigkomulagi, megi vænta leyfis til kirkjubyggingar,* og í tilskipun 13. júní 1787, kap. II., 10. gr., segir svo, *að þeir útlendingar, er vilji taka borgarabrjef í kaupstöðunum, annaðhvort til að verzla þar eður taka fyrir sig einhvern nytsaman atvinnuveg fyrir landið, skuli eigi einungis, án greinarmunar, frá hverju landi þeir sje, eður hverra trúarbragða, njóta hlunninda þeirra, er þeim sje heitin í tilsk. 18. ágúst og 17. nóvember 1786 annaðhvort*

*yfir höfuð,* eður *sjer á parti,* heldur *skuli þeir, eins og hinir innfæddu konungsins þegnar, taka fullkominn þátt í öllum þeim hlunnindum, er gefin eru í tilskipuninni* (þ. e. tilsk. frá 13. júní 1787). En þessa seinni grein má eigi skilja þannig, þó orðin sje þar svo almenn, sem *allir,* er setji sig niður hjer í kaupstöðunum, hvort sem þeir hafa kristna trú eða eigi, megi hjer njóta frjálsrar guðsdýrkunar; því hjer er verið að tala að eins um þá útlendinga, er fengið höfðu trúarbragðafrelsi við tilsk. frá 17. nóvember 1786, og þeim heitið á ný enn meiri hlunnindum, enn þar er gjört, vilji þeir setjast hjer að; en þeir, sem fengið höfðu slík hlunnindi við þá tilskipun, voru að eins allir kristnir menn, og aðrir eigi; þeim öllum *yfir höfuð* hafði löggjafinn í henni veitt »frjálsa og óhindraða guðsþjónustugjörð« og hinum reformeruðu sjerleg hlunnindi á parti, en öðrum enn kristnum mönnum var þar ekki trúarbragðafrelsi gefið, hvorki *yfir höfuð,* nje neinum vissum trúarbragðaflokki þeirra nokkur hlunnindi *sjer á parti.* Tilgangurinn í hinni áminnztu ákvörðun í tilsk. 13. júní 1787 er og auðsjáanlega eigi heldur, að veita útlendingum neitt nýtt trúarbragðafrelsi, heldur önnur hlunnindi, er þeim eigi fyrr hefði verið veitt. Þetta trúarbragðafrelsi, er í öndverðu var gefið að eins þeim 6 kaupstöðum, er þá voru hjer stofnaðir, verða menn að álíta að öll löggild kauptún hjer á landi nú hafi fengið við opið brjef 28. desember 1836, 5. gr. Þannig er mönnum af allskonar kristnum trúarbrögðum, er hjer hafa aðsetur á

verzlunarstöðunum, leyfð »frjáls og óhindruð guðsþjónustugjörð«, en þeir allir, er eigi hafa kristna trú, eru háðir sama ófrelsi í trúarbragðaefnum á verzlunarstöðunum, sem fyrir utan þá.

þetta trúarbragðafrelsi er þó háð þeirri takmörkun eptir tilsk. 17. nóv. 1786, einkum eptir því, hvernig orðin hljóða þar í íslenzkunni — því sú tilskipun kom og út á íslenzku máli — að *engir, er annarleg trúarbrögð hafa, megi byggja sjer þar kirkju, og geta eigi heldur, nema Siðbótamenn einir, vænzt að fá leyfi til þess.* En af þessu leiðir þó eigi, að þeir eigi megi halda guðsþjónustugjörð sína í sjerskildum húsum heima hjá sjer (húskappellum) og koma þar saman margir til þess, einungis ef hús þessi eigi fá það ytra útlit, er einkenni þau sem kirkjur, en það fá þau, ef þau hafa turna eður stöpla — sem kirkjur almennt hafa í kaupstöðum — eður klukkur þær, er almenningi er hringt saman með til opinberrar guðsþjónustugjörðar.

Ákvarðanirnar í konungsbrjefinu 7. des. 1827, bæði sú: að pápiskir prestar enga hjónavígslu mætti halda, áður enn kanselliinu væri skýrt frá því og leyfi þess þar til fengið, og eins sú, er segir, að þegar annað hjónanna sje lúterskrar trúar, en hitt pápiskrar, skuli ala börn þeirra upp í lúterskri trú, geta eigi gilt hjer á verzlunarstöðunum; því konungsbrjef þetta, er lögleiddi hjer nokkur *almenn* lagaboð, er út höfðu komið fyrir Danmörku, og þar á meðal tilskipun 30. apríl 1824, er áminnztar ákvarðanir standa í, verður að álítast sem *almennt lagaboð fyrir*

*land þetta,* og *hefir* því eigi getað gjört hina minnstu breytingu á þeim lagaboðum, *er áður höfðu komið út fyrir kaupstaðina hjer á landi og undanþegið þá hinni almennu löggjöf þess í trúarbragðaefnum.*

Prestar þeir á verzlunarstöðunum, er annarleg trúarbrögð hafa, *geta eigi skoðazt sem embættismenn* stjórnarinnar, enda heimta lögin eigi, að þeir skuli vera settir af henni, nje heldur að þeir þurfi að hafa leyfi hennar til að fremja prestverk sín. Þeir hafa því sem prestar engra sjerlegra skyldna að gæta gegn stjórninni, og á hinn bóginn gefur staða þeirra þeim engin sjerleg rjettindi gegn henni.

Þau embættisstörf, er lögin leggja prestum á herðar og eigi beinlínis snerta trúarbrögðin, til að mynda að hafa umsjón yfir fátækramálefnum, hljóta því lútersku sóknarprestarnir að hafa á hendi eins meðal þeirra í sóknum sínum, er annarleg trúarbrögð kunna að hafa, sem hinna, er landstrúna hafa.

Af því, að prestar þessir eigi eru embættismenn stjórnarinnar, leiðir enn fremur, að þeir engar *embættisbækur* geta haldið um prestverk sín, og geta því eigi gefið eptir þeim nein slík vottorð, er *opinberan trúnað* hafi; þegar þeir því skíra börn, gefa hjón saman, eður jarða einhverja, verður að skýra sóknarprestinum frá því, svo hann geti fullvissað sig um það, ritað það í embættisbók sína, og síðan, er á þarf að halda, gefið vottorð sitt um það, og má hann án efa heimta sanngjarna borgun fyrir þetta; þó, ef þeir fengi viðurkenningu konungs um stöðu sína, ætti þeir að mega halda slíkar bækur og þá

geta gefið vottorð eptir þeim, er opinberan trúnað hefði. Og loksins leiðir það af því, að prestar þessir eigi eru opinberir embættismenn, að tekjur þær, er söfnuðir þeirra kynni að hafa lofað þeim, eigi yrði teknar lögtaki. Þó Siðbótamenn fengi sjer hjer og byggða kirkju, yrði tekjur hennar eigi heldur teknar lögtaki, því sá rjettur er að eins gefinn kirkjum þeim, er landstrúin er kennd í.

Þó nú þannig engir annarlegir trúarbragðaflokkar hafi leyfi til þess, að halda hjer opinbera guðsþjónustu, nema þeim sjerlega hafi verið leyft það, mega menn, hverra trúarbragða sem eru, hvort sem þeir eru kristnir eða eigi, koma hingað og setjast hjer niður, svo vel á verzlunarstöðunum sem fyrir utan þá, nema ef einhverjum trúarbragðaflokkum af sjerlegum ástæðum kann að meinast slíkt; en í lögum þeim, er gefin hafa verið fyrir Ísland, finnst ekki slíkt almennt bann. Að vísu er sagt í Kristjáns 5. lögum 6—1—3, að munkar, jesúítar og þvílíkir pápískir klerkar megi ekki undir lífsstraff láta finna sig eður dvelja í konungsins ríkjum og löndum (en þar við skilst og Ísland); en þetta boð hefir eigi lagagildi hjer á landi; *sjerskilt hefir það eigi verið þinglesið hjer,* og *lagagildi hefir það eigi fengið við tilskipun 24. janúar 1838,* því þó þar standi í 1. gr., að Kristjáns konungs 5. dönsku lög skuli vera *hin almenna regla, er mönnum sje hegnt eptir fyrir misgjörðir sínar drýgðar á Íslandi,* þá er það auðsætt, að fyrtjeðir pápiskir menn *enga misgjörð drýgja hjer á landi fyrir það, þó þeir komi hingað til lands-*

*ins*. En með því það þó eins og liggur í eðli Jesúmanna, að vilja fá sem flesta aðra til að taka trú sína, virðist það nokkurskonar nauðverja fyrir hina drottnandi trú hjer, og samkvæmt vilja löggjafans, að þeim væri meinað að setjast að hjer á landi. Í Kristjáns 5. dönsku lögum var og hverjum Gyðing bannað, undir 1000 rd. sekt, að koma inn í ríkið (sumsje Danmörku), nema hann hefði sjerlegt leyfisbrjef frá konunginum til þess, og í tilsk. 29. marz 1814, 19. gr., var líkt bann ítrekað fyrir þá útlendu Gyðinga, er lengur ætluðu að dvelja í Danmörku enn 14 daga. Jafnvel þó það nú og hljóti að vera saklaust í sjálfu sjer og enginn glæpur, að Gyðingar komi í eitthvert land, svo þegar þeim er bannað það einhversstaðar, hlýtur það að koma til af einhverjum sjerlegum ástæðum, er þar eiga sjer stað, og jafnvel þó þess vegna fáum hefði komið til hugar, þó almenn dönsk hegningarlög hefði verið lögleidd hjer á landi með tilsk. 24. janúar 1838, að sekt sú, sem að eins hafði verið lögð við dvöl Gyðinga *í Danmörku*, þar fyrir nú ætti að liggja fyrir dvöl þeirra *hjer*, þar sem þeim þar að auki aldrei hafði verið bannað að koma, eður setja sig niður, áleit þó stjórnin nauðsynlegt, að útvega hið konunglega lagaboð 6. janúar 1857, er leyfir þeim, sem hverjum öðrum útlendingum, að koma hingað og setja sig hjer niður.

## 9. gr.

### Skipti á kirkjunnar limum; kirkjunnar almenna rjettarástand.

Kirkjunnar limir eru annaðhvort *andlegir* eður *veraldlegir*. Öll þau rjettindi og allar þær skyldur til samans, er menn hafa, af því að vera kirkjunnar meðlimir, nefnast *kirkjunnar almenna rjettarástand*, en öll þau rjettindi og allar þær skyldur til samans, er kirkjunnar andlegu limir hafa vegna stöðu sinnar í henni, nefnist *kirkjunnar sjerlega rjettarástand*.

Allir kirkjunnar limir hafa hjá oss þá skyldu og þann rjett, að fá tilhlýðilega uppfræðingu í kristindóminum, verða aðnjótandi þeirrar kristilegrar uppfræðingar í kirkjunni, er af prestunum veitist þar, og taka þar þátt í opinberri guðsþjónustugjörð, og njóta altarissakramentisins, þegar þeir eru orðnir því vaxnir. Menn geta og að nokkru leyti sagt, að þeim börnum, er ala á upp í hinni drottnandi trú, beri rjettur að verða skírð, eður til að verða tekin í kristilegt fjelag við skírnina, og líka, að slík skylda liggi á þeim.

Einnig álítur hið almenna sjer skylt að gæta þess, að allir kirkjunnar limir fái eptir dauðann kristilega greptrun, að því leyti unnt er, og þeir eigi hafa brotið það af sjer.

## 10. gr.

### Kirkjunnar sjerlega rjettarástand; kirkjunnar andlegu limir.

Eptir kirkjurjetti pápiskra mannna eiga klerk-

arnir að fá við vígsluna, — en hún er hátíðleg helgun, til andlegs embættis — guðlega ástgjöf, til að geta einlægt framið þau hin helgu störf, er embættinu fylgja; hún er því álitin af þeim að vera sakramenti og einlægt kröptug, og enginn getur því vígzt optar sömu vígslu, enn einu sinni, Enginn, nema hann sje vígður, geti gjört þessi verk; það sje markleysa ein, ef aðrir gjöri þau.

Sjö eru þau andleg embætti í hinni katólsku kirkju, er menn þurfa að vígjast til, og verða menn að vígjast til hvers um sig, og enginn getur fengið neitt af þeim, nema hann áður hafi þjónað hinum lægri, er þar eru fyrir neðan; en að eins vígslan til 3 æðstu embættanna, biskupsvígslan, prestsvígslan og djáknavígslan, er þó í rauninni álitin sakramenti. Í fyrndinni mátti enginn vígjast, nema til einhvers fasts embættis; en seinna kom upp að vígja menn, þó þeir hefði það eigi. Engir geta eður mega vígja eptir skoðun pápiskra, nema biskuparnir einir.

Mótmælendur álíta þar á móti, að enginn slíkur kraptur fylgi vígslunni, og neita því, að hún sje sakramenti, en halda henni þó sem guðrækilegu verki og fallegum vana, og láta í reglunni engan, nema prestvígðan mann, þjóna að sakramentunum, nje hafa á hendi opinbert kennimannlegt embætti í kirkjunni nje vígja menn til þeirra, en sjálfur rjetturinn til að fremja *andleg* embættisverk álíta þeir að fáist fyllilega við það, að manni sje veitt slíkt embætti. Með þessari skoðun þeirra getur það því eigi rýmzt, að nokkurr í reglunni sje vígður, nema hann hafi

fengið eitthvert embætti, og eins, að nokkurn þurfi síðar að vígja á ný, þó hann fái æðra andlegt embætti, og loksins, að enginn geti fengið andlegt embætti, nema hann áður hafi þjónað að hinum lægri. Þeir, sem biskupar verða, eru þó vígðir biskupsvígslu hjá oss, og hafi biskupinn ekki fyrr verið prestur, er hann samt áður vígður prestsvígslu.

Að vígja til andlegs embættis er og í reglunni biskupsins eins; en þegar biskupslaust er, gjörir stiptprófasturinn það, sjá tilsk. 10. júní 1746, eins og biskupinn og, í löglegum forföllum sínum, má geta falið það öðrum prestvígðum manni á hendur.

Hjer á landi eru nú eigi aðrir andlegir embættismenn, enn biskupinn, prófastarnir, prestarnir og kapellánarnir. Um tíma töldu menn hjer alla lærða menn til hinnar andlegu stjettar, er eigi höfðu fengið neitt veraldlegt embætti, og enn geta menn án efa talið þar til að nokkru leyti alla hina eldri stúdenta frá latínuskólanum, er svara árlega þeim guðfræðislegu spurningum, er biskupinn setur fyrir þá, og eins þá, er gengið hafa undir embættispróf á prestaskólanum, eður í guðfræði við háskólann í Kaupmannahöfn.

## 11. gr.

### Skildagar fyrir að geta fengið hjer andlegt embætti.

Til að geta fengið andleg embætti hjer á landi, verða menn: 1. að vera svo vel *menntaðir í guðfræði,*

að þeir megi álítast færir að þjóna þeim, sem ber, og eins má *siðferði* þeirra eigi vera slæmt, og er í þessu skyni boðið: 1., að þeir annaðhvort skuli hafa gengið undir embættispróf hjer við *prestaskólann, eður við Kaupmannahafnar háskóla í guðfræði;* þó geta þeir, sem útskrifaðir voru frá latínuskólanum hjer á landi, áður enn prestaskólinn tók til starfa sinna 1. october 1847, fengið prestsembætti, ef þeir sanna, að þeir á lögboðinn hátt hafi viðhaldið lærdómsiðkunum sínum í guðfræði, sjá konunglegan úrskurð 30. júlí 1850.

Við tilskipun 3. maí 1743 var boðið, að stúdentar frá latínuskólanum skyldi árlega ganga undir nokkurskonar próf í guðfræði; áttu biskuparnir að bjóða próföstunum, að hverr þeirra skyldi með 2 prestum í sýslunni árlega kalla fyrir sig á hentugasta tíma alla þá *dimissos* eða *candidatos ministerii,* er í sýslunni væri, til að reyna þá, og vita, hvort þeir eigi gleymdi því, er þeir hefði numið í skólanum, og hvort þeir tæki framförum í bóklegum menntum, að predika og ritningunni; þar áttu stúdentarnir og að gjöra grein fyrir, hverjar bækur þeir hefði lesið, einkum reynast í biflíunni, og semja aðrar ritgjörðir yfir það, er fyrir þá yrði lagt, og ætíð útbúa sig með sannanir um, að þeir hefði gjört þetta. Í þessu augnamiði áttu biskuparnir að senda próföstunum ritaðar spurningar, er stúdentarnir áttu að svara í viðurvist allra, bæði þeirra, er reyndu, og eins hinna, er reynazt áttu. Síðan áttu prófastarnir, þegar prófinu var lokið, að senda undir innsigli öll svörin ó-

breytt biskupinum, er skyldi skoða þau, þegar hann fengi tóm til. Þeir, er voru í sömu sýslu og biskuparnir, eður eigi áttu lengra þangað enn þeir, er þar voru, áttu að reynast þar, sem *synodus* eður prestastefna var haldin. Enginn stúdent mátti sækja um nokkurt opinbert embætti, því síður fá það, hvað ljelegt sem það væri, nema hann tæki þátt í þessum prófum; ekki heldur mátti taka til greina nokkurt bónarbrjef um prestakall, nema biskuparnir og prófprestarnir hefði ritað á það vitnisburð sinn um iðni og kostgæfni sækjandans, eður sækjandinn þegar hefði fengið annað opinbert embætti, eður hann gæti sýnt vottorð frá háskólanum um, að hann hefði þar gengið undir eitthvert annað próf, heldur enn fyrsta háskólaprófið (Deposits). Prófið átti einkum að halda in *theologia catechetica, thetica* og *morali,* en sjer í lagi *in biblicis,* líka mátti og reyna í öðrum vísindagreinum, er iðkaðar voru í skólunum, svo sem grískri tungu og kirkjusögunni. Í tilskipun um skólana hjer á landi frá sama degi, 67. gr., var auk þessa boðið, að sá, sem hefði fengið burtfararvottorð, skyldi undir eins sýna það biskupinum, og beiðast af honum brjeflega eður munnlega, að mega undir umsjón og leiðbeiningu einhvers vandaðs, góðs og ráðsetts prests fara að æfa sig í að prjedika, spyrja börn og öðrum embættisgjörðum, og sem *studiosus theologiæ* & *bonarum artium* fara að búa sig undir það embætti, er hann með skólaveru sinni hefði gjört sig hæfan til. Enginn prestur mátti lofa neinum stúdent að stíga í prjedikunarstólinn, til að

halda þar ræðu fyrir samkundu, nema stúdentinn áður sýndi honum prjedikunarleyfi frá biskupinum.

Að vísu virðast þessi boð áhræra þá eingöngu, er útskrifaðir voru úr latínuskólunum, og án þess að hafa gengið undir önnur æðri próf, gátu fengið prestsembætti hjer á landi. Að því er þá skyldu snertir, að svara hinum árlegu spurningum, þá bæði hljóðar tilskipunin 3. maí 1743 eptir fyrirsögninni, að eins um dimissos frá latínuskólanum á Íslandi, og líka undanskilur hún þar að auki með berum orðum frá þessum prófum þá, *sem komnir eru í embætti,* og eins þá, *sem hafa tekið annað próf við háskólann,* enn *Deposits,* og því *alla theologiska candidata frá háskólanum í Kaupmannahöfn.* Hún getur því eigi heldur náð til *candidata frá prestaskólanum;* hvorki hljóða orð tilskipunarinnar upp á þá, eins og löggjafinn eigi heldur hefir getað átt við þá, þar prestaskólinn eigi var kominn á fót er tilskipanin út kom, og líka hafa þeir þar gengið undir æðra próf í guðfræði, er setur þá við hliðina á *candidötum* frá háskólanum í Kaupmannahöfn. En með því það þó mun hafa verið venja í hið minnsta undir sumum biskupum, að *candidatar frá háskólanum* líka hafa svarað þessum spurningum, og það í mörgu tilliti gæti verið lofsvert, að þessi vani viðhjeldist, einkum ef ríkt væri gengið eptir, að allt færi fram í reglu með svörin, og þeim síðan góður gaumur gefinn, svo eigi stæði á sama, hvernig þau væri af hendi leyst, ætti enginn háskólacandidat nje presta-

skólacandidat að skorast undan að svara þessum spurningum, er þeir væri kvaddir til þess.

Eins hlýtur það og að vera mikil meðmæling með hverjum, er um prestsembætti sækir, að hann hafi æft sig í að prjedika og spyrja börn, en hvergi er. þó boðið, að kandídatar í guðfræði skuli hafa biskups leyfi til að mega gjöra þetta.

2. Má siðferði manns eigi hafa verið slæmt; hann má ekki neitt það hafa gjört, nje neinn sá blettur liggja á honum, er hamli mönnum eptir löggjöfinni að fá opinber embætti yfir höfuð.

Eptir Kr. 5. D. L. 2. bók. 2. kap. 5. art. má og engum stúdenti, er gjörir sig legorðssekan, veita neitt prestsembætti, nema hann áður hafi fengið konunglega uppreist, er ekki veitist fyrr, en 2 ár eru liðin frá brotinu, og verður hann að senda, eptir kgsbrjefi 9. maí 1738, skilríki fyrir því:

a, *að* stúlkan, er hann fjell með, eigi sje skyld honum í forboðna liðu; *að* hún eigi hafi verið undir tilsögn hans; *að* hann eigi hafi brotið nema einu sinni (hafi það verið optar, verður samt að geta þess).

b, *hvort* hann hafi átt stúlkuna.

c, *hvernig* hann hafi hegðað sjer bæði á undan og eptir.

Samt má eigi veita honum, þó hann fái uppreistina, það brauð, þar sem brotið var drýgt í. Ef hann optar brýtur, má hann aldrei úr því fá neitt prestsembætti. Hafi hann brotið með þeirri stúlku, er honum hefir verið trúað fyrir að kenna, á hann

og aldrei neitt embætti að fá eptir tilskip. 9. júlí 1745. Í tilsk. 24. janúar 1838, 12. gr., er boðið, að áminnzt tvö lagaboð, D. L. 2—2—5, og tilsk. 1745, skuli hafa lagagildi hjer á landi, og er næst að skoða þetta sem reglu fyrir brauðaveitingunum.

Að vísu virðist svo, sem og hafi verið ætlazt til í tilsk. 1838, 12. gr., að D. L. 2—2—5 skyldi einnig verða beitt gegn stúdentum þeim hjer á landi, er of snemma samrekkja konum sínum, eins og líka sjest af nefndu konungsbrjefi 9. maí 1738, að í Danmörku hefir verið gjört; en þessu hefir samt eigi verið fylgt hjer á landi í brauðaveitingunum, án efa af því, að það hefir virzt of óljóst, að slíkur skilningur yrði leiddur út af D. L. 2—2—5 eingöngu, en tilsk. 9. maí 1738 væri hjer eigi lög.

Í tilsk. 3. júní 1746 um drykkjuskap er og sagt, að eigi skuli veita þeim stúdenti prestakall, er drekki sig drukkinn, fyrr en biskupinn sje orðinn sannfærður um, að hann sje búinn að bæta ráð sitt.

3. Má enginn verða prestur, eða fá geistlegt embætti, fyrr en hann er fullra 25 ára; sbr. embættisbrjef biskupanna 1. júlí 1746, 42. gr., o. fl.

Auk þessa verður sækjandinn að hafa innfæddra rjett; sjá tilsk. 15. janúar 1776 og opið brjef 15. febr. s. á.; sjá og tilsk. 17. nóvember 1786, 8. gr.

Allir þeir útlendir menn, er sækja um embætti hjer á landi, verða einnig að sanna með áreiðanlegum vitnisburði, að þeir kunni að mæla á íslenzka tungu; sjá kgs.brf. 8. apríl 1844; og menn mega vænta, að til hinna andlegu embætta hjer á landi,

verði aldrei teknir nema þeir, er fullkomlega kunni málið, og lýtalaust geti talað það, og flutt ræður í því; að veita þau öðrum, þeim, er eigi gæti þetta hneyxlislaust, væri til að drepa allar guðrækilegar hugsanir hjá söfnuðunum, í stað þess að örfa og efla þær.

## 12. gr.

Skyldur andlegra embættismanna yfir höfuð, er leiða af stöðu þeirra.

Það leiðir beinlínis af stöðu hinna andlegu embættismanna, þar eð þeim er trúað fyrir því, að efla og útbreiða í kirkjunni sanna trú á guði og sannan guðsótta, að trú sú, er þeir hafa og útbreiða, verður að vera ómeinguð, og eins, að lifnaður þeirra verður að vera góður og samboðinn trúnni, svo þeir gefi af sjer gott eptirdæmi; þetta er og í lögunum á fleirum stöðum með berum orðum gjört þeim að skyldu, eins og prestarnir líka lofa með eiði þeim, er þeir eptir *kirkjuritúalnum* 25. júlí 1685 eru látnir sverja á latínu, eptir að nýbúið er að vígja þá, að gegna eptir mætti þessum skyldum sínum.

Allir þeir, er hafa nokkurt kennimannlegt embætti á hendi, eður hafa yfirumsjón yfir þeim, ætti og að vera sannfærðir um sannindi þeirra aðaltrúargreina, er hin drottnandi kirkja hefir viðtekið, og aldrei takast á hendur þvílíkt embætti, ef þeir eigi álíta þær sannar, og eins leggja það niður, ef þeir komast til þeirrar skoðunar, eptir að þeir hafa fengið embættið, að önnur trú sje rjettari. Ef þeir og

kenna nokkuð gagnstætt aðaltrúargreinum kirkjunnar, og gjöra sig þannig seka í villulærdómi, leiðir það af sjálfu sjer, að þeir hljóta að missa embætti sitt, þar eð þeir þá nota það gagnstætt því augnamiði, er þeim var veitt það í, með því að kenna eða aðhyllast opinberlega þá trú, sem niðurbrýtur þá, er þeim er trúað fyrir að kenna og útbreiða.

Að því er lifnað þeirra snertir, heimta lögin eigi að eins, að þeir haldi sjer frá öllum almennum glæpum og embættisafglöpum, heldur og allri opinberri ósiðsemi, er stöðu þeirra sje ósamboðin, og hneyxli geti af sjer getið, til að mynda öllum hneyxlanlegum drykkjuskap (sjá tilsk. 27. maí 1746 um húsvitjanir presta, 7. gr., tilsk. 3. júní 1746 um drykkjuskap, o. fl.).

Í kgsbrjefi 10. desember 1646 var boðið, að allir þeir prestar, er gerði sig seka í hórdómi eður legorði, skyldi afsetjast og eigi fá annað prestakall, fyrr enn þeir hefði fengið konunglega uppreist. En þessu konungsboði — konungurinn var þá eigi orðinn hjer einvaldur — var samt eigi fyllilega fylgt, án efa af því það hefir í ýmsu tilliti þótt ísjárvert, að leika presta svo hart, þó þeim yrði á þessi yfirsjón; en samt var þeim vikið frá prestskap um tíma, einkum gerði þeir sig hórseka, en veitt síðan aptur brauð, ef þeir bættu ráð sitt, án þess konunglegrar uppreistar væri þó leitað fyrir þá. En með konungsbrjefi 27. febrúar 1756 var áminnzt konungsbrjef ítrekað, og boðið, að prestum, er bryti af sjer prestskap, skyldi eigi mega veita nokkurt prests-

embætti, nema þeir fengið hefði konunglega uppreist.

Í D. L. 2—11—3 er boðið, að hverr sá prestur, er eigi nokkra þá stúlku, *er af öðrum áður hafi verið legin*, eður það upp komi, *að hann hafi samrekkt konu sinni áður, enn þau urðu hjón*, skuli missa embætti sitt. Um þessa ákvörðun hefir hjer á seinni árum lítið verið hirt; sjerskilin hefir hún eigi heldur verið lögleidd hjer, og *að fara* að beita svo hörðu lagaboði gegn prestum sökum hinnar almennu ákvörðunar í tilskipun 24. janúar 1838, 1. gr., fyrir þessar smáyfirsjónir, er þó nú eigi eru skoðaðar sem hegningarverðar í sjálfu sjer, hefir, ef til vill, þótt hæpið.

Það sæmir og illa andlegum embættismönnum að vera *prætukærir, liggja í málaferlum að nauðsynjalausu, spana aðra upp til óeirða, eður mæta fyrir þá í málum*, kgsbrjef 9. maí 1593, kirkjuord. Kr. 4. kap. IX; þó er þeim engan veginn láanda, að þeir leiti rjettar síns, sem aðrir menn, þegar þeim er synjað um hann, eður þeim er gjörður órjettur. Eins væri það og óviðurkvæmilegt, að þeir hefði veraldlegt vald á hendi eður legði fyrir sig borgaralega atvinnuvegi í kaupstöðunum, kirkjuord. Kr. 4. kap. IX.

## 13. gr.

### Rjettindi hinna andlegu embættismanna yfir höfuð, sökum stöðu þeirra.

Hinir andlegu embættismenn fá, eins og eðli-

legt er, *laun* fyrir starfa sinn, og eru þar að auki *undanþegnir ýmsum almennum álögum* eður *njóta í þeim ýmsra hlunninda*, sem síðar skal nákvæmar sagt verða; þeir njóta og mikillar friðhelgi í embættisstörfum sínum, tilsk. 4. október 1833, 18. gr.; hafa sjerskildan einkunnarklæðnað (prestshempu, rykkilín og hökul), og nefnast almennt *velæruverðugir*, en þeir af þeim, er nafnbót hafa, svo sem biskupinn, *doctorar theologiæ* eður *philosophiæ*, *Consistorialráð* og *Consistorialassessorar*, *háæruverðugir*. Loks hafa hinir andlegu embættismenn sjerskilt varnarþing og dómsvald í *öllum andlegum málum*. Í fyrndinni var þessi rjettur einhver helzta styttan undir klerkavaldinu; voru þá langtum fleiri mál kölluð andleg, enn nú eru það; yfir andlegum mönnum máttu og eigi heldur dómar ganga af leikmönnum, og andlegir höfðingjar dæmdu sumstaðar í öllum málum, er gjörðust á góðsum þeirra, t. a. m. biskupar hjer í flestum málum, er gjörðust heima á biskupssetrunum. Hvað hjer á landi nú skuli telja til andlegra mála, er ákveðið í tilsk. 27. nóvember 1816; þar segir svo í 2. grein: *að þau mál, er eigi snerti andlegra embættismanna skyldur eður háttalag í embættisfærslu, skuli eigi álíta sem andleg mál, heldur skuli þau undantekningarlaust, hvort heldur hlutaðeigöndum sje stefnt sem málspörtum eður sem vitnum, verða flutt fyrir hinum almennu dómöndum, og dæmd af þeim.*

Með því nú andlegir embættismenn geta með fleiru enn embættisafglöpum, og að vanrækja embætti

sín, brotið gegn embættisskyldum sínum, t. a. m. með ljótum lifnaði, er eigi sæmi stöðu þeirra, án þess þeir þó að öðru leyti gjöri sig með honum hegningarverða eptir almennum lögum, og þar eð andlegir bezt mega geta dæmt um slíkar yfirsjónir, hversu mikilsvarðandi þær sje fyrir hina andlegu embættismenn, virðist eðlilegast að skilja nefndan lagastað svo, að til geistlegra saka eigi að telja:

1. *Þær sakir*, er áhræra skyldur þær, er *sjerstaklega* liggja á andlegum embættismönnum sökum þeirra sjerstaklegu embættisstöðu, og

2. *Þær sakir*, er áhræra embættisfærslu þeirra, sjá og reglugjörð fyrir *Tranqvebar*, 8. janúar 1781, 12. gr.; þar er sagt, að þegar lögsækja verður andlega embættismenn fyrir yfirsjónir þeirra í *embætti* og *framferði*, skuli höfuðsmaðurinn þar setja *Consistorialrjett*, o. s. frv.

3. Verður til andlegra málefna og að reikna þau *veraldlegu* störf, er sameinuð eru andlegum embættum.

Í öllum borgaralegum málefnum þar á móti og reglulegum sakamálum hafa hinir andlegu ekki sjerskilt varnarþing. Um biskupinn gilda þó nokkuð aðrar reglur, enn aðra andlega, sem síðar skal sagt verða.

Í hinum andlegu málum á fyrst að stefna fyrir prófastsdóm. Um dóm þenna er svo ákveðið í nefndri tilsk. 1816, 5. gr., að, þegar prófastsdómur sje settur, eigi hinn verzlegi undirdómari á þeim stað, þar sem dómurinn sje haldinn, að taka sæti í

dóminum bæði sem dómari og ritari. Undirdómarinn og prófasturinn skuli sitja eptir nafnbótum í dóminum (sá sumsje ofar, er æðri sje að þeim), og í 6. gr. er sagt, að veraldlega sóknara skuli setja í þeim málum, er komi í þá dóma.

Í þessu síðasta er engin breyting gjörð við tilsk. 24. janúar 1838, þó þar sje boðið, að við undirdómana skuli eigi setja sóknara, því tilskipun sú ræðir að eins um regluleg sakamál, er koma í hina *almennu* dóma, og snertir því ekki prófastsdóminn, nje þau mál, er þangað koma.

Í brjefi sínu til stiptsyfirvaldanna hjer á landi, dagsettu 31. maí 1823, áleit *kansellíið:*

1. *Að* meðdómendur þeir, er fyrr hefði verið hafðir við prófastsrjettinn, ekki þyrfti nú lengur að mæta.
2. *Að* þegar hvorki prófasturinn nje sýslumaðurinn hefði nafnbót, hefði sá forsætið, er eldri væri embættismaður;
3. *Að* dómendurnir mætti setja dóminn annaðhvort á hinum venjulega þingstað, eður öðrum hentugum og fyrir hlutaðeigendur hagkvæmum stað.
4. *Að* ekkert gæti verið móti því, að það, sem framfæri, væri ritáð í þingbók sýslunnar.

En þó kansellíið þannig áliti, að meðdómendur þyrfti nú eigi lengur að mæta hjer á landi í prófastsdóminum, og venja sje nú í Danmörku, að þeir eigi mæti þar, þá hvorki hafði kansellíið nokkurt löggjafarvald, og eins getur það eigi heldur verið nein bindandi regla hjer á landi, hvað *venja* er eður verður í Danmörku í einhverju efni.

Í konungsbrjefi 20. janúar 1736 var boðið, að í prófastsdóminum hjer á landi skyldi sitja *prófasturinn og tveir af hjeraðsins prestum;* en ef eigi væri í hjeraðinu eður prófastsdæminu tvo óvilhalla presta að fá, eður er viðlátnir væri, skyldi taka presta úr næsta hjeraði. þessi ákvörðun um meðdómendurna hlýtur enn að vera í fullu gildi, þó hinir veraldlegu undirdómendur nú eptir tilskipuninni 1816 líka eigi að taka sæti í prófastsdóminum.

Biskupinn ákveður, hvenær prófastsdóm skuli halda, og er honum þykir nauðsyn tilbera, verður hann því að gjöra nauðsynlegar ráðstafanir til þess, að hann komist í gang; segja prófastinum að taka málið fyrir, og útbúa hann, sem þarf; líka verður hann að láta amtmanninn vita þetta, svo amtmaðurinn geti sagt undirdómaranum að mæta í prófastsdóminum, og eins sett sóknara í málið.

Eptir því, sem boðið er, þar sem áþekkt stendur á, virðist rjettast, að stefnan og dómsgjörðirnar sje gefnar út í dómsins nafni, og að forsetinn setji nafn sitt og innsigli undir dómsgjörðirnar, en ritarinn nafn sitt og innsigli undir stefnuna. það, sem flest atkvæði eru fyrir, verður dómur: en sje atkvæði jafnmörg fyrir tvennu, þá atkvæði forsetans og þess, er honum fylgir.

þá dóma, sem prófastsdómurinn dæmir, má áfrýja fyrir *synodal*rjettinn. Í honum hafa forsæti, eptir *kansellí*brjefi 31. marz 1787 bæði stiptamtmaðurinn og biskupinn; stefnan á að gefast út í beggja nafni, og dómurinn kveðast upp í beggja nafni, þó þannig, að stiptamtmaðurinn, sem hinn

æðri, nefnist fyrr, og hann undirskrifar fyrr; en biskupinn nefnist eptir hann, og ritar nafn sitt undir við hliðina á honum, og sömu reglu á að fylgja við ritun dómsgjörðanna; og að því er atkvæðagreiðsluna snertir, þá á stiptamtmaðurinn, sem situr við biskupsins hægri hlið í synodalrjettinum, að gæta að því, að allt fari fram í reglu og með siðsemi, og hefir atkvæði í öllum þeim málum, er þangað koma, (sjá og hjer um kgsbr. 18. október 1771). Um *synodus* skal annars seinna verða talað nokkuð nákvæmar.

## 14. gr.

Um presta og prestaköll yfir höfuð.

*Prest* nefnum vjer nú hvern þann, er vígður hefir verið til andlegrar stjettar, og eigi er vígður biskupsvígslu. Þannig köllum vjer presta, bæði sóknarprestana og eins kapellána, hvort sem þeir þjóna að embættum, eður eru hættir því, ef þeir eigi hafa misst prestinn. *Sóknarprestur* er sá prestur, sem fengið hefir eina eður fleiri kirkjusóknir til að þjóna, eður sá andlegur embættismaður, sem falið hefir verið á hendur að fremja öll andleg störf, er fyrirfalla í einni eður fleirum kirkjusóknum. *Kirkjusókn* nefnast allir þeir bæir til samans, er liggja að sömu kirkju. Að *bænhúsi* liggja engir bæir. Sóknir þær, sem hafa sama prest, nefnast *prestakall;* í prestakalli er stundum að eins ein sókn, þegar hún hefir prest út af fyrir sig. Hverjar sóknir skuli vera í hverju prestakalli, er nú orðið fastákveðið við venjuna, sem í öndverðu

er byggð á ákvörðunum biskupanna, er nú eru margar glataðar. Þegar haft er tillit til tekna þeirra, sem presturinn hefir af prestakallinu, kallast það *brauð;* brauðin geta annaðhvort verið *ljensbrauð (benificia),* þegar kirkjan á sjálf heimaland sitt og eignir sínar, og presturinn hefir þær að ljeni; eður þau eru það ekki, þegar presturinn engar kirkjueignir hefir að ljeni; í þessum síðarnefndu brauðum eru optast fleiri en ein sókn, og nefnast þau þá nú á dögum *þingabrauð.* Þegar presturinn í þeim brauðum, sem fleiri sóknir eru í, hefir að ljeni eignir kirkjunnar í einni þeirra, og heimaland þeirrar kirkju er ætlað honum til ábúðar, nefnist þessi kirkja *heimakirkja, aðalkirkja* eður *höfuðkirkja,* og sókn sú, sem hún er í, *heimasóknin, aðalsóknin* eður *höfuðsóknin;* en kirkjurnar í hinum sóknunum, sem eru lagðar til aðalsóknarinnar, *útkirkjur, annexíur, annexíukirkjur,* og sóknir þær, sem útkirkjurnar eru í, *útsóknir* eða *annexiusóknir.* Kirkjurnar nefnast og *heilkirkjur, helmingakirkjur* og *þriðjungakirkjur* eptir því, hvort messa á í þeim á hverjum helgum degi, eður annanhvern helgan dag, eður þriðjahvern o. s. frv. Þegar tveimur ljensbrauðum er slengt saman í eitt prestakall, eður þegar 2 slík prestaköll eru sameinuð, og ákveðið er, í hverju þeirra presturinn skuli sitja, gæti menn kallað það, sem hann á að sitja í, *heimabrauðið,* en hitt *útbrauðið* eður *útbrauðin,* ef fleirum en 2 væri slengt saman. Rjettindi þau, er sóknarprestum bera sökum embættisstöðu þeirra, eður *sóknarprestarjetturinn,* eru bæði fólgin í

embættisvaldi þeirra, og líka í rjetti þeirra til allra þeirra preststekna, er brauðin gefa af sjer. Samfara þessum rjetti þeirra er sú skylda manna, að nota sóknarprestinn til allra þeirra prestsverka, er á þarf að halda í sóknum hans, sjá K. O. Kr. IV. kap. IX, þó er þar sagt, að menn megi nota aðra presta með samþykki sóknarprests síns, eður eptir boði biskupsins.

## 15. gr.

Um brauðaveitingu.

Fyrst framan af í kristninni veittu *biskuparnir* öll hin lægri andlegu embætti, en fóru í því mjög eptir tillögum safnaðanna og prestanna. Seinna kom það upp, að þegar einhverr hafði látið byggja kirkju eður stofnað með gjöfum eitthvert andlegt embætti, voru honum veitt ýms rjettindi yfir kirkjunni eður embættinu, og þar á meðal rjettur að stinga upp á nokkrum mönnum til embættisins, þegar það losnaði, er biskupinn þá var bundinn að veita einhverjum þeirra, ef þeir voru til þess hæfir, og stundum var að eins einn kosinn, og var biskupinn þá alveg bundinn við kosninguna, ef hinn kosni var hæfur. Öll þessi rjettindi, er höfundinum voru veitt yfir kirkjunni eður brauðinu, nefndust verndarmannsrjettur (*jus patronatus*) og gengu stundum í erfðir til afkomanda hans; einkum átti það sjer þó stað, þegar voldugir höfðingjar höfðu byggt bænhús heima hjá sjer, og hjeldu þar sjálfir á sinn kostnað *heimilisprest;* því seinna lögðust þar að fleiri bæir eður sókn, svo bænhúsið varð með tímanum

að sóknarkirkju. og heimilispresturinn að sóknarpresti; en höfðinginn eður afkomendur hans hjeldu sömu völdum yfir embættinu og kirkjunni, sem þeir áður höfðu haft yfir heimilisprestinum og bænhúsinu. Í pápisku tíðinni veittu biskuparnir hjer á landi öll ljensbrauð, þó veittu erkibiskuparnir í Niðarósi ástundum nokkur hin beztu þeirra, en bændur áttu sjálfir að fá presta að kirkjum sínum.

Eptir kirkjuordínantsíunni áttu sóknarbændur sjálfir að kjósa prest sinn, en það komst hjer þó aldrei reglulega á, heldur viðhjelzt fyrri vaninn fyrst um sinn, að biskuparnir veittu brauðin; en bráðum snerist þó þetta svo, að amtmennirnir tóku almennt til að veita þau, en voru í því samt nokkuð bundnir við uppástungur og tillögur biskupanna. Ástundum veitti og konungurinn sjálfur beinlínis brauð, er sótt var um þau til hans. Biskuparnir hjeldu samt sem áður áfram að veita prestsembættin heima á biskupsstólunum sjálfum, og líka stundum í sóknum þeim, þar sem biskupsstólarnir áttu kirkjustaðina, og hjelzt þetta lengi fram eptir. Þegar prestarnir fengu leyfi til eptir siðaskiptin að fara að kvongast, og tóku til að eiga konu og börn, urðu ónógar víðasthvar tekjur þær, er þeim fyrrum höfðu verið ætlaðar í bændakirkjusóknunum; hættu því þá flestar kirkjusóknir þessar að hafa sjerskilda presta, og lögðu þá biskuparnir sem optast þær sem útsóknir eður annexíur við næstu ljensbrauð, eður settu einn prest yfir fleiri þeirra, þar sem þeim þótti það hagkvæmara, og í sumum hjeruðum var

allri sóknarskipuninni breytt. þar sem þó voru ríkir kirkjueigendur, er gátu fengið einhvern sjerskildan prest til að þjóna sókn sinni, voru þeir látnir sjálfráðir í að kjósa prest til þeirra, og eins þó presturinn hefði að þjóna einhverjum smákirkjum að auki.

En við kgs. brjef 10. maí 1737 og 29. janúar 1740 var skipað svo fyrir: *að konungurinn áskildi sjer sjálfum að veita stærstu brauðin, sem metin væri yfir 100 rd., og skyldu prestarnir gefa fyrir veitingarbrjefin jafnt og aðrir sóknarprestar í konungsins ríkjum og löndum.* þessi brauð eru: 1. *Breiðibólstaður* í Fljótshlíð; 2. *Grenjaðarstaður*; 3. *Oddi*; 4. *Staður* á Ölduhrygg; 5. *Hítardalur* og 6. nú eptir kgs.br. 2. desember 1791, *Seltjarnarnesbrauðið* eður *Dómkirkjubrauðið*, er þó er eigi metið nema 80 rd. að því er prestsekkjustyrk snertir. *Öll þau brauð þar á móti, er metin væri 100 rd. eður minna, skyldi stiptamtmaður veita eptir uppástúngum og tillögum biskupsins, en væri brauðið 40 rd. eður þaðan af meira, skyldi þó fá konunglega staðfestingu fyrir veitingunni, er skyldi jafnt kosta, og staðfestingarbrjef kapellána (semsje í Danmörku) kostaði.* Ef *brauðið* þar á móti væri *undir 40 rd., skyldi engrar konunglegrar staðfestingar viðþurfa, og veitingarbrjefið eigi kosta nokkuð.* þessu er nú þannig breytt við kgsúrskurð 14. maí 1850, *að stiptamtmaður og biskup eiga nú báðir í sameiningu og eptir samkomulagi að veita þau brauð í konungs nafni, er stiptamtmaður áður einn veitti; en beri svo við, að þeir eigi geti orðið ásáttir um, hverj-*

*um þeir skuli veita eitthvert brauð, og sinn vilji veita það hvorum, eiga þeir að sendá málið ráðherra kirkjumálefnanna.* Að vísu er eigi getið um, hvað ráðherrann eigi að gjöra við málið, en það virðist liggja í augum uppi, að honum beri að leggja það undir úrskurð konungs, því það er konungs eins að veita þesskáttar embætti og þeirra, er hann umbiður, og liggur með öllu fyrir utan ráðherralegt vald. Þrátt fyrir áminnzt lagaboð er nú tekið fyrir staðfestinguna jafnt og fyrir konunglegt veitingarbrjef presta, sem nú er 14 rd., 48 sk., og full borgun í hvert skipti, sem presturinn fær brauð, sem er 40 rd. eður meira, sem þó er gagnstætt því, er viðgengst, er önnur embætti eru veitt, því þar kemur til afdráttar, það er menn áður hafa goldið fyrir embætti sín.

Eptir kgsbrjefi 2. desember 1791 átti, þegar eitthvert af minnstu brauðunum varð laust, og ef enginn þá sækti um það, að fara eptir kgsbrjefi 10. maí 1737, þannig, að einhverr hjer á landi útskrifaður stúdent, er lengst hefði notið ókeypis kennslu í skóla, og sem annars væri hæfur til þess, skyldi skikkast þangað. Þeim, er þannig yrði skikkaðir til smábrauðanna, átti að heita því (ɔ: í skikkunarbrjefinu), að þeir, að nokkrum árum liðnum, skyldi fá betra brauð, ef þeir hegðaði sjer vel, og þeir þá fyndist hæfir til þess. Eins og í þessum tveim áminnztum konungsbrjefum 1737 og 1791 að eins er talað um, að skikka *stúdenta*, svo er og í kgsbrjefi 19. janúar 1742 boðið, að veita engum *studioso frá dómkirknanna skólum,* sem eigi við

háskólann í Kaupmannahöfn hefði tekið embættispróf í guðfræði eður þá nokkra stund hefði verið *rektor* eður heyrari við skóla, *miðlungsbrauðin* eður *hin betri*, þegar prestur á lakari brauðunum sækti, sem biskupinn áliti hæfan til að fá brauðið, og þetta var boðið, eptir því sem konungsbrjefið orðar það: »til þess að því betra yrði að fá presta í fátæku og ljelegustu brauðin«, eður til þess, að fækka eigi tölu þeirra að óþörfu, er eptir konungsbrjefi 1737 mátti skikka til ljelegustu brauðanna. Þetta seinast nefnda kgsbrjef frá 1742 gjörir það þannig með öllu vafalaust, er og leiddi af sjálfu sjer, að löggjafinn hvorki hefir ætlazt til, þó konungsbrjefið 1737 sje, ef til vill, nokkuð ónákvæmlega orðað, að prestar eður kennendur við skólana yrði skikkaðir til brauða, nje kandídatar frá háskólanum, þó þeir væri embættislausir, er og hefði eigi getað rýmzt með forrjettindum þeim til brauða, er þeim höfðu verið gefin með kgsbrjefi 1633; heldur hefir löggjafinn í kgsbrjefinu 10. maí 1837 að eins átt við þá stúdenta, er hvorki væri komnir í neina andlega eða neina veraldlega stöðu, nje hefði notið nokkurrar æðri menntunar, enn þeirrar, er latínuskólarnir gæfi; með því menn og í hvorumtveggja þessum tilfellum hætta þá að kalla þá stúdenta, og fara að nefna þá eptir þeirra nýja standi.

Eptir þessu, sem nú hefir verið sagt, urðu kandídatar frá prestaskólanum eigi heldur skikkaðir til brauða, því hvorki hefir löggjafinn getað haft þá í huga í áminnztum kgsbrjefum 1737 og 1791, þar prestaskólinn þá eigi var stofnaður, og eins heyra

þeir eigi heldur fremur undir orðin í konungsbrjefum þessum, enn prestar og aðrir þeir embættismenn gjöra, er lært hafa út í skólum hjer á landi, eður kandídatar frá háskólanum; og loksins höfðu þeir fengið að nokkru leyti jafnrjetti til brauða með háskólakandídötum. En eptir konungsúrskurði 17. maí 1862 *má nú gjöra að skyldu þeim, er læra á prestaskólanum, og njóta þar ölmusu, að þeir skuli taka á móti köllun, er þeir verða kandídatar, til rýru brauðanna, er við þarf, móti því að þeim sje gefin von um að sjerlegt tillit skuli verða haft til þeirra, þegar þeir sje búnir að þjóna slíkum brauðum um hæfilegan tíma, með að veita þeim þá betra brauð, og að þeir tafarlaust skuli skila aptur, skorist þeir undan að taka móti köllun þessari, fjárstyrk þeim, er þeir þar hafa þegið,* og hefir dómsmálaráðherrann boðið stiptsyfirvöldunum að segja hverjum þeim, er þau veitti ölmusu á prestaskólanum, að honum væri ölmusan veitt með þeim skilmála, að hann, með því að þiggja hana, álitist áð undirgangast það, er stæði í áðurnefndum konungsúrskurði. Þessi nýi skikkunarjettur stiptsyfirvaldanna er því næsta ólíkur hinum fyrra skikkunarrjetti þeirra, því hann byggist á *samningi* millum þeirra og þess, er þau veita ölmusu á prestaskólanum.

Þó nú prestar, sem veitt hefir verið brauð af stiptamtmanni og biskupi, eigi sje konunglegir embættismenn — því svo nefnast að eins þeir embættismenn, er hafa veitingarbrjef fyrir embætti sínu af konungi — verður þeim engan veginn velt úr em-

bættum sínum aptur með úrskurði stiptsyfirvaldanna, heldur að eins annaðhvort með konunglegum úrskurði, eður lögum og dómi; því bæði er slíkt hvergi heimilað í lögunum, og líka er ekki embættið þess eðlis, að sá, sem því þjónar, sje þannig háður stiptsyfirvöldunum; það er og vegna fjarlægðar landsins frá konunginum, að stiptsyfirvöldunum er veitt þetta leyfi að veita flest öll prestaköll hjer (sjá ástæðurnar fyrir kgsbrjefi 10. maí 1737). Í tilskipun 4. marz 1595 er og hirðstjórunum bannað að afsetja presta nema eptir lögum og dómi.

## 16. gr.
### Áframhald.

Að gefa þær reglur fyrir brauðaveitingunum, er beita megi, hvernig sem á stendur, er án efa eigi unnt; verðleiki sækjanda er að vísu mest kominn undir lærdómi þeirra í guðfræði og góðri breytni; þó er það eðlilegt, að þeir, sem þjónað hafa andlegu embætti fyrr, gangi fyrir þeim, er eigi hafa gjört það, þegar aðrir verðleikar þeirra eru jafnir, og hafi þeir gjört það bæði vel og lengi, þó þeir þá takist fram yfir aðra, sem óreyndir eru, þó þeir annars kunni að vera efnilegir, og efnilegri, en hinir virtust fyrst, er þeir byrjuðu prestskap sinn. Við þetta bætist það, að prestum hjer á landi er trúað fyrir prestssetrunum og kirkjum þeim, sem þar eru, svo að stundum getur verið ástæða til, að hafa við brauðaveitinguna nokkurt tillit til dugnaðar í búskaparsökum og efnahags þess, sem sækir. En einmitt af

þessu sagða er það þó á hinn bóginn auðsætt, að það verða að gefast nokkrar almennar reglur, er fara má sem optast eptir, er dæma skal um verðleika sækjanda. þannig setti konungurinn í brjefi 11. marz 1633 þær reglur höfuðsmönnunum í brauðaveitingunni, að þegar einhverr, er tekið hefði embættispróf í guðfræði við háskólann í Kaupmannahöfn, og að öðru leyti hegðaði sjer vel, sækti um eitthvert brauð hjer á landi, skyldi engum öðrum veitast það enn honum. þetta boð gat samt eigi lengur staðizt, eptir það að búið var að stofnsetja prestaskólann hjer á landi, einkum þar löggjafinn sjálfur áleit, að menn, með því að læra á honum, yrði að verða hjer um bil jafnhæfir til að fá andleg embætti hjer á landi, sem með því að lesa guðfræði við háskólann í Kaupmannahöfn; og með því áminnzt boð þar að auki hlaut á stundum að vera mjög hart, til að mynda að *kandídatar* í guðfræði frá háskólanum með lökustu einkunn skyldi, undir eins og þeir hefði aflokið embættisprófi, takast fram yfir duglegustu prófasta og presta á landinu, hvað vel sem þeir hefði staðið í stöðu sinni, og hvað lærðir sem þeir væri, ef þeir ekki hefði tekið háskólapróf í guðfræði — þá fann löggjafinn fulla ástæðu til, að kalla þetta boð sitt aptur með úrskurði 30. júlí 1850. Í þessu konungsbrjefi er ákvarðað, að *kandídatar í guðfræði frá háskólanum í Kaupmannahöfn* og *kandídatar frá prestaskólanum skuli ganga jafnhliða þannig:* að *þeir,* sem hafa *afbragðseinkunn* frá prestaskólanum, gangi jafnt með *laudabilistum*

frá háskólanum; *þeir*, sem hafa *fyrstu einkunn* frá prestaskólanum, jafnt þeim, sem hafa fengið *haud illaudabilis primi gradus* frá háskólanum; *þeir*, sem hafa fengið *aðra einkunn* frá prestaskólanum, jafnt þeim, sem hafa *haud illaudabilis secundi gradus* frá háskólanum, og *þeir*, sem hafa *þriðju einkunn* frá prestaskólanum, jafnt þeim, sem hafa fengið *non contemnendus* við háskólann í Kaupmannahöfn. Enn fremur eiga *kandidatar* frá háskólanum og prestaskólanum, eptir þessum jöfnuði, sem gjörður er millum þeirra, *að ganga fyrir öðrum til brauða hjer á landi, þegar aðrir verðleikar eru jafnir.*

það hefir nú varla getað verið vilji löggjafans, að hinir eldri prestar og stúdentar skyldi hafa nokkurn forgangsrjett fyrir *kandidötum* frá háskólanum eður prestaskólanum, einungis fyrir það, að þeir hefði verið prestar, eður væri orðnir gamlir stúdentar, því bæði væri þetta breyting á þeim skoðunarhætti löggjafans, er lýsir sjer í kgs.brjefinu 1633, en að vilji hans í þessu hafi breytzt, geta menn eigi álitið án þess að hafa næg rök fyrir því, en þau vantar með öllu, og líka gæti þá aldrei *kandidatar frá prestaskólanum* komið til að ganga fyrir þessum eldrum prestum og stúdentum, ef ekkert sjerlegt væri út á þá að setja, og yrði ætíð að sitja á hakanum fyrir þeim, þvert á móti áminnztum úrskurði 1850; heldur hefir löggjafinn þar auðsjáanlega ætlazt til þess, að kandidatar frá háskólanum og prestaskólanum framvegis skyldi að vísu sitja í fyrirrúmi fyrir öllum öðrum til brauðanna, en þó

eigi svo, að stiptsyfirvöldin ekki skyldi mega gefa neinum öðrum gaum, er sækti, hvað duglega og framúrskarandi sem þeir hefði sýnt sig, eins og löggjafinn og hefir sjálfur lýst því yfir, að það væri ástæðan, að hann svipti konungsbrjefið 1633 gildi sínu, að stiptsyfirvöldin eptir því eigi hefði mátt hafa tillit til þessa, heldur ætíð orðið að veita *kandídötum* brauðin, þegar þeir hefði sókt. Það liggur þannig engan veginn til grundvallar fyrir þessari breytingu, að löggjafinn síður nú, enn fyrr, skyldi álíta, að lærdómur og dugnaður í embættisfærslu ætti að metast mest, heldur hefir löggjafinn einmitt kallað aptur hið eldra boð í kgs. br. 1633, til þess að þessir verðleikar ætíð skyldi geta setið í fyrirrúmi.

Um forgangsrjett prófasta, og hver meðmæling það sje til brauða, að hafa verið kapellán, skal síðar talað; en um forgangsrjett presta fyrir stúdentum og meðmælingu þá, er það gefur, að hafa verið skikkaður prestur til einhvers af hinum lökustu prestaköllum, er fyrr talað.

Það hefir og verið gömul venja hjer á landi að veita þeim, er staðið hafa um stund fyrir skrifstofum biskupanna, og eins stiptamtmannanna, góð brauð, er þeir sækja þaðan, og jafnvel þó nokkuð gamlir prestar hafi sókt á móti þeim, hafi þeir eigi verið neinir atkvæðaprestar, og hefir þessi venja þótt góð og eðlileg, þar eð staða slíkra manna hlýtur meðal annars að hafa aflað þeim öðrum fremur margbrotinnar þekkingar um kirkjunnar málefni.

## 17. gr.

### Um vígslu og innsetningu presta.

þegar sá, sem fengið hefir eitthvert brauð, ekki er fyrirfram prestur eða kapellán, verður hann fyrst að láta biskupinn reyna sig í guðfræði. Að því búnu er hann vígður af honum, ef biskupinn finnur hann hæfan til að geta vígzt; sjá K. O. Kr. 4. kap. IX. Vígslan framfer að miklu leyti eptir því, sem boðið er í kirkjurítúalnum 25. júlí 1685, kap. X, og síðan er presturinn, þegar hann kemur til sókna sinna, settur, eptir boði biskupsins, hátíðlega inn í brauðið eður prestakallið af prófastinum í þeirri sveit, er brauðið liggur í; þetta er fólgið í því, að prófasturinn stígur í stólinn, les upp köllunarbrjefið, biður söfnuðinn láta sjer farast vel við prestinn, og hvetur prestinn að vanda vel embætti sitt. Í hvert skipti, sem einhverr prestur fær nýtt brauð, á að setja hann inn í það af prófastinum.

## 18. gr.

### Um embættisstörf presta yfir höfuð.

þó prestarnir sje andlegir embættismenn, eru samt við embætti þeirra bundin ýmisleg veraldleg störf, sem þeim eru og á hendur falin. Hin andlegu embættisstörf þeirra eru tvenns konar:

I. *Þau*, sem beinlínis snerta trúarbrögðin, svo sem að embætta og þjóna að sakramentunum, og

II. *Þau*, sem standa að eins í sambandi við trúarbrögðin eður óbeinlínis snerta þau. Hvor-

tveggja þessi störf lúta að því, að bæta úr safnaðanna andlegu þörfum, og má skipta þeim í eptirtalda flokka: 1. *þau,* sem áhræra guðsþjónustugjörðina í kirkjunni: *messuna* og *prjedikunina;* 2. *þau,* sem áhræra sakramentin, *skírnar- og kvöldmáltíðarsakramentin,* og í sambandi við hið síðara standa *skriptamálin;* 3. *þau,* sem áhræra uppfræðingu ungdómsins í trúarbrögðunum, *barnaspurning, ferming* og *húsvitjun;* 4. skyldur presta, er lúta að *hjónabandi;* 5. skyldur þeirra *við veika* og *sakamenn;* 6. skyldur þeirra við *greptrun dauðra;* 7. skyldur að *vaka yfir siðferði manna;* 8. *umsjón prestsins yfir kirkjunum* í prestakalli sínu; 9. *umsjón hans með fátækum* og *hlutteknîng í sveitarsökum.*

Sum af þessum andlegu störfum er boðið að skuli framfara eptir vissum reglum. Í *kristna rjetti Árna biskups* finnast ýmsar slíkar reglur fyrirskipaðar, sem að vísu sumar ekki geta lengur átt við, og eins í *kirkjuordínantsíunum;* en nú fylgja menn í stað þessara reglna, án þess þær þó beinlínis hafi verið með lögum afteknar, almennt *kirkjurítúalnum danska* frá 25. júlí 1685, að því leyti honum vel verður viðkomið, án þess hann þó, nema í fám greinum, hafi verið hjer gjörður að gildöndum lögum; *prestahandbókinni* er og í flestu fylgt og *messusöngsbókin nýja* nú almennt viðhöfð í kirkjunum; biskupar vorir munu og einlægt hafa álitið sjer fyllilega leyfilegt, að laga reglur þessar eptir hugsunarhætti manna hjer á landi og kröfum tímanna.

Í kgs. br. 22. júlí 1796 var landsuppfræðingarfjelaginu, er þá var, veitt leyfi til, að láta búa til nýja sálmabók, og taka inn í hana sálma þá, er útvaldir skoðunarmenn vildi, og biskupinn áliti hentuga, og skyldi svo mega fullgilda sálmabók þá til að verða viðhöfð í kirkjunum hjer á landi; og í *kansellíbrjefi* 10. júlí 1802 var ekki neitt haft móti því, að sálmabók sú, er fjelagið þá hafði látið prenta, og menn þegar voru farnir að syngja á í sumum kirkjum, mætti hvervetna hjer á landi verða viðhöfð við opinbera guðsþjónustu, þó með samþykki hlutaðeiganda safnaða, og án nokkurrar þvingunar.

## 19. gr.

Um embætti prestanna, að því er hina opinberu guðsþjónustugjörð áhrærir.

Fyrst í kristninni var guðsþjónustan fólgin í því, að menn komu saman á hverjum helgum degi, og voru þar þá lesnir nokkrir kaflar úr ritningunni og nokkrar bænir, og síðan var söfnuðurinn til altaris; en með því þeir, er eigi voru í fullri sátt við kirkjuna, ekki máttu vera inni eður við, meðan menn voru til altaris, reis einhverr djákni upp í hvert skipti, er altarisgangan byrjaði, og sagði við þá: *»ite! missa est (ɔ: concio»);* (farið burt! samkoman er úti); þaðan er komið nafnið: *„messa“*. Síðan hætti söfnuðurinn að vera til altaris á hverjum helgum degi, en prestarnir hjeldu áfram að gjöra það; varð þá messan að lokunum í katólsku tíðinni skoðuð sem friðþægingarfórn fyrir lifendur og dauða. Nú er

hjá oss messan fólgin í því, að presturinn tónar fyrir altarinu nokkrar bænir og kafla úr biflíunni; annars köllum vjer þó nú orðið í daglegu tali venjulegast alla guðsþjónustugjörðina í kirkjunni *messugjörð*.

Merkasti parturinn af guðsþjónustunni í kirkjunni hjá oss er *prjedikunin;* hún er sem optast á einn eður annan hátt útskýring yfir guðspjallið, eður þá stundum pistilinn. Í Kristjáns 4. *kirkjuordínantsíu* eru talin upp nokkur atriði, prestunum til leiðbeiningar, er þeir geti lagt út af, til að mynda, að ræður þeirra geti hljóðað um guðs lögmál, guðhræðslu, iðrun, hvernig menn skuli bæta og betra sig, krossinn, bænina, viljafrelsið, kristilegt frelsi, guðs eilífu forsjón, o. s. frv.; þar er þeim og boðið, að fara varlega, og umfram allt að gæta sín, þegar þeir tali um þær trúarinnar greinir, sem langt yfirgangi mannlegan skilning, og að þeir ekki skuli reyna að útskýra nje ræða það, sem er myrkt eður óskiljanlegt, nema þeir með öllu neyðist til þess. Það er líka reyndar víst, að það er sjerlega varlega gjöranda fyrir prestinn — og yrði til lítilla eða engra nota fyrir söfnuðinn — að ætla sjer að fara að útskýra nákvæmlega fyrir söfnuðinum leyndardóma trúarbragðanna; en það virðist þó á hinn bóginn sem prestarnir, þar eð þeir eiga að halda sóknarbörnum sínum við vissa trú, og fræða þau í henni, hljóti að vera skyldir til, að fræða svo söfnuði sína á aðalgreinum þessarar trúar, að söfnuðirnir geti haft meiningu um þær, og trúi þeim. Í eiðnum,

sem prestarnir eru látnir sverja, skuldbinda þeir sig og til, að kenna samkvæmt hinum postullegu og *symbólsku* bókum, er hjer gilda, og *general-kirkju-inspections-collegíið* bauð og í brjefi sínu 26. nóvember 1737, 4. gr., biskupum að sjá til, að prestarnir, í hið minnsta einu sinni á ári hverju, útskýrði fyrir söfnuðum sínum þær aðalgreinir trúarinnar, er nauðsynlegar væri til sáluhjálpar.

Ræðan á ekki að vara lengur en hálfa eður heila klukkustund, í hið minnsta um skammdegið; sjá tilsk. um barnaspurningar 29. maí 1744, 2. gr., og prestarnir eiga að rita ræður sínar, í hið minnsta helzta efnið úr þeim, til þess biskupinn geti sjeð það, þegar hann er í yfirreiðum sínum, eður tekið það heim með sjer, til þess að kynna sjer það þar; sjá tilsk. frá sama degi um helgidagahald á Íslandi, 15. gr.

Í tilsk. 8. október 1824, sem hjer er lögleidd við konungsbrjef 7. des. 1827, er sagt, að hætta skuli því, að lesa upp á prjedikunarstólnum lagaboð þau og tilskipanir, er prestarnir, eptir hinum eldrum lögum áttu að lesa þar árlega á vissum tímum, og að prestarnir enga skýrslu skuli gefa frá prjedikunarstólnum um efni laga þeirra, er útkoma; þar á móti skuli framvegis vera við hið sama, og boðið var í kgs.br. 22. apríl 1740 — þetta konungsbrjef er samt eigi gefið fyrir Ísland og hefir aldrei verið lögleitt hjer — að þær tilskipanir, er beinlínis áhræra almúgann, skuli, auk þess að lesast á þingum, einnig lesast á landinu af kirkjusöngvaranum

út í kirkjugarðinum, og á presturinn, þegar guðsþjónustugjörðin er úti, að láta söfnuðinn vita um þetta, og í 2. gr. er aftekið það, sem í ýmsum eldrum tilskipunum áður hafði verið boðið um birtingu og lestur frá prjedikunarstólnum á ýmsum veraldlegum málefnum, og í þess stað boðið, að þar um skuli fara þannig: að í kaupstöðunum skuli valdsmennirnir annast, að þvílíkir lestrar og auglýsingar fari fram á þann hátt, sem vanalegt sje þar að viðhafa við aðrar opinberar auglýsingar; en á landinu skuli kirkjusöngvararnir auglýsa það og kauplaust lesa og birta það á kirkjustefnum, sem valdsmennirnir og dómendurnir sendi þeim.

Þó hjer sje sagt, að kirkjusöngvararnir eigi að annast þessar birtingar, þá biðja þó sýslumennirnir hreppstjórana fyrir að birta það, er þeir vilja auglýsa á kirkjumótum.

Eptir hverjum reglum guðsþjónustan í kirkjunum annars skuli framfara, sjest af presta-handbókinni.

## 20. gr.
### Áframhald.

Í tilskipun 29. maí 1744 um helgidagahald, 3. gr., er boðið, að messugjörðin hvervetna skuli byrja svo snemma sem verður og að hún aldrei megi byrja seinna, enn um hádegi, og eptir *kirkjuordínantsíu* Kristjáns konungs 4. áttu menn að halda þessa daga helga: alla sunnudaga, 3 Kristí hátíðir, hverja í 3 samfleytta daga, nýársdag eður Kristí umskurnardag, þrettánda dag jóla, kyndilmessu, boðunar-

dag Maríu, Kristí uppstigningardag, Jóns messu skírara, vitjunardag Maríu, Mikjálsmessu, allraheilagramessu, skírdaginn og föstudaginn langa; og með tilsk. 27. marz 1686 var lögleiddur kóngsbænadagurinn.

En með tilsk. 26. október 1770 voru afteknir þessir helgidagar í konungsins ríkjum og löndum: hinn 3. í jólum, páskum og hvítasunnu, þrettándi jóla, kyndilmessa og Jóns messa skírara, vitjunardagur Maríu, Mikjálsmessa og allraheilagramessa. Allraheilagramessu textann skyldi þó þýða og bænina fyrir siðaskiptin lesa sunnudaginn eptir 1. nóvember; boðunardagur Maríu var fluttur á 5. sunnudag í föstu.

Eptir tilsk. 28. marz 1855, 9. gr., byrjar helgin á sunnudögum og öðrum löghelgum dögum nú almennt stundu fyrir miðnætti, kvöldið áður; en á pálmasunnudaginn, er dymbilvikan byrjar á — í tilskipuninni kallast vika sú ranglega páskavika — og bænadaginn á miðaptni daginn áður. Eptir opnu brjefi 26. sept. 1860 helzt helgin alla löghelga daga til kvelds, er vera mun eiga til sama munds, og hún byrjaði kveldinu áður eður til þess stundu fyrir miðnætti; þá hlýtur og helgi bænadagsins að enda, þó hún byrji fyrr. Um hámessutímann er helgin þó mest, tilsk. 28. marz 1855, 1. og 2. gr., og víðar.

Á sjöviknaföstunni var hjer og fyrrum prjedikað í hverri viku einhvern af rúmhelgu dögunum út af pínu Krists, og við tilskipun 29. maí 1744, 14. gr., um helgidaghaldið hjer á landi var á þessu gjört fastara

fyrirkomulag, enn verið hafði, og boðið, að prestarnir eigi mætti eptir vild sinni, eður til hægðar fyrir sig, velja þessa daga eður skipta um þá; heldur eiga eptir henni dagar þessir í hverri sókn að vera einlægt hinir sömu og fastákveðnir, og söfnuðurinn vita þá, semsje miðvikudagarnir í aðalkirkjusóknunum, og eins í annexíusóknunum, ef presturinn og sóknarmenn þar þá geta náð þangað kirkju í tækan tíma; en þar sem menn eiga langt til kirkjunnar, á að prjedika annaðhvort á laugardaginn fyrir sunnudaginn, sem þar er embættað á, eður mánudaginn næsta eptir. Ákvörðun þeirri, sem gjörð hefir verið um þetta, má eigi breyta, í hið minnsta án sóknarmanna vilja og vitundar. Þessi ákvörðun um messugjörð á rúmhelgu dögunum á föstunni er eigi úr lögum numin við tilskipun 28. marz 1855, 16. gr., því hún snertir ekki helgidagahaldið.

Það var venja hjer og fyrrum um allt land að messa á jólanóttunni, og líka sumstaðar á sumardaginn fyrsta, fyrsta dag í vetri, og heitdaginn eður þriðjudaginn fyrsta í einmánaði; komu menn á heitdeginum saman úr mörgum sóknum á vissa kirkjustaði og skutu saman stórfje handa einhverjum efnilegum fátæklingi eður fátæklingum, er mönnum þar kom helzt saman um að styrkja og koma í betra veg; þó voru þessir dagar eigi taldir meðal helgra daga. En í tilskipun 29. mai 1844 var bannað að embætta á jólanóttunni og eins á þessum þrem dögum. En bæði er það, að hugsunarháttur manna í þessum efnum er nú orðinn aptur langtum frjálsari,

enn bann var í Danmörku um miðju fyrri aldar, enda hafa menn nú víða hjer á landi eigi að eins tekið upp hinn fyrra fagra vana, að halda kveldsöngva í kirkjunum á jólanóttunni, heldur er líka farið að halda þá á aðfangadagskveld nýársdagsins, og samkvæmt þessu mundi það eigi heldur verða átalið, þó sú fagra venja yrði tekin upp aptur, að menn kæmi saman í kirkjum til guðræknisiðkunar á hinum fyrnefndu þrem dögum, sem eptir tímatali voru og árstímunum eru svo merkilegir og umhugsunarverðir, enda kynni það og vera vafasamt, hvort áminnzt bann í tilsk. 29. maí 1844 eigi væri nú fallið burtu við tilskipunína 28. marz 1855, 16. gr.

Þar sem presturinn enga annexíu hefir, á hann að embætta hvern helgan dag heima, en þar sem annexíur eru, þá er viðtekið frá gamalli tíð, hvað opt þar skuli embætta, í samanburði við það, sem embættað er á heimakirkjunni, og eru því annexíurnar ýmist helmingakirkjur eður þriðjungakirkjur, o. s. frv., eins og fyrr hefir verið sagt, eptir því, hvort þar á að embætta annanhvern eða þriðja hvern helgan dag, o. s. frv.; þetta getur líka verið misjafnt og öðruvísi á vetrum enn sumrum, svo til að mynda sumar kirkjur eru á *sumrin* helmingakirkjur, en á *veturna* þriðjungakirkjur. Þegar brauðum nú er slengt saman eður kirkjur lagðar til brauðs, er um leið ákveðið, hvað opt skuli embætta á hverri kirkjunni fyrir sig.

Prestarnir virðast engan rjett hafa til þess, er þó sumir gjöra, að telja, hvað opt þeim um árið

beri að messa á hverri kirkju fyrir sig, og prjedika svo á hverri þeirra, þegar þeim sýnist, og eigi heldur, þó þeir fyrirfram kunngjöri af prjedikunarstólnum eður á annan hátt, hvenær þar verði messað næsta skipti, heldur verða þeir að vera bundnir við hina viðteknu reglu, er þeim ber að embætta eptir á hverri kirkjunni fyrir sig, þannig: að þeir messi annanhvern helgan dag á hverri helmingakirkju, þriðja hvern á hverri þriðjungakirkju, o. s. frv.; en verði messufall einhvern dag, telst sá dagur eigi, þar eð þá raskaðist hlutfallið millum kirknanna, hvað messað væri opt um árið á hverri kirkjunni fyrir sig. Þegar messufall hefir orðið hjá einhverjum presti, hlýtur hann því að vera skyldur til að koma boðum um það, sem fyrst hann getur, í hinar sóknirnar, svo menn þar fái að vita það, og ómaki sig eigi til kirkjunnar árangurslaust. Þau boð verður hann og að gjöra um allar sóknir sínar, ef hann sjer messufallið fyrir.

Eptir tilskipun 29. maí 1744, 4. gr., má enginn prestur láta verða messufall, nema mesta nauðsyn tilberi, einn helgan dag, því síður tvo eða þrjá í röð; skyldi nokkurr vegna ónauðsynlegra ferðalaga eður án þess að hafa fengið fyrirfram eptir lögunum ferðaleyfi, vanrækja söfnuði þá, sem honum er trúað fyrir, á að ákæra hann fyrir það, og beri þetta svo optar við, á hann að missa embætti sitt. Í 6. gr. er og sagt, að þegar prestur fari í kaupstaðarferð, til að kaupa nauðsynjar sínar, og verði hann að vera lengur burt enn 1 sunnudag, þá verði hann

að fá næsta prest, til að embætta fyrir sig og gjöra önnur prestsverk. Í *kirkjuordínantsíu* Kristjáns 4: stendur og, að enginn prestur megi ferðast út úr sóknum sínum í önnur biskupsdæmi, án þess að hafa brjeflegt leyfi frá prófastinum til þess, og vilji hann ferðast út úr ríkinu, þá skuli hann hafa til þess biskupsleyfi. Eptir þessu virðist, sem það sje saklaust fyrir prest, þó hann ferðist lítið eitt út úr sóknum sínum leyfislaust, þegar ekkert messufall verður hjá honum, og hann í öðru tilliti ekki vanrækir neitt embætti sitt við það; en ef hann ætlar sjer að ferðast eitthvað lengra, og verða svo lengi í burtu, að fyrir það megi verða messufall hjá honum, verður það aðalreglan, að hann verður þá að útvega sjer fararleyfi hjá prófastinum, nema ef hann ætlar sjer að ferðast af landi burt; því þá verður hann að fá biskupsleyfi til þess; þó virðist sem presturinn, þegar hann fer fullra nauðsynja erinda sinna, eigi þurfi að útvega sjer fyrirfram neitt fararleyfi, og það þó hann kunni að tálmast svo, að hann verði í burtu lengur enn einn sunnudag. Hvenær sem presturinn er lengur í burtu enn einn sunnudag, verður hann að fá einhvern prest, til að gjöra öll prestsverk fyrir sig á meðan.

## 21. gr.

Skyldur prestsins áhrærandi sakramentin, 1. skírnina.

Við sakramenti skilja Mótmælendur þær helgu gjörðir, er boðnar eru af Kristó, og sem hafa mildirík

áhrif á sálu manna, þegar þær framfara á þann hátt, sem Kristur hefir boðið, og til þessa telja þeir að eins skírnina og kveldmáltíðina. Í katólsku og grísku kirkjunni er þar á móti nokkuð önnur þýðing lögð í þetta orð, og þar eru sakramentin talin 7, *skírn, biskupan, kveldmáltíð, skriptir, oleun, klerkavígsla* og *hjónabandsvígsla*.

Við *skírnina* eru menn teknir inn í kristilegt samfjelag; skírnin er boðin af Kristó, Matt. 28, 19, Mark. 16, 15—16, og á að framfara, sem þar er boðið. Með fyrstu skírðu að eins biskuparnir, en er söfnuðirnir uxu og fjölguðu, tóku prestarnir að gjöra það og djáknar, þegar prestar eigi voru viðlátnir eður viðstaddir; og ef nauðsyn krafði, máttu og leikmenn skíra. Í fyrstu voru að eins fullorðnir skírðir; en áður enn þeir yrði skírðir, urðu þeir að fá uppfræðingu í aðalatriðum lærdómsins; þeir, sem höfðu uppfrætt þá, urðu að ábyrgjast, að þeir hefði fengið næga þekkingu, til að geta skírzt. Seinna varð barnaskírn almenn, og þeir, sem að börnunum stóðu, skyldaðir til að láta þau skíra; þeir, sem hjeldu börnum undir skírn, eða guðfeðginin, voru álitnir skyldir til að annast um, að barnið, þegar það yxi upp, fengi næga þekkingu á lærdóminum; á milli guðfeðginanna og barnsins álitu menn og seinna að framkæmi við skírnina andlegur skyldleiki.

Lög þau, sem gilda um skírnina hjer á landi, eru einkum *Árna* biskups kristinnrjettur, *kirkjuordínantsía* Kristjáns 4. og tilsk. 3. júní 1746 um hús-

agann, 2. gr., tilsk. frá 7. maí 1783. Við þessa seinustu tilsk. mega hjer og álítast lögleidd að nokkru leyti boðorð *kirkjurítúalsins* frá 1685 um skírnina.

Eptir tilsk. frá 1746 um húsagann, 2. gr., á að skíra hvert barn innan 8. dags eptir fæðingu þess; í reglunni á að fara með barnið í kirkjuna, og þar á það að skírast af sóknarprestinum upp úr skírnarfontinum; en ef barnið er lasið og ófærð og óveður er, svo ekki verði komizt með það til kirkju, án skaða fyrir heilbrigði þess, á undir eins að sækja sóknarprestinn, til að skíra það heima. Þó hjer sje sagt, að þá eigi undireins að sækja prestinn, er svona á stendur, virðist þó sem menn eptir anda tilskipunarinnar eigi þurfi að flýta sjer meira að því, enn svo, að barnið verði skírt innan 8. dags. Í Reykjavík og víðar, þar sem presturinn ætíð er við höndina, er orðin venja að draga að skíra börnin, ef þau eru heilbrigð, nokkrar vikur og jafnvel nokkra mánuði, og hefir eigi verið að því fundið, enda hefir og enn aldrei neitt illt af því hlotizt. Það kallast *heimaskírn*, þegar barnið ekki er skírt í kirkju, og er lögð hegning við, ef frelsi þetta er af nokkrum notað að nauðsynjalausu.

Þegar barnið er skírt í kirkju, segir tilskipunin enn fremur, að 3 menn eigi að halda því undir skírn, er kallast *guðfeðgin* barnsins; eiga guðfeðginin að vera tveir karlmenn og einn kvennmaður, sem sje guðhræddir og vandaðir menn, er menn geti vænt þess af, að láti sjer vera annt um, að barnið uppalist og uppfræðist í þekkingu á guði og

góðum siðum, ef vandamenn þess ekki geta sjeð um það. Eptir *kirkjurítúalnum* mega guðfeðginin ekki vera fleiri en 5. það er auðsætt, að þau verða að vera lúterskrar trúar, er skylt er að ala barnið upp í þeirri trú. þó í tilskipuninni sje að eins talað um guðfeðgin, þegar barnið sje skírt í kirkjunni, eiga þau þó eins að viðhafast, ef auðið er, þegar barnið er skírt heima; þetta leiddi beinlínis af hinni eldri löggjöf, og er og boðið í *kirkjurítúalnum*.

Ef barnið liggur fyrir dauðanum, svo tvísýni sje á, hvort það muni lifa, meðan það sje skírt á vanalegan hátt, á að skíra það *skemmri skírn;* ef eigi næst þá í sóknarprestinn, en þó annan prestvígðan mann, á sá að skíra barnið; en sje enginn prestvígður maður viðstaddur, þá á einhverr vandaður karlmaður að gjöra það, og ef enginn slíkur karlmaður er til, þá faðirinn eður og yfirsetukonan; og sje engan af þessum að fá, þá einhverr ráðvandur kvennmaður, sem viðstaddur er. Sá, sem skírir barnið skemmri skírn, á að ausa það þrisvar vatni, og um leið nefna nafn barnsins og mæla þessi orð: »eg skíri þig í nafni föðurs, sonar og heilags anda«, og lesa svo faðir vor á eptir. Eptir kristnarjetti Árna biskups átti hverr maður, er var orðinn 12 vetra gamall, að kunna að skíra skemmri skírn. Hið fyrsta, sem viðkomið verður, á að láta prestinn vita af því, að barnið hafi verið skírt skemmri skírn, og ef barnið eigi undir eins deyr á eptir, á hann að fullvissa sig um, hvort það muni rjettilega

hafa verið skírt; og álíti hann, að eigi hafi verið svo, eður finni hann vafa á því, á hann að skíra það; en annars ekki. Að láta barn deyja óskírt, en hafa þó getað látið skíra það, verður að vera ábyrgðarhluti.

Í *kirkjurítúalnum* og *kirkjuordínantsíu* Kr. 4. er boðið, að öll heimaskírn skuli staðfestast, eður henni skuli lýst verða á eptir í kirkjunni af sóknarprestinum, og skuli þá koma með barnið til kirkjunnar; en þetta var eigi boðið í tilskipuninni frá 1746, 2. gr., og hefir eigi orðið að stöðugri venju hjer á landi.

Eptir hverjum reglum skírnin skuli framfara, er tilgreint í *kirkjurítúalnum* og tilsk. 7. maí 1783, er aftók særinguna; sjá og prestahandbókina.

Presturinn á að rita undir eins í kirkjubókina, hvaða ár og dag hvert barn, er fæðist í sókn hans, sje skírt, og tilgreina þar nöfn foreldranna, barnsins og guðfeðginanna, og þar af leiðir líka, að þegar barnið er óskilgetið, verður hann að fá að vita, hverjum móðirin kenni barnið (kirkjurít.).

Þó boðið sje, að börn skuli skíra í kirkju, er við verður komið, má þetta með engu móti skiljast svo, sem boðið sje með því, að skírnin skuli þar framfara, þegar embættað sje. Að vísu kynni virðast svo, sem orð kirkjurítúalsins helzt lyti að þessu; en þetta hafa menn aldrei álitið neina skyldu hjer á landi, og lög þau, sem sjerskilt hafa verið gefin fyrir landið, hafa eigi ætlazt til þess. Kristinnrjettur Árna biskups bauð, að skírnin skyldi fram-

fara í kirkjunni, ef yrði, en þó um leið, að barnið mætti eigi lengur vera óskírt, enn 5 nætur; hann gat því eigi ætlazt til, að ætíð yrði embættað í kirkjunni um leið og barn yrði skírt þar; þar segir og með berum orðum, að á hvérjum degi, sem þurfi, megi barn skíra, jafnvel jóladag og páskadag. Í tilskipuninni 1746 var endurnýjað boðorðið um, að börn skyldi skíra í kirkjunni, ef yrði, en tíminn lengdur, sem þau mætti vera óskírð á, til 8. dags. En þessi lenging á tímanum hefði verið langtum of stutt, ef tilskipunin hefði ætlazt til, að bíða skyldi með skírnina, uns næst yrði þar í sókn embættað, þareð í fæstum sóknum er hjer á landi embættað á hverjum sunnudegi. En ef skírt er á helgum degi í messu, verða menn að fylgja *kirkjurítúalsins* boðum í því, hvenær skírnin þá skuli framfara. Þar er að vísu gjörður munur á, hvort barnið sje skilgetið eður það sje óskilgetið eður fætt í hórdómi; en með því allur slíkur mismunur, er kastað geti nokkrum bletti á mann, þó hann eigi sje skilgetinn, við hina yngri löggjöf er burtnuminn, má nú fylgja við skírn allra barna yfir höfuð þeirri reglu, sem þar er gefin um skírn skilgetinna barna, sumsje að skírnin skuli framfara eptir prjedikunina.

Um skírn fulltíða manna hljóðar *rítúallinn*, kap. II, art. 4; sá, sem þá skírist, verður fyrst að hafa útvegað sjer næga þekkingu á kristindóminum, og opinberlega hafa verið reyndur í honum.

## 22. gr.

### 2. Um kveldmáltíðina.

Smámsaman, eptir því sem klerkavaldið óx, komst sú venja á, að þeir, sem eitthvað höfðu orðið brotlegir, urðu, til þess að fá synda sinna fyrirgefningu, og til þess að geta orðið teknir aptur í sátt við kirkjuna, að játa syndir sínar opinberlega fyrir biskupinum og iðrast þeirra, er þá ákvað, að þeir skyldi leggja á sig eitthvað hart, er hann nákvæmar tiltók, sjer til bóta. Með tímanum var farið að leggja vissar bætur við vissum glæpum, og bækur skráðar, er ákváðu þetta nákvæmlega (skriptabækur). Seinna þurftu menn þó ekki að standa opinberar skriptir, nema fyrir stórglæpi; en fyrir smáyfirsjónir gátu menn skriptazt í einrúmi fyrir prestinum, er þá tiltók, hverja bót menn skyldi gjöra; presturinn mátti engum segja frá því aptur, sem honum var sagt af þeim, sem skriptuðust. Engin skylda var það fyrir menn lengi frameptir, að skriptast í einrúmi fyrir prestinum, heldur var hverr látinn í því sjálfráður; en á 4. *lateranska* kirkjufundinum 1215 var öllum gjört að skyldu að ganga til skripta, í hið minnsta einu sinni á hverju ári.

Snemma nokkuð höfðu menn tekið upp á því, að lofa þeim, sem skriptaðist, að afplána syndir sínar með einhverjum *góðverkum*, í staðinn fyrir að leggja á þá kárínur eður harðindi; slík góðverk voru þá sem optast fólgin í því, að leggja fje til klaustra, kirkna, fátækra eður annara guðsþakka.

Slík *aflát* veittust og stundum við ýms hátíðleg tækifæri, og seinast var farið að *verzla* með *aflátin* eður *aflátsseðlana*. *Lúter* hjelt skriptamálunum, bæði hinum opinberu sem kirkjuaga og eins hinum leynilegu sem undirbúning undir kveldmáltíðina.

Tilsk. frá 27. maí 1746 hljóðar um skriptastólinn og altarisgöngu hjer á landi. Þar er ákvarðað, að þeir, sem ætla að vera til altaris, eigi nokkru áður að láta prestinn vita það, ef hann skyldi álíta það nauðsynlegt, að tala við einn eður annan af þeim áður í einrúmi; ef nokkurr lætur þetta vera, má presturinn vísa honum burt frá skriptunum eður úr skriptastólnum. Presturinn verður að gæta þess, að hann ekki taki nokkurn þann til altaris, sem *annaðhvort* eptir lögunum ekki má vera til altaris, *eður* sem *hann* í hið minnsta ekki má taka til altaris. Eptir *kirkjuordínantsíu* Kristjáns 4. máttu ekki vera til altaris:

1. *Þeir*, sem höfðu verið bannsettir, og ekki verið leystir úr banni.

2. *Vitstolamenn* og *óvitabörn*.

3. *Þeir*, sem hanga við einhverja opinbera trúarvillu, og ekki vilja láta af henni.

4. *Þeir*, sem þverúðarfullt lifa í einhverjum opinberum löstum, einkum guðníðingar; — og átti ætíð tvisvar á ári, pálmasunnudag og 4. sunnudag í jólaföstu, að lýsa því yfir, hverjir ekki mætti vera til altaris.

Eptir DL 2—5—27 (NL 2—5—26) máttu:

5. *Þeir*, sem í heilt ár höfðu haldið sjer frá

altarisins sakramenti, ekki heldur vera til altaris, fyrr enn þeir höfðu staðið opinberar skriptir; en við konungsbrjef til biskupanna í Danmörku og Noregi, 18. júní 1790 var ákveðið, að þegar einhverr ekki af fyrirlitningu eður skeytingarleysi, heldur breyskleika, gleymsku eður einhverri annarri fyrirgefanlegri ástæðu hefði of lengi haldið sjer frá altarisins sakramenti, mætti taka hann til altaris, án þess hann stæði opinberar skriptir, ef hann óskaði þess, og yrði álitinn að vera vel undir það búinn; þó skyldi presturinn áður, til þess að slíkir menn ekki væri með öllu kærulausir í þessu, í einrúmi og einungis í meðhjálparanna nærveru gjöra honum tilhlýðilega áminningu, eptir því sem ástæði.

Að því er þá snertir, er nefndir eru undir tölul. 1., þá er bannsetning úr lögum numin við kgs.br. 26. júní 1782 til stiptamtmannsins og biskupanna hjer á landi, og að því, er þá undir 2. tölul. ábrærir, má nú enginn vera til altaris, nema búið sje að ferma hann (tilsk. 13. janúar 1736, kgs.brjef 9. júní 1741, 7. gr., tilsk. 27. maí 1746, 1. gr.); þó má presturinn taka barn til altaris, þótt ófermt sje, ef það liggur mjög þungt, og það óskar þess, og presturinn álítur það vel uppfrætt í kristindóminum; þetta leiðir af sjálfu sjer, því fermingin er boðin í guðrækilegra tilgangi enn svo, að löggjafinn með henni hafi viljað meina nokkrum deyjanda manni að vera til guðsborðs, áður hann dæi, er að öðru leyti væri vel undir það búinn; þetta er og leyft í tilsk. 25. maí 1759 fyrir Danmörku.

Vegna þessa verður presturinn, þegar einhverr er nýlega kominn inn í prestakallið, að láta hann sýna sjer *fermingarseðil* sinn eður *prestsseðil*, svo hann sjái, hvort hann sje fermdur eða hafi áður verið til altaris; fermingarseðil á hverr prestur að gefa kauplaust, annaðhvort undir eins og barnið er fermt, eður síðar, þegar það biður um hann; sjá tilsk. 27. maí 1746, 2. gr.

Um þess konar menn, sem nefndir eru undir tölulið 3, hefir áður verið talað; og að því, er áhrærir þá undir 4. tölulið, þá virðist sem prestar ekki eigi upp á eindæmi sitt að neita neinum um altarisins sakramenti í hegningarskyni fyrir illan lifnað þeirra, nema þeir áður hafi ráðfært sig um það við prófast sinn eður biskupinn, er sjaldan munu finna það ráðlegt; þetta er samkvæmt kgs.brjefi 22. maí 1744, og tveim kansellíbrjefum 6. ágúst og 8. október 1791, er að vísu samt öll snerta Danmörku, og almennri skoðun manna nú í þessum efnum, sem mjög er mild orðin.

Enginn prestur má taka nokkurn til altaris, nema þá, sem eiga heima í sóknum hans; gjöri hann það, á hann að sæta ákæru fyrir það; þó eru frá því gjörðar 2 undantekningar:

*a,* með *þá,* sem fengið hafa konunglegt leyfi til að vera til altaris fyrir öðrum prestum, og

*b,* með *flækinga,* sem liðið er að flakka, og ekki heimili hafa. — Hinir fyrtjeðu eiga að hafa vitnisburð frá sínum fyrra sálusorgara um sálarástand þeirra, og hinir síðarnefndu frá þeim prestum,

sem þeir voru seinast til altaris fyrir, er bæði á að hljóða um þekkingu þeirra og breytni; sjá tilskipunina 1746, 3. og 5. gr.

Þó ekki vilji vera fleiri enn 3 til altaris einn helgan dag, verður presturinn að taka við þeim, tilsk. 1746, 7. gr.; að vísu er boðið í tilsk. 13. janúar 1736, 5. gr., um barnaferminguna, sem hjer er gjörð gildandi við kgs.brjef 9. júní 1741, 7. gr., að á þeim dögum, sem börn eru fermd, megi enginn vera til altaris; en það virðist mjög efasamt, hvort slíkt bann í almennu lagaboði getur gilt hjer nú, þar eð tilskipunin 1746, sem er yngri, og að eins gefin fyrir þetta land, gefur hitt boð sitt með öllu undantekningarlaust, og þar að auki býður prestunum að áminna menn um, að binda ekki altarisgöngur sínar við vissa daga, heldur vera til altaris, þegar sálarástand þeirra krefji, og þegar þá hungri og þyrsti eptir guðs gæðum, er hæglega getur verið þá daga, sem börn eru fermd.

Í þeim sóknum, sem ekki eru mjög mannmargar, mega ekki fleiri en einn í senn takast inn í skriptastólinn; þeir, sem vilja vera til altaris, verða því að koma nógu snemma til kirkjunnar, 6. gr. Að vísu er það nú sumstaðar orðin venja, þó sóknin sje ekki mannmörg, að presturinn skriptar í einu öllum þeim, sem til altaris vilja vera; en skyldi nokkurr vilja láta skripta sjer einum, hlýtur það að vera skylda prestsins að gjöra það.

Menn skriptast í kirkjunni og þar neyta menn kveldmáltíðarinnar, nema fangar og þeir, sem ekki

komast í kirkju sökum veikinda eða elli, og þeir, sem hafa mjög hryllilega veiki eða líkamalýti, er eigi verða dulin. Þegar einhverr þannig er tekinn til altaris eður þjónustaður í heimahúsum, hefir kansellíið álitið 24. desember 1785, sem og virðist mjög eðlilegt, að náungar þess, sem þjónustaður er, og aðrir viðstaddir, megi um leið vera til altaris með honum.

Skriptagangurinn framfer fyrir messu, og þeir, sem þá skriptast, eru til altaris sama daginn í messunni; sjá annars hjer um nákvæmar messusöngsbókina og handbók presta.

Í DL 2—5—20 og NL 2—5—19 er prestunum bannað, og embættismissir viðlagður, ef þeir út af brjóta, að segja frá því, sem einhverr í einrúmi í skriptastólnum segir þeim, nema það áhræri einhver svik (Forræderie) eður ógæfu, sem afstýrt verði við uppljóstur prestsins, og eiga þeir, ef auðið er, að þegja yfir nafni þess, sem þeim það sagt hefir. Þetta lagaboð er samkvæmt hinum eldra rjetti hjer, og má víst álítast hjer gildanda. Það getur nú enginn vafi verið á því, að presturinn er eins skyldur að þegja yfir því, þó hann í skriptastólnum heyri, að einhverr hafi gjört sig sekan í hverjum helzt svikum sem eru, og í öðrum glæpum, nema því að eins, að svikunum megi afstýra. Sje því svikin eða ógæfan um garð gengin eður þó það sje eigi, en þeim samt eigi verði afstýrt, á presturinn að þegja yfir þeim; en sje þau ókomin og verði afstýrt, á hann að ljóstra þeim upp, á þann hátt, sem nefndur er.

Ef presturinn heyrir, að einhverr saklauss er hafður fyrir rangri sök, og að honum sje hætta búin af því, á hann því að segja til þess, svo afstýrt verði þeirri ógæfu, að saklausum verði hegnt.

Þegar einhverjir ætla að vera til altaris, á presturinn að biðja af prjedikunarstólnum fyrir þeim öllum yfir höfuð, en ekki fyrir nokkrum þeirra sjer í lagi, og enn síður nafngreina nokkurn (tilsk. 8. gr.).

Áður en presturinn úthlutar brauðinu og víninu, ber honum að helga það; hann á því, ef meira skyldi þurfa, enn sem hann með fyrstu helgaði, í hvert skipti að taka upp aptur helgunarorðin, eður þá helga svo mikið í einu, sem nægir fyrir alla þá, sem eptir eru. Yfir höfuð á presturinn að gæta þess, að úthluta engum óhelgað brauð eður vín, því gjöri hann það, fyrirgjörir hann embætti sínu (tilsk. 11. gr.).

Ef presturinn úthlutar víninu á undan brauðinu, á hann að missa embættið, ef hann að öðru leyti hefir illt orð á sjer fyrir lifnað sinn, eður hafi hann gjört það í drykkjuskap; en sje það hvorigt, á að eins að sekta hann fyrir vangána. Sje þessi yfirsjón hans orsökuð af veikindum, má hann samt fyrir því halda embættinu, en verður þá að taka sjer aðstoðarprest, og má úr því aldrei sjálfur fara fyrir altarið. (DL. 2—11—11).

Prestinum ber að gæta þess, að allt fari fram með þvílíkri verðung, sem svo háleitri gjörð hæfir; ef hann vanrækir slíkt, og lætur t. a. m. patínuna eður kaleikinn vera óhreinan, sekst hann fyrir það.

Meðal pápiskra manna úthluta prestarnir sjer sjálfir altarissakramentinu; en þetta er prestum bannað í ritúalnum, og þó þeir liggi sjúkir, ef þeir geta fengið annan prest. Eptir siðaskiptin munu og varla dæmi finnast til þess hjer á landi, að prestar hafi úthlutað sjálfum sjer sakramentinu.

Eptir skoðun Mótmælanda á sakramentunum virðist eigi heldur geta verið neitt verulegt móti því, að ráðsettur leikmaður úthlutaði sakramentinu deyjanda manni, ef hann endilega óskaði þess og væri með fullri rænu, og alls engin föng væri að ná í prest. Sjá nákvæmar hjer um messusöngsbókina og handbók presta.

## 23. gr

### Um barnafermingu.

Þegar það var orðið að almennri tíðsku í kristninni að skíra börn, lagðist niður að helga þann, sem skírður var, um leið með handa álagningu; það geymdu menn, uns hann var orðinn eldri. Staðfesting þessi af skírninni varð síðan álitin sem sakramenti. Hjá pápiskum eru börnin staðfest 7 vetra; gjörir biskupinn það með handaálagningu, *oleum* (chrisma) og heilags anda ákalli; og af því biskupinn gjörir það, var það hjá oss kallað *biskupun*. Henni þarf ekki að vera samfara nein undanfarin uppfræðing í trúarbrögðunum nje opinbert próf í þeim.

Að fermingin sje sakramenti neita Mótmælendur; og lagðist hún því niður hjá þeim; en í flestum löndum þeirra er þó barnaferming aptur

upptekin, en á allt annan hátt, og þannig að barnið, þegar það hefir fengið nokkurn veginn þekkingu á kristindóminum, og er búið að ná nokkrum aldri, er sjálft látið endurnýja það loforð, er aðrir gjörðu fyrir þess hönd við skírnina, og er barninu þá fyrst þar eptir leyft, að fara að vera til altaris.

Fermingin var almennt innleidd í Danmörku með tilsk. 13. janúar 1736; og hjer á landi var tilskipun þessi lögleidd með kgs.brjefi 9. júní 1741, 7. gr. Seinna kom og út sjerskilt kgs.brjef fyrir Ísland um ferminguna 29. maí 1744 og fyrir Danmörku og Noreg tilsk. 25. maí 1759, er meðal annars hljóðaði um, hvað börn skyldi vera gömul, áður enn mætti ferma þau. Þessa tilskipun sendi kansellíið hingað með brjefi 25. maí 1781 til eptirbreytni mönnum hjer á landi, því menn höfðu eigi áður álitið hana hjer gildandi og það með öllum rjetti, því tilskipan þessi ber það ljóslega sjálf með sjer, einkum er hún er borin saman við áminnzt kgs.brjef 1744, að löggjafinn ekki hefir gefið eður ætlað hana fyrir Ísland, og lagagildi gat hún ekki fengið fyrir það, þó kansellíið sendi hana hingað til eptirbreytni, enda hafa og til skamms tíma sumir hinir beztu prestar, þó þeir hafi verið hinir mestu reglumenn í embætti sínu, eigi álitið sig neitt nákvæmlega bundna við hana.

Við tilskipun 23. marz 1827 var þó aptur biskupinum í Danmörku leyft að veita nokkrar undantekningar frá tilskipun 1736 og 1759, og með kgs.brjefi 14. nóvember 1832 var þetta leyfi og veitt biskup-

inum hjer á landi — er sókt hafði um, að sjer mætti verða veitt líkt vald — að því leyti þvílíkar undantekningar gæti átt sjer hjer stað, eptir því, hvernig hjer hagar til. Annars er búið að milda í Danmörku tilskipun þessa frá 1759, sem sýnist óþarfa hörð, með nýjum lögum.

Barnafermingin hjer á landi á ætíð að framfara *sunnudaginn næsta fyrir Úrbanusmessu* (sem ætíð ber upp á 25. dag maímánaðar), en þar sem sóknirnar eru stórar, má hún og framfara *sunnudaginn næsta fyrir Mikjálsmessu* (eður 29. dag septembermánaðar); sjá kgs.brjef 1744, 1. gr. Ef menn ekki komast þá til kirkju sökum illviðra eður vatnavaxta, á barnafermingin að framfara *næsta sunnudag eptir*, 2. gr. Hafi presturinn eina eða fleiri *annexíur*, á hann að ferma börnin í þeim sóknum næstu sunnudaga þar eptir við þeirra kirkjur, 3. gr. Að vísu er að ráða af orðum konungsbrjefsins, sem presturinn og megi safna börnunum úr sóknunum saman, og ferma þau við einhverja eina kirkjuna öll í senn; en það álítur þó hitt auðsjáanlega betra, bæði fyrir sóknarfólkið sjálft og eins fyrir börnin, að þau sje fermd hvert við sína kirkju; og frá þessari reglu ætti því prestarnir ekki að víkja að nauðsynjalausu.

Þrátt fyrir áminnzt boð í kgs.brjefi 29. maí 1744 að ferma eigi nema á dögum þeim, er þar eru tilteknir, nema biskup leyfi annað, er hann eptir kgsbrjefi 14. november 1832 stundum má gjöra, ferma þó prestarnir nú venjulegast um hvítasunnuleytið, annaðhvort rjett á undan henni eður eptir hana, án

þess að sækja um biskups leyfi til þess, er og opt og tíðum yrði ógjörningur að nálgast úr flestum sveitum landsins, og eins binda þeir sig eigi heldur við hinn tiltekna dag, þegar þeir ferma á haustin, heldur ferma, er þeim þykir hentugast. Að þessi venja hefir verið látin óátalin, kemur án efa til af því, að prestarnir í þessu hafa með öllu hagað sjer eptir óskum og þörfum safnaða sinna, er opt, ef til vill, eigi leyfa að fermt sje á hinum lögboðnu dögum.

Þegar eitthvert barn hefir fatlazt af einhverjum ástæðum, er hvorki það, nje þeir, sem að því hafa staðið, hafa getað ráðið við, til að mynda veikindum, eður vatnavöxtum, svo það eigi hefir orðið fermt með hinum börnunum, hafa prestar stundum, hið fyrsta er hefir orðið viðkomið, fermt barnið sjerskilt á eptir án biskups leyfis, er víða eigi heldur hefði náðst fyrri enn löngu seinna; en um þetta virðist samt sem prestar í hið minnsta ætti undir eins að skrifa biskupi á eptir, og segja honum greinilega frá öllum atvikum, því prestum ætti engan veginn að líðast að ferma börn svona sjerskilt upp á eindæmi sitt eitt, án ítrustu nauðsynja; mun og opt mega láta barnið því að skaðlausu bíða til þess þar næst verður fermt. Það ætti og alls eigi að líða prestum, er og fæstir þeirra munu leyfa sjer, að hafa optar um árið almennar barnafermingar, enn lög leyfa.

Eptir tilsk. 13. janúar 1736, 9. gr., á presturinn að láta söfnuðinn vita 8 dögum áður, hvenær

ferma eigi. Fermingin á að framfara í kirkjunni; þó má biskupinn leyfa, að krypplinga, mjög veik börn, og þau, sem hafa viðbjóðsleg líkamalýti, megi ferma heima, kgs.brjef 14. nóvember 1832. Það er auðvitað, að vottar verða að vera við, kgs.brjef 22. júní 1792.

Af tilskipun 13. janúar 1736, 12. gr., og kgs.-brjefi 29. maí 1744 sjest, að enginn prestur má ferma börn úr öðru prestakalli, eður þau börn, er eigi hafa fast heimili í sóknum hans.

Hvernig fermingin eigi að framfara, er greint í tilsk. 13. janúar 1736, og prestahandbókinni.

Í konungsbrjefinu 1744, 4. gr., er talað um það sem óvana, að prestarnir fermi börn 9, 10, 11 eða 12 vetra gömul og taki þau til altaris á þeim aldri; og er þar því boðið, *að börn skuli í hið minnsta hafa náð þeim aldri, áður enn þau sje tekin til fermingar, að sjá megi, að þau beri gott skynbragð á svo háleitt og mikilvægt málefni.*

Prestar ætti því eigi að leyfa sjer, að ferma nokkurt barn fyrri, enn það er orðið í hið minnsta 13 vetra gamalt, og komið á 14. árið, en þá virðist og sem þeir megi gjöra það, ef barnið hefir fengið næga þekkingu, og siðferði þess er gott, einkum mæli og aðrar kringumstæður fyrir því.

Auk þess að barnið, eins og nú var sagt, á að vera búið að fá nægan aldur, á það að hafa fengið sanna og lifandi þekkingu á aðalatriðum trúarbragðanna, og í þessu skyni er boðið, að börn skuli læra *fræðin* (Lúters minna katekismus), sjá tilsk. 13. jan-

úar 1736, optnefnt kgs.brjef 1744, 4. gr., tilsk. s. d. um barnaspurningar, 3. gr. o. fl. Líka eru börn, eptir ráðstöfun kansellísins í brjefi 25. ágúst 1798, látin læra biskups Balles barnalærdómsbók.

Í þriðja máta var boðið í kgs.br. 1744, 5. gr., að, ef nokkurr kynni að lesa á heimilinu, skyldi barnið hafa lært að lesa, áður enn það yrði tekið til fermingar, en eptir kgs.br. 2. júlí 1790 til biskupa hjer á landi má presturinn nú ekkert barn ferma, nema það kunni að lesa á bók; fyrir hvert barn, sem hann, án leyfis biskupsins, fermir, og ekki kann nægilega að lesa, á hann að lúka til fátækra prestsekkna, í fyrsta sinni 2 rd., annað 4 rd., þriðja 6 rd., og í fjórða sinni dæmast frá embættinu. Þá skal barnið álítast full-læst, ef það *viðstöðulítið* getur lesið hverja prentaða bók á íslenzku máli; þó mega það ekki vera þvílíkir staðir, sem fyrir barnið eru lagðir, er eldri almúgamenn ætti bágt með að komast fram úr.

Það virðist í alla staði hið eðlilegasta, og af mörgum ástæðum nauðsynlegt hjer á landi, að hin lögboðna uppfræðing barnanna væri á enda og þau orðin fermd, þegar þau eru orðin 16 vetra gömul, eður þegar þau komast af ómaga aldri, og hafa náð þeim þroska, að þau að lögum eiga sjálf að fara að sjá um sig og ráða verustað sínum; það er og boðið í kgs.brjefi 2. júlí 1790, að börn yfir höfuð eigi að vera búin að læra kristindóminn, þegar þau sje 14 vetra gömul. Þegar því eitthvert barn er orðið 14 ára gamalt og þá er eigi búið að læra kristindóm-

inn eður að lesa nógu vel, svo það sje orðið fermingarfært, og presturinn álíti, að þetta sje að kenna hirðuleysi þeirra, sem barnið er hjá, hlýtur hann eptir áminnztu lagaboði hlífðarlaust að láta taka barnið frá þeim og koma því þar fyrir, sem það læri betur, á þeirra kostnað, er hafa vanrækt kennsluna, svo barnið fyrir vanræktarsakir eigi verði lengi úr því ófermt, og verður þá varla lengur haft nokkurt tillit til þess, hvort foreldrunum er það ljúft eður eigi, að barnið sje burttekið þaðan, sem það er; því þyrfti endilega til þess foreldranna samþykki, þó barnið sje búið að ná þeim aldri, að löggjafinn hefir ætlazt til, að það sje búið að læra, stæði það í valdi foreldranna, að láta barnið einlægt verða ófermt. Verði barnið eigi orðið fermingarfært, þegar það er orðið 16 vetra, virðist sem presturinn ætti að ráðfæra sig við prófastinn og biskupinn um það, hvernig að skuli fara.

Í tilskipun 13. janúar 1736 er boðið, að presturinn eigi í hið minnsta hálfu ári áður, enn hann fermi börnin, að láta þau koma heim til sín tvisvar í viku, til að fræða þau þar. Eptir því, sem hjer hagar til á landi, verður í fæstum stöðum slíku viðkomið; en það verður þó að vera skylda presta hjer að fara gegnum fræðin og barnalærdóminn með börnum þeim, er þeir ætla sjer að ferma, nokkru áður, bæði til að vita, hvort þau kunni nógu vel, og eins til að útskýra það fyrir þeim, er þau hafa lært. Flestir prestar gegnumganga og kverið með börnunum, þegar út á fer að líða, tvisvar sinnum, áður

enn þeir ferma þau, og láta börnin í heimasókninni koma til sín, í hið minnsta einu sinni í viku; en safna börnunum saman í annexíusókninni eður sóknunum á einhvern tiltekinn bæ, og hlýða þeim þar yfir daginn áður eður daginn eptir að þeir embætta þar; eður, ef þetta er sjaldan, tekur presturinn sum af börnunum heim til sín, og sumum er komið fyrir á næstu bæjum við prestinn eður í grennd við hann.

Þegar búið er að ferma börnin, eru þau venjulega næsta sunnudag eptir, sem embættað er í sókninni, til altaris.

## 24. gr.

### Um barnaspurningar.

Um barnaspurningar hljóðar tilsk. 29. maí 1744; í henni er boðið, að prestarnir skuli á hverjum sunnudegi, þegar þeir messa, og ef þeir engin lögleg forföll hafa, segja börnunum til, og hlýða þeim yfir *fræðin* og *barnalærdóminn*, tilsk. 4. gr. Eins og getið er í næstu grein á undan, er nú ætlazt til, að börnin læri biskups Balles lærdómskver. Presturinn á að spyrja börnin á kirkjugólfinu eptir prjedikunina, eður þegar guðsþjónustugjörðin er úti, tilsk. 4. gr. Enginn af söfnuðinum má að nauðsynjalausu fara út úr kirkjunni, meðan presturinn er að spyrja, og má því meðan loka kirkjunni; þeir, sem móti brjóta, sektast sem fyrir helgidagsbrot. Foreldrar og húsbændur eiga að bjóða börnum sínum og hjúum að koma og vera við, meðan er verið að spyrja, og halda þeim til þess, nema nauðsyn banni; þeir,

sem eru hirðúlausir í þessu, og ekki skeyta áminningum prestsins um það, eiga að sektast sem fyrir helgidagsbrot, 9. gr. Það virðist margt lúta að því, að hjer sje að eins með hjúum meint til *barna* þeirra, sem ekki eru hjá foreldrum sínum, heldur í vist bjá öðrum, og hjer sje að eins verið að tala um skyldu allra þeirra, sem börn eru hjá, að halda þeim til, að láta spyrja sig. Það virðist og sem presturinn ekki geti skyldað *húsbændurna* undir sektir til, að halda *öðrum börnum*, sem hjá þeim eru, til að láta spyrja sig á kirkjugólfinu, enn þeim, sem eru á ómagaaldri, og þeim, er ekki er búið að ferma, þó af honum sje komin.

Auk þessa má presturinn spyrja börnin og tilheyrendurna út úr prjedikuninni, til þess að venja börnin og tilheyrendurna á að taka eptir henni.

Prestinum er einnig leyft að spyrja tilheyrendur sína, þegar þeir koma í skriptastólinn, einkum þá, sem nýkomnir eru í sóknir hans, hvort heldur þeir hafa flutt sig þangað búferlum eða vistferlum, og komast eptir þekkingu þeirra í guðsorði. Samkvæmt þessu virðist hverr vera skyldur að lofa sóknarpresti sínum, að spyrja sig i einrúmi, og grennslast þar eptir sálarástandi sínu, einkum er hann ætlar að vera til altaris, en sóknarpresturinn verður þá og að vera jafnskyldur að þegja yfir því, er hann segir honum þar, sem hann hefði sagt honum það í skriptastólnum.

Ef presturinn vanrækir að spyrja börnin, á hann að sæta sektum fyrir það, og hafi hann tvisvar verið

sektaður, á að afsetja hann í þriðja skipti, sem hann verður fundinn í því; sjá opið brjef 22. apríl 1636 og kgs.brjef 29. maí 1744, 1. gr.

Til þess að allt þetta og annað í kirkjunni geti því betur farið fram, á presturinn, þar sem sóknirnar eru litlar, að kjósa sjer tvo meðhjálpara, en, þar sem þær eru stórar, 4, er eiga að styrkja hann í því, að allt gangi þar til með reglu; meðhjálpara þessa má presturinn sjálfur kjósa sjer með vitund prófastsins; eiga þar til að kjósast hinir beztu og skynsömustu bændur í sókn hverri, og má enginn skorast undan því, að vera meðhjálpari, 13. gr.

Þrátt fyrir öll þessi boðorð, er það þó óvíða venja, að prestarnir spyrji börnin nema á sjö vikna föstunni, eður lengur enn svo, að þeir einu sinni komist út kverið með þeim, áður enn fermt verður, eins og fæstir prestar kjósa sjer nema einn meðhjálpara í hverri kirkjusókn, og án þess að láta prófastinn nokkuð vita um það.

## 25. gr.
### Um húsvitjanir.

Í tilsk. frá 27. maí 1746, er hljóðar um húsvitjanir presta, er þeim boðið að fara í húsvitjun, í hið minnsta tvisvar á ári, og optar þar sem sóknirnar eru litlar, eður engin annexía er; eiga þeir þá í hvert skipti að koma á hvern bæ eður býli í sóknunum, 1. gr. Presturinn er sjálfráður, hvenær hann vill fara í húsvitjan, þó á hann að stuðla svo til, að það sje um þær mundir, þegar sóknarmönn-

um er hagkvæmast, og þegar sem flestir eru heima, 2. gr. Presturinn á nokkru fyrirfram, í hið minnsta sunnudaginn áður, að láta söfnuðinn vita, á hverjum bæjum hann ætli að húsvitja í vikunni, og áminna menn þar um leið, að vera þá heima. Þeir, sem þrátt fyrir þessa aðvörun prestsins þá ferðast í burt heimanað, án þess brýnasta nauðsyn beri til, eður á annan hátt ekki vilja gegna prestinum í þessu, eiga að mæta sektum fyrir það. Foreldrarnir eður húsbændurnir eiga að ábyrgjast, að börnin sje viðstödd. Ekki að eins allir þeir, sem á bænum eru heimilisfastir, eiga að vera heima, þegar presturinn kemur, heldur líka þeir, sem þar um þær mundir hafa aðsetur sitt, þó þeir eigi heimili annarsstaðar, og það í öðrum sóknum, svo sem vermenn, og gegna prestinum sem hans eigin sóknarbörn, 6. gr.

Á þessum húsvitjunum á presturinn af fremsta megni að stuðla til þess yfir höfuð, *að góður bæjarbragur komist á og viðhaldist hvervetna í sóknum sínum*. Hann á því á þeim að reyna til, að efla *gott samlyndi* millum allra á heimilinu, millum hjónanna sjálfra, foreldranna og barnanna, húsbændanna og hjúanna, o. s. frv., minna hvert á skyldur þess við annað, ef viðþarf; *vanda um ósiðu*, þar sem hann verður þeirra var, og *hvetja menn til góðra siða*, þar sem hann sjer, að þess er þörf.

Þar að auki á hann sjer í lagi að gefa gætur að, hvort nokkuð sje *áfátt við uppeldi barnanna*, hvort þeim sje kennt nokkuð að *vinna* og haldið til

iðjusemi, en einkum, hvort þeim á tilhlýðilegan hátt sje *kenndur kristindómurinn* og *að lesa*.

Í kgs.br. 2. júlí 1790 er boðið, að fara eigi að kenna hverju barni að lesa, áður enn það sje 5 vetra; sje þá ekki farið til þess, á presturinn að áminna um það nokkrum sinnum; sje samt ekki aðgjört, og barnið sje orðið 7 vetra, á að sekta þá, sem áttu að kenna því, ef hirðuleysi þeirra er um að kenna. Hvert barn á að vera farið að læra fræðin og kverið, áður enn það er 10 vetra; sje það ekki þá farið til þess, á að sekta þá, er barninu eiga að kenna; og almennt eiga börn, þegar þau eru 14 vetra, að vera búin að læra kverið. Þó að þannig hverjum húsbónda sje gjört að skyldu, að láta kenna börnum sínum og þeim börnum, sem hjá honum eru, kristindóminn og að lesa, — er þó prestunum falið á hendur, að hafa yfirumsjón yfir því, hvernig þetta sje gjört; á húsvitjunum sínum eiga þeir því á hverju býli, þar sem börn eru, og sem komin eru til þess aldurs, bæði að láta þau lesa á bók og eins hlýða þeim yfir það, sem þau eru búin að læra í kristindóminum, og spyrja þau út úr því, til þess að vita, hvort þau skilji það, og fræða þau á því, sem þau ekki skilja; þeir eiga nákvæmlega í hvert skipti að setja á sig, hvað hvert barn er búið að læra, og hvað miklum framförum það hafi tekið, síðan seinast að þeir spurðu það, einkum ef barnið síðan hefir skipt um samastað, og rita það hvert skipti inn í sálnaregistrið.

Ef barnið ekki lærir einhversstaðar tilhlýðilega,

og það er vanrækt foreldranna eður húsbændanna að kenna, þá á presturinn að sjá um, að barnið sje tekið þaðan burt, og sett þangað, þar sem það lærir betur; á þetta að vera á kostnað þeirra, er kenna áttu því, en vanræktu það; þó *má eigi taka börnin burtu án samþykkis foreldranna, nema sjerleg nauðsyn beri til;* en eins og getið var um í næstu grein hjer á undan, má eigi skilja þetta svo, sem menn sje bundnir við að hafa nokkurt sjerlegt tillit til þess, þó foreldrarnir vilji láta börn sín vera kyrr, þar sem uppfræðsla þeirra er vanrækt, þegar börnin eru orðin 14 vetra gömul og þá eigi er búið að ferma þau.

Sje presturinn hirðulauss um barnauppfræðinguna, á að sekta hann þar fyrir,

Sje börn alin upp í illum siðum eður í iðjuleysi, á að taka þau burtu þaðan, og koma þeim í annan betra samastað, og á mjög að fara eptir ráðum prestsins í því; sjá fátækrareglugjörðina 8. janúar 1834, 9. gr.

En einkum og sjer í lagi á þó presturinn á húsvitjunum sínum að reyna til að *efla sannan guðsótta,* fá húsbændurna til að hafa guðsorð iðulega um hönd, og halda börnum sínum og hjúum og öðrum, sem undir þá eru gefnir, til þess. Í þessu skyni á hann að grennslast eptir, hverjar bækur sje hafðar þar til húslesturs; sje þar engar guðsorðabækur, á presturinn að sjá um, ef húsbóndinn ekki vill sjálfur vera sjer í útvegum um þær, að fá þær gegnum prófastinn frá biskupinum, og er hús-

bóndinn þá skyldur að borga þær. Nauðsynlegar guðsorðabækur handa þeim, sem liggja á sveit, má án efa kaupa upp á hreppanna kostnað.

Á húsvitjunum sínum má presturinn og láta hina fullorðnu lesa kafla í einhverri guðsorðabók, og spyrja þá út úr honum. Til þess húsvitjanirnar skuli þess betri árangur hafa, má hverr ráðfæra sig við prestinn bæði um sálarástand sitt, og eins ef honum þykir eitthvað miður fara á heimilinu; á þá presturinn að nota það með skynsemd, og ekki nafngreina þann, sem segir honum eitthvað í trúnaði.

## 26. gr.

### Um hjónabandið.

Mótmælendur álíta ekki sem pápiskir menn, að hjónabandið sje *sakramenti,* og hefir það því minni helgi hjá þeim, enn hinum, eins og það og hjá Mótmælöndum stendur meira undir veraldlegu valdi og umráðum; þó eldir enn víða eptir í löggjöfinni af hinni fornu skoðuninni; þannig er presturinn hjá oss látinn binda hjúskapinn, og lýsa guðlegri blessun yfir brúðhjónunum, enda er það og mjög eðlilegt, að hjúskapurinn sje byrjaður hátíðlega í nafni drottins, þar eð brúðhjónin verða, við að giptast saman, hvort öðru háð á óteljandi vegu, er engin veraldleg lög geta náð yfir.

Tilsk. fyrir Danmörk 30. apríl 1824, er hljóðar um embætti presta, að því er hjónaband snertir, er gjörð gildandi hjer á landi með kgs. br. 7. des.

1827, og er hún helzta löggjöfin, er um það efni gildir hjer nú. *Með brúðhjónunum á að lýsa 3 sunnudaga, hvern eptir annan, í messunni, áður enn þau megi gefa saman, og eiga lýsingarnar að fara fram innan þess safnaðar, sem brúðurin á heima í*, 2. gr.; þessar lýsingar komu upp í katólskri tíð, til að afstýra leynilegum hjúskap, og að nokkrir skyldi giptast í forboðna liðu.

Af áminnztu boði leiðir, að lýsingarnar mega ekki framfara á öðrum dögum, þó embættað sje á þeim, enn sunnudögum; á sama degi má ekki lýsa nema einni lýsingu; úr því farið er að lýsa, má presturinn engan veginn fresta lýsingunum af eigin geðþótta sínum, en með því lögmálið þó eigi er svo strangt, að lýsa skuli þrjá sunnudaga í *röð*, hvern eptir annan, geta þær lýsingar, sem búið er að lýsa, eigi orðið ómerkar fyrir það, þó sunnudagar falli úr á millum, sem ekki er lýst á; en af því, sem síðar verður sagt, er auðsætt, að eigi mega 3 mánuðir líða millum nokkurra lýsinga; því ef það verður, verða þær ónýtar allar, sem búið er að lýsa, svo lýsa þarf upp aptur. Lýsingarnar eiga að framfara innan þess safnaðar, sem brúðurin á heima í, án tillits til þess, hvar brúðguminn er heimilisfastur. Það getur engan veginn verið löggjafans meining, að lýsingarnar skuli hjer á landi endilega framfara við sóknarkirkju brúðarinnar, því slíkt vildi víða valda ónauðsynlegum drætti á brúðkaupinu, og gjöra það, að stúlkur í sumum sóknum, þar sem ekki er embættað, nema ef til vill, 3 sunnudaga á ári, ekki

gæti gipzt, nema með að flytja sig út úr sókninni. Í kristnarjetti Árna biskups stendur og, að brúðhjónin skuli láta sóknarpresta sína lýsa með sjer í kirkju þrjá sunnudaga áður; þar á móti mega lýsingar ekki framfara í kirkjum, sem liggja fyrir utan prestakallið, og það ekki þó sami prestur um stund gegni báðum prestaköllunum, svo lengi þau ekki verða sameinuð, eður geta álitizt sem eitt prestakall. Í því prestakalli á að lýsa, sem brúðurin er heimilisföst í, þegar lýsa á; þó brúðurin um stund dvelji í öðru prestakalli, enn hún á heima í, má ekki lýsa þar með henni, og eigi heldur, ef hún ólöglega er komin þangað, til að mynda hlaupin burt úr vist sinni; en hafi hún fengið uppgjöf á vistinni, er vera hennar þar lögleg, þó hún hafi farið þangað fyrir vinnuhjúaskildaga; og það getur ekki út af fyrir sig gjört veru hennar ólöglega, þó hún ekki hafi tekið vegarbrjef nje prestsseðil. Nú flytur stúlka úr einni sókn og inn í aðra, og er búið að lýsa með henni nokkrum lýsingum, en eigi öllum, og á þá hinn nýi sóknarprestur hennar að halda lýsingunum áfram, en hann verður áður að fá fulla vissu frá fyrra sóknarpresti hennar um það, hvað mörgum lýsingum sje búið að lýsa.

Frá því að þurfa að láta lýsa með sjer, eru undanþegnir:

1. Allir aðalsmenn.
2. Lögtignaðir menn.
3. Synir þeirra embættismanna, er lögtignarembætti hafa í 3 fyrstu flokkunum.

4. þeir, sem fengið hafa konungsbrjef fyrir að þurfa þess ekki.

*Brúðguminn á að biðja prestinn nokkrum dögum fyrirfram, að lýsa með sjer.* Ef presturinn þekkir brúðgumann, má brúðguminn biðja hann þess brjeflega, og þarf þá ekki að finna prestinn upp á það; en þekki presturinn hann ekki, verður hann sjálfur að finna prestinn; geti brúðguminn, vegna einhverra nauðsynja, ekki komizt sjálfur, má hann þó senda til prestsins einhvern kunnan og áreiðanlegan mann, til að framkvæma þetta fyrir sig, og gefa prestinum skýrslur þær, er þarf. Undir eins og einhverr þannig biður prestinn að lýsa með sjer, á presturinn að rita það í kirkjubókina, sjá 5. gr., og erfðatilskipunina 25. sept. 1850, 9. gr. Eptir ósk annarra, enn brúðgumans sjálfs, eður umboðsmanns hans, sem nú var sagt, má presturinn ekki fara að lýsa með neinum. Menn eiga í þessu að halda sjer til sóknarprestsins sjálfs, en eigi kapellánsins, þó presturinn haldi hann. Að biðja prestinn morguninn, áður enn hann fer að messa, eður deginum áður, að lýsa með sjer þá í messunni, er ólöglegt, og þarf presturinn eigi að gegna því.

Áður enn presturinn fer að lýsa, á hann að gæta þess, að engir meinbugir sje á hjónabandinu, 3. gr., en þessir eru meinbugir á hjónaböndum:

1. Má enginn karlmaður kvongast, sem er fyrir innan tvítugt, og engin stúlka giptast, sem er yngri en 16 vetra, 3.gr. 1; brúðhjónin verða því að sýna prestinum skírnarseðla sína eður önnur skjöl, er sjá

megi af aldur þeirra með vissu, ef presturinn krefst þess, og þykist hafa ástæðu til að halda, að þau sje ekki nógu gömul.

2. Bæði brúðhjónin eiga að vera fermd, og hafa verið til altaris, 3. gr. 2; það geta þau sannað með fermingarseðlum eða prestsseðlum sínum.

3. Þau verða að vera orðin laus við sitt fyrra hjónaband, hafi annaðhvort þeirra eða bæði áður verið gipt; og hvorigt þeirra má vera skuldbundið að lögum, að giptast öðrum, 3. gr. 3. Í þessu tilliti ber að gæta þess:

*a.* hafi brúðhjónin annaðhvort bæði fyrr verið gipt, eður annað þeirra, getur það, sem það áður átti, annaðhvort verið lifanda eður dautt:

*α.* Sje það enn lifanda, verður hjónabandið að hafa verið gjörsamlega gjört ómerkt, annaðhvort með konunglegu leyfisbrjefi, *er leyfi því, sem nú vill fara að gipta sig aptur, að giptast á ný,* eður með dómi, *sem leyfi því það,* og verður presturinn að láta sýna sjer konungsbrjefið eður dóminn, 3. gr. 3; þó, ef hjónin hafa verið dæmd í sundur með undirrjettardómi, og hafi hitt þeirra ekki afsalað sjer rjetti að áfrýja hann, verða að vera liðnar 8 vikur, frá því dómurinn var birtur, eður ef það hefir fallið frá birtingu, frá því hann var uppkveðinn; sjá tilsk. 23. maí 1827, 1. gr., sem hjer var lögleidd með tilsk. 21. des. 1831, sbr. tilsk. 15. ágúst 1832; ef orðið hefir að stefna hinu sem því, er ekki hefir viljað láta finna

sig, á dómurinn að birtast á þeim stöðum, er birta hefir orðið stefnuna eptir N.L. 1—4—10, eður bæði þar, sem það seinast hafði aðsetur sitt, og líka við yfirrjettinn, og telst þá fresturinn frá þeim tíma, að dómurinn í seinna sinnið var birtur; sjá tilsk. 23. maí 1827, 2. gr. Áður enn tilsk. 15. ágúst 1832 kom út, reiknaðist áfrýjunarfrestur hjeraðsdómanna frá uppsögn þeirra, svo allir dómar, er þá gengu, hafa fyrir löngu misst áfrýjunarfrest, þó þeir ekki hafi verið birtir hlutaðeigöndum. Undir eins og hinar umtöluðu 8 vikur eru liðnar frá dómsins lögbirtingu, er sanna verður fyrir prestinum með vitnisburði stefnuvottanna eður dómarans á dóminum, og engin áfrýjunarstefna innan þess tíma hefir verið úttekin, er sannast verður með vitnisburði dómsmálaskrifarans við yfirdóminn, má hið fyrra hjónaband ekki vera til neinnar fyrirstöðu því, að vígja það í nýtt hjónaband, sem við dóminn hefir fengið rjett til að giptast á ný.

β. *Sje það þar á móti dáið*, má ekkillinn ekki kvongast aptur, fyrr enn eptir 3 mánuði frá dauða konunnar, en ekkjan ekki fyrr enn eptir ár frá dauða mannsins; þó ef hjónin eru bændur eða almúgamenn, þurfa þau ekki að bíða svo lengi; ekkillinn þarf þá að eins að bíða í 6 vikur, en ekkjan í 3 mánuði; þó ekkjan því að eins svo stutta stund, að vissa sje fyrir því, að hún ekki sje óljett eptir fyrra mann sinn,

3. gr. 5; þetta verður hún að sanna með læknisvitnisburði eður eiðsvarinnar yfirsetukonu; eins og hið eptirlifanda verður að sanna dauða þess, sem það áður átti, með vitnisburði þess prests, sem grafið hefir það, eður með slíkum órækum sönnunum. Enn fremur eiga skiptin að vera í hið minnsta byrjuð, áður enn gefa má saman hið eptirlifanda í nýtt hjónaband; það sannast með vitnisburði skiptaráðandans eður erfíngja hins dána, ef þeir allir eru fjár síns ráðandi og skipta sjálfir með sjer, nema það með óræku testamenti eður á annan löglegan hátt sje leyst frá því, og verður þá presturinn að láta sýna sjer skilríki þessi. Skipti hið eptirlifanda með samfrændum, er svo er nefnt, verður prestinum að sýnast vitnisburður valdsmannsins fyrir því, að búið sje að skipta á lögboðinn hátt, 9. gr.

b. *Karlmaðurinn getur að lögum verið skuldbundinn að eiga aðra stúlku eptir tilsk. 5. marz 1734,* — sem konungur sendi hingað með brjefi sínu 14. júní 1740, til þess hún skyldi gilda hjer sem lög — ef hann, eptir að vera orðinn 25 ára gamall, hefir lofazt einhverri siðsamri mey eður ekkju, sje hann lögráðamaður hennar, og gjört hana síðan óljetta; það er engin sönnun fyrir því, að hann hafi lofazt henni, þó hún geti sýnt frá honum elskubrjef til sín, og ekki heldur sannast það við laus orð hans eður loforð, heldur verður hann að hafa brjeflega heitið að eiga hana

með hönd og signeti í viðurvist tveggja skilríkra votta. Ef prestinum er sýnt þvílíkt brjef, eður annað, er gefi jafngilda vissu fyrir því, að maðurinn í rann og veru, eður í fullkominni alvöru hafi heitið að eiga þvílíka stúlku, og síðan gjört hana óljetta, má hann ekki lýsa með honum, eður gefa hann í hjónaband, nema hinn geti sýnt prestinum órækan dóm fyrir því, að það brjef ekki sje gilt, eður hann dæmdur lauss við að eiga stúlkuna; en því heldur ber prestinum að halda sjer frá að gefa hann saman, þegar honum er sýndur dómur fyrir því, að brúðgumaefnið sje skyldur til að eiga aðra.

4. *Mega brúðhjónaefnin ekki vera skyld nje tengd í forboðna liðu,* nema þau geti sýnt konunglegt leyfisbrjef fyrir því, að þau samt megi giptast saman, 3. gr. 4. Enginn, hvorki karl nje kona má eiga afkvæmi sitt nje systkini; enginn karlmaður má heldur eiga þá stúlku, sem er formóðir eður afkvæmi annarrar, er hann fyrr hefir átt eður haft að líkamslosta; og enginn kvennmaður má giptast forföður eður nið þess, sem hún áður hefir verið gipt, eður haft hefir holdlegt samræði við hana. Þetta er með öllu bannað, og fæst engin konungleg undanþága frá því, er það og blóðskömm, ef þessir menn hafa holdlegt samræði saman, og dauðahegning viðlögð. Enn fremur má engin stúlka eiga nið systkina sinna, ekki heldur bróður eða systkinanið barnsföður síns, eður þess, sem hún fyrr hefir verið gipt; þó fæst

konungleg undanþága frá þessu, er verður þá að sýnast [illegible]stinum, tilsk. 23. maí 1800.

5. Má engan holdsveikan gefa í hjónaband, kgs.brjef 28. marz 1778 og 7. des. 1827; sje því nokkrar líkur til þess, að annað brúðhjónanna sje holdsveikt, má presturinn ekki gefa það í hjónaband, nema það sýni með læknisvitnisburði, að það sje það ekki, og að slík veiki, eptir því sem sjeð verður, ekki búi í því.

6. *Á stúlkan, ef hún er yngri enn 18 vetra, að hafa samþykki foreldra sinna, eður fjárhaldsmanns síns; nema hún sje ekkja, þarf hún einskis samþykki,* því hún ræður sjer þá sjálfri, hvað ung sem hún er. Sje hún *eldri enn 18 vetra, og yngri enn 25 vetra,* verður hún að hafa *samþykki fjárráðanda síns,* og hið sama er og um *manninn, sje hann yngri enn 25 ára,* nema hann áður hafi fengið leyfi til að vera fjár síns ráðandi að öllu leyti. Eptir þessu ætti prestar enga að gefa í hjónaband, er eigi væri orðnir fyllilega ráðendur fjár síns, og hvorki ætti foreldra á lífi, nje hefði fjárhaldsmenn eður fjárráðendur, nema þeim áður væri settur fjárhaldsmaður eður fjárráðandi, er gefið gæti samþykki sitt til giptingarinnar, en þessa mun samt hvergi hjer á landi gætt. Mótbárur foreldra, fjárhaldsmanna og fjárráðanda *má yfirvaldið* eptir tilskipuninni *gjöra ónýtt.* Af því orðið *yfirvald,* sem hjer stendur, er svo óákveðið, er það auðsætt, bæði að ekkert tiltekið yfirvald hefir við tilskipunina fengið þenna rjett, og líka, að það yfirvald ekki hefir við tilskip-

unina getað misst hann, er áður hafði hann, en við tilskipun 3. júní 1746 um hjónaband hjer á landi o. s. frv., 1. gr., fjekk sýslumaður og prófastur það vald, að rannsaka í sameiningu með prestinum mótbárur foreldra og fjárhaldsmanna gegn giptingum, og gjöra mótbárur þeirra ómerkar, þætti þeim þær eigi á rökum byggðar; og þenna rjett verða þeir því enn að hafa, enda virðist þetta og í öllu tilliti bezt hlýða, eptir því sem hjer á landi tilhagar.

Hafi mótbárur foreldra, fjárhaldsmanns eður fjárráðanda verið ónýttar af yfirvaldinu, verður prestinum að sýnast sá úrskurður þess, sjá 3. gr. 6, opið brjef, 4. janúar 1861.

7. *Annað brúðhjónaefnanna má ekki áður hafa gjört sig sekt í hórdómi með hinu,* 3. gr. 8; en þá hefir það gjört sig sekt í hórdómi með því, ef það hefir haft holdlegt samræði við það, meðan hið fyrra hjónaband þess varaði, og eins fyrir því, þó hjónin hafi verið aðskilin að borði og sæng (tilsk. 24. sept. 1824, hjer lögleidd við kgs.br. 7. desember 1827). Þó getur einstöku sinnum vænzt konungleg undanþága frá þessu banni, og verður þá presturinn að láta sýna sjer konungsbrjefið, er leyfi þeim að giptast saman, þrátt fyrir það þó annað þeirra áður hafi gjört sig hórsekt með hinu.

8. *Enginn vitstola má gefast í hjónaband,* með því hann og ekki gilt samþykki getur gefið, 3. gr. 9.

9. *Hvorigt brúðhjónaefnanna má þiggja sveitarstyrk, nje hafa notið hans, síðan þau komust úr*

*ómegð, nema það þá hafi endurgoldið hann aptur sveitinni;* ef presturinn hefir ástæðu til að halda þetta, verður hann að heimta sjer sýnd skýrteini frá hreppstjórum þeim, þar sem þau síðan hafa sveit átt; þó má þetta ekki hamla hjónabandinu, ef sveitastjórnin þar, sem maðurinn er hrepplægur, ekkert hefir á móti hjónabandinu, 3. gr. 10.

10. *Má ekki bann hafa verið lagt niður gegn hjónabandinu hjá sýslumanni eður bæjarfógeta, ef banninu síðan er framfylgt með lögboðnum hraða, nema það verði gjört ógilt með dómi eður á annan löglegan hátt, til að mynda: sátt,* 8. gr. Um bannið verður undir eins sóknarpresti þeim, er eptir lögunum ber að gefa brúðhjónaefnin saman, að gefast vísbending, því annars getur hann ekki varað sig á því; þá virðist sem banninu sje löglega framfylgt, ef klögunin er hið fyrsta send sáttanefndinni, og málinu síðan með sem mestum hraða stefnt fyrir dóm, þegar það hefir verið fyrir sáttanefndinni, og síðan sje framfylgt þar á lögboðinn hátt; presturinn verður og að fá vitneskju um það, hvenær málið kemur fyrir sáttanefndina, hvenær það kemur fyrir dóm, og loksins um útfall þess.

11. *Brúðhjónaefnin verða að sanna, að þau hafi fengið barnabólu, eður að þau hafi verið kúabólusett,* 10. gr.

12. Er boðið í tilskipuninni, 11. gr., að prestur má engan gefa í hjónaband, sem eptir stöðu sinni er skyldur að leggja í ekkjusjóðinn, þessu er nú þannig breytt með opnu brjefi 31. maí 1855, að enginn

prestur má nú gefa saman í hjónaband nokkurn embættismann, sem á rjett til eptirlauna, fyrri enn hann með vitnisburðarbrjefi amtmanns hefir sannað, að hann sje undanþeginn þeirri skyldu, að sjá ekkju sinni borgið með fjárstyrk eptir sinn dag, eður að hann hafi sent amtmanni beiðni til ríkisfjárstjórnarinnar um að mega leggja í lífsábyrgðarsjóðinn, og er 100 rd. sekt viðlögð, ef presturinn út af brýtur.

13. *Eptir tilsk. 27. maí 1746 um spítalana, 24. gr., má enginn prestur vígja þann í hjónaband, sem greiða á gjald til spítala fyrir giptingarleyfi, nema hann sýni biskupskvittun fyrir því, að gjaldið sje greitt; sjá og tilsk. 30. apr. 1824, 12. gr.;* slíkt gjald á að greiðast, þegar einhverr fær konunglegt leyfi til, að giptast í forboðna liðu, nema ef maðurinn er andlegrar stjettar, því þá á það að lúkast til prestsekkna. Fyrir norðan og vestan, þar sem amtmennirnir hafa umsjón með biskupi yfir spítölunum, verður kvittun þeirra að vera næg.

14. Um giptingu pápiskra og þeirra, er annarleg trúarbrögð hafa, er fyrr talað.

Presturinn á að útbúa sig með áreiðanlegum sönnunum fyrir því, að engir fyrtjeðir meinbugir sje á hjónabandinu, að svo miklu leyti sem það er unnt eptir eðli þeirra, og til enn meiri vissu um það, að þeir sje ekki, á hann að heimta af brúðhjónunum, að þau setji tvo fullgilda svaramenn; en það mega engir aðrir vera, enn annaðhvort *konunglegir embættismenn* eður *búsettir menn,* sem engin ástæða er til að efast um, að sje áreiðanlegir.

Að visu hafa fæstir prestar hjer á landi konunglegt veitingarbrjef fyrir embættum sínum, en embætti þeirra virðast þó vera þess eðlis, að eins vel megi trúa þeim til að vera svaramenn hrúðhjóna, sem að gefa brúðhjón saman, enda er presta hjer og í flestu tilliti, sem áður er sagt, að setja í flokk með konunglegum embættismönnum.

Svaramennirnir eiga ekki að vera sinn fyrir hvort brúðhjónanna, heldur báðir ábyrgjast í sameiningu, að engin lögleg tálmun sje á hjónabandinu. Ef þörf virðist, á presturinn að brýna fyrir þeim þann mikla ábyrgðarhluta, er þeir takist á hendur með svaramennskunni, því þung hegning er við lögð rangri svaramennsku. Svaramennirnir eiga annaðhvort í kirkjubókina eður á laust skjal að rita vitnisburð sinn um, að engir meinbugir sje á hjónabandinu, og á presturinn að fullvissa sig um, að þeir sjálfir riti nöfn sín undir. Ef brúðhjónaefnin hafa verið gefin laus við að útvega sjer svaramenn, er stundum getur viðborið, einkum sje annað útlenzkt, og þeim í þess stað sje leyft að synja með eiði, að nokkrir meinbugir sje á hjónabandinu, á presturinn bæði að láta sýna sjer leyfisbrjefið, er konungur að eins getur veitt, og eins útskript af rjettarhaldi því, er eiðurinn er svarinn, 4. gr.

Ýmsir af meinbugum þeim, er áður eru nefndir, eru þess eðlis, að þeir geta hvorfið af sjálfu sjer, eður að úr þeim má verða bætt, meðan á lýsingunum stendur, og virðist þá ekkert geta verið móti því, þó byrjað sje á lýsingunum, jafnvel þó ein-

hverjir slíkir meinbugir þá sje á, ef þess er gætt að gefa eigi brúðhjónin saman, nema meinbugalaust sje. þannig virðist til að mynda að byrja megi á lýsingunum, þó brúðhjónaefnin vanti fáar vikur upp á að hafa náð hinum lögboðna aldri, ef það er eigi meira enn svo, að þau verði búin að ná honum, áður enn hjónabandið geti framfarið.

Ef brúðhjónin ekki innan 3 mánaða, frá því lýsingarnar hafa framfarið, láta gefa sig saman, verða lýsingarnar marklausar, svo vilji þau samt halda áfram með að giptast, verður að lýsa með þeim á ný, 6. gr.; lýsingarnar verða þannig, ef hjónabandið ekki framfer innan fyrtjeðs tíma, marklausar af sjálfu sjer, og þarf því ekki að lýsa sundur með brúðhjónunum; en presturinn verður að gjöra athugasemd um þetta í kirkjubókina, að brúðhjónin ekki hafi gipzt innan rjetts tíma.

*Sá prestur á að gefa brúðhjónin saman, sem er prestur í þeim sóknum, þar sem brúðurin þá á heima*, er verið getur annarr, enn sá sem lýst hefir með henni, hafi hún síðan skipt um heimili. þó brúðurin sje um tíma einhversstaðar, ber ekki prestinum þar að gefa hana saman fyrir því; eins má hún ekki á ólöglegan hátt vera komin inn í sóknir hans, sjá 14. gr.

Í tilsk. 3. júní 1746, 4. gr., er og bannað, að brúðurin flytji sig þangað, sem brúðguminn á heima, eptir að þau eru trúlofuð; að vísu er nú opinber trúlofun burtfallin, en það virðist samt eptir þessu að vera óleyfilegt, að hjónaefnin flytji saman, eptir

að þau hátíðlega hafa lýst yfir því áformi sínu, að vilja giptast, eða í hið minnsta úr því farið er að lýsa með þeim.

Frá þeirri reglu, að sóknarprestur brúðarinnar eigi að gefa brúðhjónin saman, gefst þó sú undantekning:

1. *Að brúðhjónin hafi fengið konunglegt leyfisbrjef, til að mega láta annarlegan prest gefa sig saman;* til þessa mega þau þó ekki nota annan prest enn þann, sem þjónar einhverju prestakalli; en af þessu leiðir, að jafnvel þó hverr sá, sem prestsvígslu hefir, megi gefa hjón saman; getur hann samt ekki gjört það á sín eigin býti, ef hann hefir ekkert prestakall, heldur verður þá að gjöra það fyrir einhvern sóknarprest. Þegar einhverr prestur þess vegna er beðinn að gefa brúðhjónaefni saman, og brúðurin ekki á heima í sóknum hans, verður hann að gæta þess, að þau hafi fengið konunglegt leyfi til, að mega láta gefa sig í hjónaband af annarlegum presti; líka verður hann að heimta af þeim skýrteini frá sóknarpresti brúðarinnar um, að honum sje borgaður pússunartollurinn, því hann á einskis að missa í af tekjum sínum fyrir það, þótt annarlegur prestur gefi þau saman, og loksins verður hann að fá frá sóknarpresti brúðarinnar skýrslu um það, hvort nokkuð það hafi viðborið, er tálmað geti hjónabandinu, til að mynda, bann verið lagt niður gegn því, og er hann skyldur að gefa skýrslu þá; samt verður sá prestur, sem gefur brúðhjónin saman, sjálfur vandlega að gæta þess, að engir meinbugir

sje á hjónabandinu, því öll ábyrgðin liggur á honum, og því eiga svaramennirnir að setjast honum.

Undir eins og hjónavígslan er um garð gengin, á presturinn að rita gjörðina í kirkjubókina hjá sjer, og gefa sóknarpresti brúðarinnar skýrslu um þetta, er og á að gjöra skýrslu um það í kirkjubók sína, 14. gr.

2. Ber eptir kgsbrjefi 11. marz 1796 prófústunum að fremja brúðhjónavígslur:

*a, hjá sóknarprestunum* (í prófastsdæmum sínum), *hvort sem þeir sjálfir eiga í hlut, eður nánustu náungar þeirra,* en þetta segir kgsbrjefið sjálft að eigi að skiljast svo, að prófústunum beri að gefa saman:

α, *sóknarprestana, þegar brúðurin eigi heima hjá sóknarprestinum sjálfum, eður í sóknum hans;* og

β, *þau brúðhjón, þegar brúðurin er sóknarprestinum skyld eða tengd í fyrsta jafna eður ójafna lið, og á heima hjá honum*; þar með er án efa meint, þegar brúðurin er móðir eður dóttir sóknarprestsins, eður systir hans, eður þegar hún er stjúpa hans eður tengdamóðir, stjúpdóttir eður tengdadóttir, bróðurekkja hans eður systir konu hans.

*b, hjá kapellánum, nánustu námungum þeirra og ekkjum;* þó er það á brúðhjóna þessara sjálfra valdi, hvort þau heldur láta prófastinn eður sóknarprestinn gefa sig saman, sem gjarnan má það, ef brúðurin ekki er tengd eða skyld honum, sem

um er getið undir stafl. *a.* Þetta verður nú að skiljast álíkt og hið fyrra, og þannig: að eptirtöldum mönnum stendur frjálst fyrir, hvort þeir láti prófasta sína eður sóknarpresta gefa sig saman:

α. *Þjónöndum kapellánum, þegar brúðurin á heima hjá kapelláninum sjálfum eður í prestakalli því, sem hann er kapellán í.*

β. *Þeim brúðhjónum, þegar brúðurin er skyld eður tengd þjónanda kapelláni á þann hátt, sem segir undir stafl. a, og á heima hjá honum.*

γ. *Ekkjum kapellána;* en þegar menn gæta að því, að ekkjur uppgjafapresta ekki hafa leyfi til að láta prófasta gefa sig saman, ef þær eru fyrir utan sóknir þeirra, verður hjer að eins að vera átt við þær kapellánaekkjur, er standa í því sambandi við sóknarpresta sína, að menn þeirra áður voru kapellánar hjá þeim.

Þegar sóknarpresturinn eður kappelláninn situr fyrir utan sóknir sínar, er sem sjaldnast ætti að leyfast eður líðast, verður hann að vera skyldur að borga sóknarprestinum þar pússunartoll, er prófastur gefur hann saman.

3. Sóknarprestarnir mega, þó þeir ekki sje prófastar, gefa í hjónaband sóknarpresta í næstu köllum og stúlkur þær, sem þeim eru skyldar eður tengdar, þegar svo á stendur, sem nú var getið 2. *a;* en hafi hægt verið að koma boðum til prófasts-

iňs, en þó ekki verið gjört, verða brúðhjónin að greiða prófastinum 2 rd., kgs.brjef 11. marz 1796.

4. Í tilskipuninni 30. apríl 1824 er sagt, að þegar brúðguminn sje lúterskrar trúar, en brúðurin pápiskrar, beri sóknarpresti brúðgumans að gefa hjónaefnin saman; en um þetta efni, er langt mun verða þess að bíða, að hjer á landi komi fyrir, má bera saman það, sem sagt hefir verið áður um frelsi þeirra, er annarleg trúarbrögð hefði.

Brúðhjónavígslur eiga að fara fram í kirkjunni, þó þarf þess ekki, hafi *annaðhvort* einhverr fengið konungsbrjef, til að láta gefa sig saman í heimahúsum, *eða* ef annaðhvort hjónaefnanna liggur veikt, og ekki er tími til að fá konunglegt leyfisbrjef; enda má þá og gefa þau saman, þó ekki hafi verið búið að lýsa með þeim; en presturinn á þá gegnum yfirmenn sína, að skýra ráðherra kirkjumálefnanna frá þessu.

Hjón má gefa saman á hverjum tíma sem er, þó má eigi gjöra það í kaupstöðum á sunnudögum nje öðrum helgum dögum, en annarstaðar mega prestar gjöra það eins þá daga og aðra, ef þeir vilja. Sjálfur á prestur að kosta för sína fram og aptur, er hann gefur hjón saman.

Prestarnir eiga að fremja lýsingarnar og brúðhjónavígslurnar eptir reglum þeim, sem þeim eru fyrirlagðar, og finnast þær í prestahandbókinni.

Skyldi annaðhvort brúðhjónanna vígsludaginn vera svo drukkið, eður á einhvern annan hátt verða svo viti sínu fjær, að loforð þess eður samþykki yrði

að álíta sem markleysu; eður skyldi annaðhvort brúðhjónanna gjöra eitthvað það, er vottaði, að það væri nauðugt, til að mynda þegði við spurningum prestsins, og vildi ekki svara þeim, eður segði: *»nei«* til þeirra; eður skyldi einhver slík atvik uppkoma, er gjörði hjónabandið með öllu óleyfilegt eður markleysu, verður presturinn að hætta við vígsluna, eður slá henni á frest eptir því, sem tilhagar, eður eptir því, hvort tálmunin að eins er í bráð eður til lengdar.

Þegar giptar konur eiga börn með mönnum sínum, eiga prestarnir að leiða þær í kirkju, með venjulegum serímoníum, og það jafnt, þó barnið hafi komið undir, áður en konan giptist; sjá kgs.br. 3. júní 1763; konan á að halda sjer frá kirkjunni fyrst í nokkrar vikur á eptir barnsburðinn; síðan þegar hún í næsta sinni kemur til kirkju, á hún að láta prestinn vita það, svo hann þá geti leitt hana í kirkju; gangi hún án þess í kirkju, sekst hún eður maður hennar fyrir það. Presturinn heldur í kórdyrunum eður krókbekknum, áður en til er tekið, stutta ræðu yfir henni, til að hvetja hana til þakklætis við guð fyrir afstaðinn barnsburð, og ef barnið lifir, til að ala það í ótta og aga drottins, og ganga á undan því með góðu eptirdæmi, og síðan leiðir presturinn hana inn í kirkjuna til sætis hennar. Með kgs.br. 22. nóv. 1754 var þessi kirkjuleiðsla aftekin bæði í Danmörku og Noregi, og boðið, að presturinn skyldi í enda ræðu sinnar á stólnum minnast konunnar á áþekkan hátt og er hún væri leidd í kirkju; þó, ef einhver kona vildi láta leiða sig í kirkju, sem venja hefði

verið til, skyldi presturinn gjöra það. Þó þetta konungsbrjef ekki hafi verið gjört gildanda hjer á landi, og sje eldra enn hið áðuráminnzta frá 1763, hafa hjer þó prestar smámsaman komið þessari venju á, að minnast konunnar af stólnum; en vilji einhver kona láta leiða sig hjer reglulega í kirkju, hlýtur presturinn að vera skyldur til þess.

Við hvert hentugt tækifæri eiga prestarnir að leitast við að innræta söfnuðum sínum virðingu fyrir hjónabandinu, og hversu það sje heilagt, og þar sem þeir verða varir við ósamlyndi millum hjóna í söknum sínum, eiga þeir að reyna til að tala niður á millum þeirra.

Eptir lögum vorum verður hjónabandið gjört ómerkt á tvo vegu, *annaðhvort* með dómi, og verða þá að vera lögmætar ástæður til skilnaðarins, *eður* með konunglegu leyfisbrjefi; en slíkt leyfi fæst þó ekki, nema hjónin fyrr hafi fengið leyfi til að skilja að borði og sæng, og hafi síðan lifað aðskilin í 3 ár og er þá orsökin til skilnaðarins optast ósamlyndi millum hjónanna. Þegar einhver hjón sækja um leyfi til að mega skilja að borði og sæng, má engan gaum gefa að því bónarbrjefi, fyrr enn presturinn hefir ritað á það vottorð sitt um, að sjer hafi gefizt tækifæri á, að reyna að fá hjónin með guðlegum fortölum til, að fara að lifa á ný með eindrægni og kristilega í hjónabandinu; og þegar þau seinna sækja um, að hjónabandið megi verða slitið, má slíkri bón heldur enginn gaumur gefast, nema presturinn á ný hafi reynt til, að sætta þau og ritað vottorð sitt um

þetta líka á það bónarbrjef. Presturinn á því áður, hvort heldur hjónin sækja um, að mega skilja að borði og sæng, eður síðar, að hjónabandið megi algjörlega verða slitið, að kalla hjónin fyrir sig, annaðhvort sitt í hvoru lagi, eður bæði undir eins, eptir sem sann álítur hentugra, og þarf hann ekki að hætta við að reyna til, að tala millum þeirra, meðan hann ekki með öllu er úrkula vonar um, að hann kunni að geta sætt þau aptur; þó setti *kansellíið* einstöku sinnum prestum í Danmörku tíma, er þeir skyldi vera búnir á með þessar tilraunir sínar, en hjer á landi munu menn aldrei hafa klagað undan prestum í því. Sje hjónin fjóra hluti þingmannaleiðar (4 mílur) eður lengra hvort frá öðru, og sitt í hvoru prestakalli, á hvort þeirra að mæta fyrir sínum presti; eiga þá prestarnir, ef þörf er, að skrifast á, til að fá þær skýrslur hvorr hjá öðrum, er þeir álíta nauðsynlegar. Auk þessa á presturinn og að vitna um framferði hjónanna, meðan þau hafa lifað aðskilin að borði og sæng, og þar í á hann að skýra frá, hvort hann sjálfur fyrir eigin reynd hafi þekkt til þeirra á þessum tíma; en hafi það eigi verið, á hann að útvega sjer vitnisburði skilríkra manna um framferði þeirra, og vitna svo um áreiðanlegleik þessara manna. Að þetta vottorð presta verði að vera þannig lagað, leiðir af sjálfu sjer og er eptir kansellíbrjefi 5. febrúar 1828.

Og loksins er sagt í tilskipun 30. apríl 1824, 19. gr., að boð þau, er í laganna (sumsje dönsku laga) 3—16—15 finnist um vottorð presta, er hjón

vilja fá skilnaðardóm, skuli vera í gildi, og í kgs.-brjefinu 7. desember 1827, er lögleiddi tilsk. þessa hjer, stendur vísað til norsku laga 3—18—15, er þó eigi hafði verið lögleiddur hjer, heldur gilda um það efni hjer á landi hjónabandsartíkularnir 2. júní 1587, sem að vísu eru þvínær samhljóða í þessu áminnztum greinum í dönsku og norsku lögum. Þar er boðið, að þegar annað hjóna flytur burt frá hinu að orsakalausu, og er búið að vera 3 ár burtu, skuli það, er hitt flutti frá, fá sjer vottorð sóknarprests síns um það, hvernig það á þessum árum hafi hagað sjer, áður enn það geti fengið skilnaðardóm. Þar er og boðið víðar, að sá, er vill fá skilnaðardóm, skuli sanna með áreiðanlegum vottorðum framferði sitt, að það hafi verið gott, og er þá optast bezt og liggur næst við, að útvega sjer vottorð sóknarprestsins um þetta.

Vilji hjón, sem hafa áður verið gipt, en eru skilin, taka saman aptur, eiga þau, eptir kgs.brjefi 20. sept. 1815, að skýra prestinum frá því og setja svaramenn, og á þá presturinn að halda áminningarræðu yfir þeim heima hjá sjálfum sjer, án þess að gefa þau saman á ný í hjónaband; hafi þó hjónin fyrr verið skilin með dómi, verður áður að fá úrskurð (kansellíisins) dómsmálaráðherrans. En það er ekkert, er lýsir því, að konungurinn hafi viljað, að þetta skyldi vera lög hjer á landi, eður í hertogadæmunum eður annarsstaðar, enn í Danmörku, heldur þvert á móti virðist lagaboðið sjálft bera það með sjer, að það að eins hafi verið gefið fyrir Danmörku,

og þannig virðist kansellíið hafa skilið það, því það sendi kgsbrjef þetta einungis biskupnum í Danmörku, svo það þar að auki aldrei hefir verið birt hjer. Með því nú á annan bóginn menn eigi geta álitið neinn samning millum karls og konu hjónaband, — sem er rótin til svó margra skyldna og rjettinda millum hjónanna sjálfra og eins annarra, er að þeim standa, og sem stendur svo undir umsjón og vernd hins opinbera — nema það sje stofnað á þann hátt, er lögin fyrirskipa í öllu hinu verulega, og hjónin á hinn bóginn, þegar hjónaband þeirra er slitið og gjört ómerkt, hvort heldur það er með dómi eður konunglegu leyfi, verða hvort öðru vandalaust, — því að nokkrar andlegar leifar sje samt eptir af hjónabandinu, vegna þess hjónin voru vígð saman, virðist eigi samkvæmt skoðun Mótmælanda, — þá verður það að vera nauðsynlegt hjer á landi, þar sem ekkert lagaboð fyrirskipar annan framgangsmáta, að hið nýja hjónaband áminnztra manna sje stofnað sem hvert annað hjónaband, og hjónin því vígð saman á ný.

## 27. gr.

### Skyldur presta við veika og sakamenn.

Eptir tilsk. 27. maí 1746, 23. og 24. gr., eiga prestarnir ætíð að vera viðbúnir og fúsir að vitja sjúkra í sóknum sínum, til að fræða þá af guðsorði, hvernig þeir eigi að haga sjer í sjúkdómi sínum, og eins til að hvetja þá, sem eru á heimilinu, til að lesa guðsorð fyrir þeim og hughreysta þá í veik-

indunum; ef hinn veiki óskar að láta þjónusta sig, og er svo sjúkur, að hann ekki kemst til kirkju, á presturinn að gjöra það; við þetta tækifæri mega náungar hins veika og þeir, er við eru, vera til guðsborðs um leið, eins og áður er getið. Í kirkjuordinantsíu Kr. 4. er boðið, að setja við þetta tækifæri borð fyrir framan hinn sjúka, breiða þar á hreinan dúk, og setja á kertaljós, ef til er, leggja þar síðan á brauðið og vínið og helga það þar; skuli og presturinn, meðan hann þjónustar, vera skrýddur messuklæðum; yfir höfuð eiga prestar að stuðla til, að þessi gjörð sín geti orðið nokkuð hátíðleg, bæði sökum hins sjúka, og eins af virðingu fyrir sakramentinu.— Prestar eru skyldir að eiga dálítinn kaleik og patínu, til að hafa með sjer, er þeir eru sóttir til að þjónusta, því kirkjurnar eru ekki skyldar að leggja þetta til, og eins ekki vín nje brauð til þessa, er presturinn því verður sjálfur að vera sjer úti um, og hafa með sjer að heiman.

Prestum varðar það við embætti, ef þeir hafa nokkurt þvílíkt hjal við hina sjúku, er geti truflað þá í guðrækilegum hugleiðingum þeirra. Eptir áminnztri tilskipun eiga prestar ekki að eins að vitja sjúkra, þegar þeir eru sóttir til þeirra, heldur eiga þeir og að gjöra það án þess, ef þeir álíta þess þörf, og því eiga þeir að áminna húsbændurna í sóknum sínum um, að láta sig tafarlaust vita, þegar einhverr á heimilum þeirra verður sjúkur, en þar við verður án efa að skiljast fárlega sjúkur, svo honum sje dauði búinn.

Að því er þá fanga einkum snertir, sem klagaðir eru fyrir einhvern lífleysisglæp, þá á presturinn á þeim stað, þar sem hinn situr fanginn, opt að koma til hans í fangelsið, til þess að telja um fyrir honum, og þegar búið er að dæma hann til dauða, til þess að búa hann undir dauðann, og veita honum altarissakramentið, ef hann óskar þess og finnst hæfur til að neyta þess. Presturinn á að fara undan eður með fanganum til aftökustaðarins, og bíða hans þar; leitast þar við, að láta hann einlægt hafa hugann á guði, og halda sjer kyrrum, og má hann ekki fara þaðan fyrr, enn búið er að taka hann af; á aftökustaðnum má syngja sálm, ef fanginn óskar þess (K. O. Kr. 4.).

## 28. gr.

Um skyldur presta við lík.

Hvern kristinn mann, sem deyr, á að grafa í kirkjugarði vígðum; sjá kristinrjett *Árna* biskups kap. XI; þar er og bannað að grafa lík í kirkjum, nema biskup leyfi; þó eru það nokkrir, sem ekki má grafa í kirkjugarði, og nefnist greptrun þeirra manna *óheiðarleg;* en *heiðarleg* allra þeirra, sem í kirkjugarði eru jarðaðir, og getur hún annaðhvort verið *hátíðleg,* þegar presturinn má kasta moldum á líkið, og jarðarförin má framfara með öllum vanalegum *serímoníum,* sem hjá oss er hljóðfærasláttur, söngur, líkræða, hringingar og líkfylgd, eður *ekki hátíðleg,* þegar hún ekki má framfara á þenna hátt, heldur verður að framfara í kyrrþey. Á hinni ó-

heiðarlegu greptrun er og munur gjörður, og getur hún verið minna eður meira óheiðarleg.

Í kristnarjetti Árna biskups er sagt, að ódáðamenn skuli eigi í kirkjugarði grafa, og eru þeir þar taldir, þó var sú linkind þar á gjörð, að flesta þá mátti grafa í kirkjugarði, utan þjófa dæmda og morðvarga, ef þeir fengu lausn fyrir dauðann; og þó þeir eigi fengi hana, mátti þó biskup leyfa að grafa þá þar, ef nokkuð iðrunarmark sást á þeim. En um þetta efni má nú álíta, að dönsk lög gildi hjer ein, sjá tilsk. 24. janúar 1838, sem og öll eru mildari.

Þeir, sem því nú má grafa í kirkjugarði, en ekki á hátíðlegan hátt, eru:

1. Þeir, sem teknir hafa verið af á vanalegan hátt, DL. 2—10—4.

2. Þeir, er deyja sem minni menn, DL. 2—10—4; sú hegning er nú næstum úr lögum numin.

3. Þeir, sem vísvitandi hafa drepið sig sjálfir, en yfirvaldið þó hefir leyft að grafa á þenna hátt; þetta leyfi mega amtmennirnir veita í sýslum þeim, sem þeir eiga heima í, en í hinum sýslunum hverr sýslumaður í sinni sýslu; það má þó aldrei veita, nema ástæður sje til að efast um, að maðurinn hafi verið með öllum mjalla, er hann fargaði sjer, og á það að vera þannig lagað, að grafa megi sjálfsmorðingjann í kirkjugarði, en á afviknum stað, og án þess prestur kasti moldum á hann, þó má leyfið og hljóða þannig, ef sjerleg atvik mæla með því, að grafa megi hann í kirkjugarði, og presturinn kasta moldum á hann, en þó í kyrrþey; en jarðarförin má

samtveldrei framfara með söngum, hljóðfæraslætti nje hringingum, og presturinn enga líkræðu halda, og engin hátíðleg líkfylgd eiga sjer stað; sjá kansellíbrjef 3. ágúst 1833; þegar leyfið er þannig orðað, sem er þó síður rjett, að sjálfsmorðingjann megi grafa í kirkjugarði, en í kyrrþey, er prestinum vítalaust að kasta moldum á hann.

Þeir, sem ekki má jarða í kirkjugarði, eru:

1. Þeir, sem hafa vísvitandi drepið sig sjálfa, og það er víst, að þeir eigi hafi gjört það í sjúkdómi eða æði; þegar vafi þar á móti er um þetta, ákvarða valdsmennirnir, sem fyrr sagt, hvar og hvernig þá skuli grafa, 6—6—21.

2. Hórkarlar þeir, sem menn drepa í sæng hjá konum sínum, og fá þeir ekki lausn af presti, 6—12—4; þó virðist sem þessa menn mundi mega grafa í kirkjugarði, eptir kristnarjetti Árna biskups, ef sönn iðrunarmerki sæist á þeim fyrir dauðann.

3. Þeir, sem eru dæmdir til vansæmandi hegningar, en deyja í fangelsinu, áður en hegningin hefir orðið lögð á þá; sjá kgs.brjef 30. des. 1740.

4. Þeir, sem teknir hafa verið af með óvanalegum atvikum, í því skyni, að herða á líflátinu; sjá tilsk. 9. ágúst 1737; sbr. tilsk. 21. október 1791. Þessa seinastnefndu á að dysja á aftökustaðnum, og er því greptrun þeirra enn meir vansæmandi enn hinna, því þá má dysja hvar sem vill, utan kirkjugarðs. Þó er ákveðið í kristnarjetti Árna biskups, að eigi megi grafa þá nær, enn í örskotshelgi við túngarð, svo að þar sje hvorki akur nje eng, og eigi

falli þaðan vötn til bólstaða. Um greptrun þeirra, sem annarra trúarbragða eru, er talað fyrr.

Í kristnarjetti Árna biskups er að vísu sagt, að þá menn og börn, sem eigi ná skírn fyrir dauða, skuli grafa utan kirkjugarðs; en samt mun það nú almenn venja, og er meir samkvæmt skoðun þessara tíma, að jarða andvana börn fulltíða og eins önnur óskírð börn í kyrrþey í kirkjugarði, og að prestur kasti moldum á þau; en sje börnin hvorki fulltíða nje lifandi fædd, eru þau optast grafin þar, án þess presturinn kasti moldum á þau, eður komi þar að.

Eptir kristnarjetti *Árna* biskups *á hver kristinn maður þar löglegan gröpt, sem hann andast í kirkjusókn.* Það kemur því ekki upp á, hvar hann átti heimili, þegar hann dó, heldur upp á það, hvar hann er staddur, þegar hann andast. Sóknarprestinum þar, er hann andast, ber því að jarða hann, en ekki prestinum, þar sem hann átti heima; þó eru þær undantekningar gjörðar frá fyrtjeðri reglu:

1. *Hafi hinn dauði kosið sjer legstað að annarri graptarkirkju með sjálfs síns minni og með skynsemd heill að viti, þá á hann þar löglegan legstað.*

Það leiðir af sjálfu sjer, að þar sem hverr á löglegan gröpt, hvort heldur er í þeirri sókn, sem hann hefir dáið í, eður hann á fyrtjeðan hátt hefir kosið sjer legstað í, hlýtur presturinn þar að vera skyldur að jarða hann, ef þess er óskað, og eins að kirkjuverjandinn eigi má synja þar um leg handa

hinum dána. Aðrir prestar geta eigi verið skyldir að jarða hann, nje haft heimtingu á því.

Það ber þráfaldlega við hjer á landi, að maður er jarðaður að kirkju í annarri sókn, enn þar sem hann hefir dáið í, án þess hann þó hafi gjört þá ráðstöfun, og er hann þá, eins og eðlilegt er, jarðaður af sóknarprestinum þar, og hefir aldrei verið meinazt við þessu; en það er þó auðvitað, að hvorki á sá prestur, sem að lögum hefir heimtingu á að syngja yfir hinum dána, nje kirkja sú, þar sem hann átti að löglegan gröpt, að bíða nokkurt tjón í tekjum sínum við þetta.

Það getur borið við, að menn deyi eður finnist dauðir út á hafi eður á fjöllum uppi fyrir utan allar mannabyggðir, og verður manni þá að vera rjett að flytja þá til þeirrar kirkju, er hann vill, og sóknarpresturinn þar vera skyldur að jarða þá, er á hann er skorað um það.

Skoli líkum þeirra á land upp, er út á hafi drukkna, virðast þeir eiga löglegan gröpt að þeirri sóknarkirkju, sem þar er; og sóknarpresturinn þar, sem þessi viðburður ber til, að vera skyldur að syngja yfir þeim. Sama verður og að vera um þá, er í ám drukkna, nema ef sannast skyldi, að þeir hefði andazt í annarri sókn.

2. Suma menn ber, eptir kgsbrjefi 11. marz 1796, prófastinum að jarða, án tillits til þess, hvar hinn dáni hefir dáið, eður við hverja kirkju hann kann að verða jarðaður, og getur þá prestinum á þess-

um stað enginn rjettur borið, til að jarða þá, nje líksöngseyrir; þessir menn eru:

*a, allir sóknarprestar.*

*b, þeir karlar og konur, sem eru skyld eða tengd sóknarprestunum í fyrsta jafna eður ójafna lið,* en þar við er að líkindum átt við foreldra þeirra, börn, systkin, stjúpforeldra og tengdaforeldra, stjúpbörn, mága og mágkonur, og konur sóknarprestanna; þó er þetta því að eins, að hinn dáni sje eldri enn 18 vetra, og eigi heima hjá sóknarprestinum.

*c,* allar ekkjur sóknarprestanna og

*d,* uppgjafaprestar.

3. *Þegar kapellánar deyja, ekkjur þeirra og aðrir, sem þeim eru jafnskyldir eður sifjaðir, sem fyrr var greint undir 2. b,* og sem þá sjálfsagt verða að eiga heima hjá kapelláninum, og vera eldri enn 18 vetra, stendur mönnum frjálst fyrir, hvort þeir heldur vilji láta prófastinn jarða þá, eður sóknarprestinn, ef hann eigi er skyldur þeim eður tengdur á fyrtjeðan hátt. Líksöngseyrir getur þá ekki borið nema öðrum hvorum, prófastinum eður prestinum, eptir því, hvorr þeirra grefur þá.

4. Ef ekki næst til prófasts, má láta næsta sóknarprest jarða þá undir staflið 2. nefndu menn, og getur prófastinum þá ekki borið líksöngseyrir eptir þá.

Í Danmörku er prestum bannað að kasta mold á nokkurt lík, fyrr enn þeim er sýnt skýrteini frá skiptaráðandanum um það, að búið sje að segja

honum frá dauðsfallinu, og eru miklar sektir viðlagðar, ef presturinn brýtur út af þessu; þetta hefir og iðulega verið hjer brýnt fyrir prestum af stjórnarráðunum; en með því líkin víða þá yrði að standa of lengi uppi, ætti þessu boði hjer að vera hlýtt fyllilega, hefir þetta aldrei komizt hjer á gjörsamlega. Prestar hafa því víða álitið nóg fyrir sig, að skrifa sjálfir sýslumanninum undir eins um dauðsfallið, og sjá um, að brjefið kæmist hið fyrsta áleiðis; nú er sumstaðar hreppstjórunum gefið í umboð af sýslumönnum, að taka á móti skýrslu um dauðsföllin fyrir hönd sýslumanna, og verða þá prestarnir þar að fullvissa sig um, að dauðsfallið sje sagt hreppstjóranum, áður en þeir kasta moldum á líkið; og slíka skýrslu þurfa allir þeir prestar að hafa frá sýslumanninum, er búa mjög nærri honum, vilji þeir vera vítalausir.

Í *kirkjuritúalnum* er sagt, að ef nokkurr finnist bráðkvaddur úti á víðavangi eða annarsstaðar, og sem menn ekki vita, á hvern hátt sje dáinn, megi ekki jarða hann, fyrr enn presturinn hafi verið aðvaraður um þetta, og hann sagt það yfirvaldinu, og það skorið úr, hvernig megi jarða hinn dána. Þó þetta eigi sje beinlínis lög hjer á landi, verða prestar hjer þó að gæta sín, að grafa ekki slíka menn, einkum ef nokkrir áverkar finnast á þeim, upp á sitt eindæmi, fyrr enn þeir hafa fengið skýrslu sýslumanns um það, hvernig hinn dána megi grafa.

Eptir kristnarjetti Árna biskups, skal lík eigi grafa áður kólnað sje; þar er og bannað, að

lík standi inni yfir fimt nauðsynjalaust, og skal þá færa líkið til kirkju, ef auðið er; en verði því eigi komið við, skal líkið færa í úthús, og festa upp á fjöl og láta eigi á jörðu standa, sjá og K. O. Kr. 4.

Það er venja hjer á landi, að sá, er á kirkjustað býr, ræður því, hvar þar er jarðað í kirkjugarði, og er það samkvæmt kristnarjetti þeirra Þorláks og Ketils, og að nokkru leyti Árna biskups.

Það er og venja, að þó kirkja sje einhversstaðar lögð niður, er þar samt haldið áfram að jarða þar í kirkjugarði, endrum og sinnum, og virðist ekkert vera móti þeirri venju, ef garðinum er haldið vel við, svo hann sje sómasamlegur reitur framliðinna manna; en, með því þar er þó kirkja niðurlögð, verður eigi legkaupið tekið lögtaki, og eins verður að lúka legkaup til kirkju þeirrar, er hinn dáni hafði löglegan gröpt að.

Í kristnarjetti *Árna* biskups er og sagt, að á hverjum degi megi lík grafa, sem vill, nema á jóladag, föstudaginn langa og páskadag.

Greptrunin framfer á þann hátt, sem sagt er í handbók presta. Líkræðu heldur presturinn því að eins, að hlutaðeigendur biðji hann þess, K. O. Kr. 4.; gjöri hann það óbeðinn, getur hann enga borgun heimtað fyrir hana.

Það sýnist mjög eðlilegt, að enginn megi halda ræðu yfir hinum dauða, í kirkjunni eða kirkjugarðinum án prestsins samþykkis, eður presturinn megi leyfa það nokkrum nema þeim, sem eptir löggjöf-

inni má prjedika; þetta hefir og *kanselliið* álitið í brjefi sínu 21. júní 1817.

## 29. gr.

### Umsjón presta yfir siðferði manna.

Í katólskri tíð höfðu menn sem kirkjuaga, að útiloka hina þverbrotnu frá kveldmáltíðarsakramentinu, eður þá líka frá samneyti kristinna manna, og í því var bannfærslan fólgin; þetta viðhjelzt eptir siðaskiptin; þó var hinn þverbrotni fyrst áminntur af prestínum í einrúmi; ef það ekki tjáði, þá í nærveru góðra manna, áður enn farið var að beita við hann kirkjunnar aga. Á seinni tímum hafa margir mjög efast um, hvort menn með slíkum kirkjulegum aga nú gæti náð nokkru góðu, eður hvort við ætti að beita öðrum kirkjulegum aga, enn guðlegum áminningum og fortölum, og nú er hjer á landi, eins og fyrr er getið, bannfærlsa bönnuð, og að útiloka menn frá kveldmáltíðarsakramentinu fyrir lesti, er ekki gjörlegt fyrir presta, án þess þeir fyrirfram hafi ráðfært sig um það við prófast, eða biskup; svo það, sem prestar nú hafa að beita, eru guðlegar umvandanir, fyrst í einrúmi, og ef það ekki tjáir, þá í návist tveggja góðra manna. Þó má presturinn ekki vera afskiptalaus af því, ef framferði nokkurs í söfnuðum hans er hneykslanlegt, heldur ber honum að skýra veraldlegu valdi frá því, svo ráðin verði á því bót, ef auðið er, til að mynda ef karlmaður og kvennmaður, er ekki væri saman gipt, skyldi opinberlega sænga saman, eður lifa saman opinber-

lega á annan ótjerlegan hátt, eður ef nokkur hjón skyldi hafa hjá sjer á heimilinu þann eða þá, er annaðhvort þeirra fyrr hefir orðið brotlegt með í hórdómi.

Það er boðið í tilsk. 21. des. 1831, er lögleiddi hjer DL. 6—13—8 og opið brjef 12. júní 1827, sbr. tilsk. 24. janúar 1838, að amtmennirnir skuli, áður enn þeir skipi nokkrum að skilja fyrir hneykslanlega sambúð, útvega sjer skýrslu sóknarprestsins um sambúðina. — Þegar einhverr á barn í hórdómi eður lausaleik, eiga prestarnir undir eins að skýra sýslumanni frá því, og tilgreina, hvort þetta sje hins seka fyrsta hórbrot eður lausaleiksbrot, eður hvort hann optar hafi gjört sig sekan í hórdóms- eður lausaleiksbrotum, og þá, með hvað mörgum, og eins frá því, ef brotið er saknæmt af öðrum ástæðum.

## 30. gr.

### Um umsjón presta yfir kirkjunum í prestaköllum þeirra.

Í þessu tilliti er mikill munur á, hvort kirkjan er ljenskirkja eða bændakirkja, því, að því er hinar fyrnefndu snertir, þá hafa prestarnir að ljeni góðs þeirra, en eiga að annast viðhald þeirra, og standa árlega reikning af tekjum þeirra og útgjöldum, sem síðar skal getið; hinar síðar nefndu annast þar á móti eigendur þeirra sjálfir, og hefir presturinn engin afskipti af þeim, nje eignum þeirra, nema hvað hann þó á að gæta að reikningum þeim, er eigend-

urnir árlega gjöra fyrir tekjum þeirra og útgjöldum, og rita svo á þá, hvort nokkuð sje ranghermt í þeim eður ekki, og þyki þeim svo, skýra frá því, reglugjörð frá 17. júlí 1782 16. gr. og kansellíbrjef 20. októb. 1798.

## 31. gr.

### Um umsjón presta með fátækum.

Fyrst fram eptir öldunum í kristninni var umönnun fyrir hinum fátæku falin á hendur forstöðumönnum safnaðanna, og eptir það að þjóðirnar fóru að álíta það skyldu stjórnandanna, að sjá um hina nauðstöddu, notuðu menn einkum liðsinni klerkanna til þessa. Lög þau, sem nú gilda hjer á landi um fátækrastjórn og fátækra málefni, er einkum reglugjörðin frá 8. janúar 1834; þar er sagt, í 2. gr., að hverr hreppstjóri eigi að stjórna fátækramálefnum í sinum hrepp, þó með aðstoð sóknarprestsins, þannig að sóknarpresturinn ekki að eins ráðleggi honum, eptir því sem hann bezt veit, þegar hreppstjórinn leiti ráða hans í fátækramálefnum, heldur einnig að hann leitist við, að leiðrjetta það, sem hann finnur rangt eður miðurfara í stjórn hreppstjórans, með því að leiða honum það með hógværð fyrir sjónir, eður, tjái það ekki, þá með því að klaga það fyrir yfirmönnum hans. Í Reykjavík þar á móti er dómkirkjupresturinn fyrstur í fátækranefndinni, og vegur þar því atkvæði hans í fátækramálefnum eins mikið og hverra hinna annarra, sem í nefndinni eru, reglug. 27. nóv. 1846, 1. gr.; og eptir reglugjörð 29. ágúst

1862, 15. gr. hefir sóknarpresturinn á Akureyri sæti og atkvæði á fundum bæjarfulltrúanna í öllum þeim málum, er snerta þurfamenn og uppeldi og uppfræðingu barna. Eptir þessu hafa sóknarprestarnir því fyrir utan Reykjavík og Akureyri engin eiginleg ráð yfir fátækra málefnum *yfir höfuð*, þó er frá því gjörð sú undantekning, að þegar tveir hreppstjórar eru í einhverjum hreppi, og þeir ekki eru á eitt sáttir um eitthvað, þá á sóknarpresturinn að taka þátt í því, að ákveða, hvað af skuli ráða, svo hann hefir þar fullkominn atkvæðisrjett, og það verður ákvarðað, sem sá hreppstjórinn vill, sem hefir sóknarprestinn í fylgd með sjer.

Það sýnist og svo, sem presturinn eigi að hafa eins mikil afskipti af því, sem hreppstjórinn, að ráða bót á, að menn ekki af leti nje svalli verði hreppunum að byrði, 5. gr.

Auk þessa ræður presturinn, eptir 9. gr., því, hvar setja skuli niður munaðarlaus börn í hreppnum, og þau, sem af einhverri ástæðu verður að taka burt frá þeim, sem að þeim standa; og verður hreppstjórinn í því efni að fara eptir ákvörðun prestsins, nema hann fái henni breytt af sýslumanninum.

Loksins er prestinum boðið jafnt hreppstjóranum í 4. gr., að leitast við að fá menn til að annast svo frændur sína, þó eigi sje lögómagar þeirra, ef þeir eru þess færir, að þeir eigi falli vandalausum til byrði.

Þó nú sóknarprestarnir þannig engin veruleg ráð hafi *yfir höfuð að tala* í fátækra málefnum, þá

eru þó afskipti þau, er þeir eiga að hafa af þeim, mikilsverð. það er engan veginn nóg, eptir hinu fyrsagða, að presturinn leiði allt þegjandi fram hjá sjer, og að eins gefi hreppstjóranum ráð sín, þegar hreppstjórinn leitar ráða hans, heldur á hann sjálfur að vaka yfir því, að allt fari fram sem bezt, og leitast við að ráða bót á öllu því í hreppstjórninni, sem hann sjer að miður fer, á allan lögboðinn hátt, og samkvæmt þessu er og prestunum boðið. í 15. gr., að rita á fátækra reikninga hreppstjóranna, áður enn þeir verða sendir sýslumanninum, vitnisburð sinn um það, hvort þeir sje samhljóða hreppsbókinni, og gjöra athugasemdir sínar við þá, skyldi nokkuð vera út á þá að setja.

Í brjefi sínu 30. júlí 1836 hefir *kansellíið* álitið, að prestarnir ætti að veita hreppstjórunum einkum liðsinni sitt í því, að skipta tíundunum, jafna niður aukaútsvarinu, setja niður ómagana, rita í sveitarbókina, semja sveitarreikninginn, og rita annað fyrir þá í hreppssökum, ef þeir viðþurfa; og með kansellíbrjefi 25. nóv. 1797 er sóknarprestunum skipað, að styrkja hreppstjórana í, að semja og hreinskrifa búnaðartöflurnar.

þegar eitthvert prestakall liggur í fleirum enn einum hreppi, verður presturinn ekki að eins að hafa afskipti af fátækramálefnunum í þeim hreppi, sem hann sjálfur býr í, heldur og í hinum hreppunum, að því leyti sem þann hluta prestakallsins snertir, sem þar liggur.

Taki hreppur yfir fleiri enn eitt prestakall, hlýt-

ur hverr prestur að hafa hin lögboðnu afskipti af hreppstjórninni í þeim hluta hreppsins, er liggur í prestakalli hans, og því allir rita hina lögboðnu vitnisburði sína á hreppsreikningana. Í þeim málefnum, sem eru sameiginleg fyrir allan hreppinn, og prestarnir hafa að ráða í, til að mynda, að koma fyrir barnsómögum á hinum hentugustu stöðum, virðist, ef þeir eigi geta orðið á eitt sáttir, nje útkljáð málið með atkvæðum sínum, sem vilji þess prestsins verði að ráða, er hreppstjórinn fylgir; en sje hreppstjórarnir tveir, og sinn fylgi hvorum presti, verður að bera málið undir sýslumanns úrskurð.

Um afskipti presta yfir spítölunum hjer á landi er nú ekki lengur að tala, þar eð spítalarnir eru lagðir niður.

## 32. gr.

### Um ýms önnur embættisstörf presta.

Auk áðurtaldra starfa hefir löggjafinn falið prestunum á hendur ýms önnur störf; þannig:

1. er hverr prestur, eptir kgs.brjefi 24. marz 1830 *kúabólusetjari* í sínum sóknum, og er sá starfi lagður á prestana sem embættisskylda þeirra; og eptir kgsbrjefi 18. júlí 1821 má enginn verða prestur hjer á landi, nema hann sanni, að hann beri nákvæm kennsli á allt það, er bólusetningu áhrærir; til þess að kenna prestunum og prestaefnunum þetta, var með kgsbrjefi þessu síðarnefnda landlækninum boðið að vera nærri, er synodus væri haldinn, eður prestar vígðir, og eins að koma í skólann árlega,

til að kenna það þeim, er útskrifast ætti. Nú er samt landlæknirinn hættur þessu síðastnefnda, síðan prestaskólinn kom, en stiptsyfirvöldin ætti þá að sjá um, að hann kenndi þeim, er útskrifast af prestaskólanum að setja kúabólu, þar eð þau eptir hinu fyrtjeða engum mega veita prestsembætti, nema sem þau eru viss um, að hafi lært það.

Í mjög víðlendum prestaköllum, og þar sem fleiri enn ein sókn er, má presturinn taka einn eður tvo aukabólusetjara sjer til aðstoðar. Þó verður amtmaðurinn að samþykkja það, hverja presturinn kýs til þess; því enginn má takast til þess, nema sá, sem til þess er bær.

Hverr prestur hefir bólusetningarbók, er hann fær frá amtmanninum; í hana á hann að rita, hvenær hann setji hverjum kúabólu, og eins, hvenær hann gefi hverjum vitnisburð um það, að honum hafi bólan verið sett. Aðstoðarbólusetjararnir eiga að hafa sjerskildar skrár yfir þá, sem þeir setja bóluna, og senda þær prestinum, svo þær fylgi bólusetningarbók prestsins, sem fylgiskjal; og þegar presturinn gefur einhverjum bóluvitnisburð, er aðstoðarbólusetjari hans hefir sett bóluna, á hann að geta þess í vitnisburðinum, að vitnisburðurinn sje gefinn eptir skýrslu aðstoðarbólusetjarans; en gefi aðstoðarbólusetjarinn vitnisburðinn sjálfur, sem hann má gjöra, þá á presturinn að rita nafn sitt undir hann líka, til sönnunar því, að hann sje rjettur. Presturinn má ákveða, hvar og hve nær þeir skuli mæta, sem hann ætlar að setja kúabóluna; en til

þessa á hann þó að velja þann stað og tíma, sem sóknarfólkinu er hagkvæmastur.

Með því það þannig er sameinað prestsembættinu hjer á landi, að vera kúabólusetjari, mega ekki amtmennirnir sekta prestana fyrir forsómun þeirra í þessu, en þeim er gefið vald til, að mega setja annan kúabólusetjara í stað prestsins, þegar læknirinn álítur það nauðsynlegt.

2. er það boðið í kgsbrjefi 11. apríl 1781, að þegar einhverr flytur sig úr einu prestakalli í annað, þá á sá, sem tekur hann, hið fyrsta að láta prestinn vita af því, og á þá presturinn að skoða ferðabrjef þess, sem kominn er, og önnur skilríki hans, og grennslast eptir, hvernig á honum standi; álíti hann þá eitthvað ískyggilegt um hann, á hann að skýra sýslumanninum frá því og hreppstjóranum; þetta gildir ekki að eins vinnuhjú, heldur og þá, sem flytja sig búferlum, og eins þá, er um tíma ætla að dvelja í sóknum prestsins, þó þeir ekki hafi tekið sjer þar fast heimili; prestarnir eiga með árvekni að rita hjá sjer nöfn allra, sem í sóknum þeirra eru, og hvar hverr þeirra sje fæddur, svo þeir ætíð geti gefið skýrslu um það, ef krafizt verður.

Þegar einhverr flytur burt úr sóknum prestsins, á hann að gefa honum prestsseðil, er sjeð verði af, að hann flytji burt, og hvenær hann hafi verið til altaris hjá honum; sjá tilsk. 27. maí 1746; en þegar einhverr flytur í aðra sýslu, má þó presturinn undir sektir ekki gefa prestsseðilinn lausan, heldur

rita hann á vegabrjef það, sem hinn fær hjá sýslumanninum; sjá kgsbrjef 11. apríl 1781.

3. Eiga prestarnir að gefa árlega skýrslur til verðlagsskrárinnar, sem síðar skal getið.

4. Hjálpa hreppstjórunum í, að búa til landbúnaðartöflurnar, sem fyrr er getið.

5. Er annarr sáttasemjarinn í hverju sáttaumdæmi sem optast látinn vera einhverr prestur; sbr. *kansellíbrjef* 25. ágúst 1798; eins og þeir eru skyldaðir til, að ljá sáttanefndinni borgunarlaust húsrúm, til að eiga þar samkomur sínar; sjá *kansellíbrjef* 21. maí 1803, ef á þarf að halda.

## 33. gr.

Um árlegar skýrslur presta.

Eptir ýmsum boðum eiga prestarnir árlega að senda hverr sínum prófasti eptirtaldar skýrslur, undir eins eptir nýár:

1. Skýrslu um gipta, fædda og dauða á árinu; prófastarnir senda prestunum árlega eyðiblöð til þessara skýrslna, er prestarnir eiga að rita í, og senda þeim svo aptur.

2. Skýrslu um fermd börn, lagaða á ákveðinn hátt.

3. Skýrslu um manntalið í söknunum við enda ársins, eins lagaða á ákveðinn hátt.

4. Skýrslu um mállausa og heyrnarlausa, er eins á að vera löguð á ákveðinn hátt.

5. Skýrslu um, hverjir andlegrar stjettar menn sje í söknum hans.

6. Skýrslu um andvana fædd börn, og þau, er deyja innan 24 tíma eptir fæðinguna. Um þetta eiga og yfirsetukonurnar, að gefa prestinum skýrslur árlega, og þær lætur hann fylgja með skýrslu sinni.

7. Skýrslu um hórdómsbrot og legorðsbrot, lagaða á ákveðinn hátt.

8. Skýrslu til verðlagsskrárinnar, byggða á gangverði því, er tíðkazt hefir þar í sóknum frá miðjum októbermánuði árið áður til sömu tíðar ár það, er þá er að líða. Þessi skýrsla er gefin í enda hvers októbermánaðar.

Auk þessa á hann að senda við enda hvers árs sýslumanninum, og í Reykjavík bæjarfógetanum

9. Skýrslu yfir alla þá, er hann hefir grafið á árinu, lagaða á ákveðinn hátt; og lækninum

10. skýrslu yfir þá, er kúabólusettir hafa verið á árinu í sóknum hans.

Skýrslur þessar eru flestar vanar að vera í tvennu lagi. Þegar ekkert það hefir borið við á árinu, er skýrslan á að hljóða um, þarf presturinn eigi að gefa nema vottorð um það, að ekkert þvílíkt hafi á því ári viðborið í sóknum sínum.

Auk þessa er það skylda presta að gefa biskupi og prófasti, svo fljótt sem þeir geta, álit sitt um þau málefni, er snerta embætti þeirra, þegar þeir beiðast þess.

Umburðarbrjef prófasta mega prestar ekki láta liggja lengur hjá sjer, enn nauðsynlegt er, og eiga þeir, sem aðrir, að bíða sektir, ef þeir eigi sjá um, að þau berist með hraða og skilvíslega. Utan á

þeim brjefum á því að standa, að þau »berist með hraða«, og á hverr prestur að rita á brjefið sjálft, hvenær hann fjekk það, og með hverjum, og eins, hvenær hann sendi það burtu og með hverjum, kgs.-brjefið 26. júní 1782.

## 34. gr.

### Um vottorð, er prestar eiga að gefa.

1. Eiga prestarnir viðstöðulaust að gefa þau vottorð í sakamálum, er á þarf að halda og dómendurnir biðja þá um; þetta leiðir af sjálfu sjer; því slík vottorð eru opt með öllu nauðsynleg í þeim málum, til þess rjettvísir og lögmætir dómar geti gengið í þeim, og líka eiga þessi mál að rekast með sem mestum hraða unnt er; þessu er og samkvæmt boðið í tilsk. 3. júní 1796; 38. gr.

2. Eiga þeir, er þeir eru beðnir þess, að vitna um fátækt og ástand þeirra, er beiðast einhvers styrks af hinu opinbera, og ef styrkurinn er árlegur, verður beiðandinn optast að fá vitnisburð prestsins um það, að hann sje á lífi (tilsk. 21. desember 1831). Þó er prestum bannað, að gefa nokkrum betlibrjef (tilsk. 27. maí 1746).

3. Þegar einhverr, sem eldri er enn 22 vetra, sækir um, að mega vera með öllu fjár síns ráðandi, verður hann að fá vitnisburð prestsins um það, hvort hann sje svo ráðsettur, að hann muni hafa sannarleg not af slíku leyfi (tilsk. 21. des. 1831), og þegar ekkjur sækja um leyfi, að mega sitja í óskiptu búi með börnum sínum, og ekkjumenn eður ekkjur,

til að mega sitja í óskiptu búi með stjúpbörnum sínum, verður eins að hafa álit prestsins um það, hvort það sje gott fyrir uppfóstur og uppeldi barnanna (tilsk. 25. sept. 1850).

4. Um vottorð þau, er prestar eiga að gefa í hjónabands- og hjónaskilnaðar-sökum, er fyrr talað.

5. Hverjum, er þeir ferma, eiga þeir að gefa fermingarseðil (kgs.brjef 27. maí 1746), og þeim, er fer burt úr söknum þeirra, prestseðil (kgs.brjef 11. apríl 1781). Þeim, er þeir setja bólu og hún kemur út á, bóluseðil (kgs.brjef 24. marz 1830).

## 35. gr.

Um embættisbækur presta.

1. Við hvert prestakall á að vera ein kirkjubók fyrir allt prestakallið, er henni skipt í 7 bálka, og hefir hverr bálkur sína yfirskript, er sýnir, hvað rita á í hann, og gjörir presturinn það; er hún keypt fyrir kirkjunnar reikning, og á að fullgildast af prófastinum. Auk þess á í hverri sókn í prestakallinu að vera önnur samhljóða bók til fyrir söknina, er keypt er fyrir reikning kirkjunnar þar, og á hún að fullgildast af prestinum; í hana á meðhjálparinn að rita undir umsjón prestsins. Presturinn og meðhjálpararnir eiga tvisvar á ári að bera bækurnar saman, sumsje í vikunni fyrir jólaföstuna og undir eins eptir páskana, en aldrei má bók prestsins og meðhjálparanna vera eina nótt á sama bæ. Prófastarnir eiga á yfirferðum sínum að gæta þess, að bækurnar sje bornar saman, og skýra biskupinum

frá því, sjá kgs.brjef 11. des. 1812. — Altarisgöngubækur þær, er konungsbrjef þetta talar um, hafa aldrei verið hjer tíðkaðar, nje komizt hjer á.

Í þíngabrauðum verður kirkjubókin fyrir prestakallið að kostast af öllum kirkjunum þar, jafnt af þeim öllum.

2. Hver prestur á að hafa bók, er hann á að rita í öll þau boð konungs og biskups, er prófasturinn sendir honum, og það sem gjörist á synodusi, eins og síðar verður getið.

3. Er það víða venja og heyrir til góðrar reglu, að prestar hafi brjefabækur, er þeir riti á brjef þau og skýrslur, er þeir rita og snerta embætti þeirra.

## 36. gr.

### Um kapellána.

Kapellána nefna menn nú þá presta, sem eru aðstoðarmenn sóknarprestanna í að gjöra embættisstörf þeirra.

Hjá oss eru engin föst kapellánsembætti, heldur fá sóknarprestarnir leyfi til, þegar þeir, vegna lasleika eður elliburða, ekki geta með öllu sjálfir gegnt embætti sínu, að taka sjer aðstoðarprest eður kapellán.

Meðan sóknarpresturinn er ungur og heilsugóður, má hann engan aðstoðarprest taka; sjá *kirkju-ordínantsíu* Kristjáns 4. Ef hann og er svo hrörlegur og farinn, að hann sjálfur ekki geti sjeð um embætti sitt, kemst hann ekki af með að taka sjer aðstoðarprest, heldur á hann þá að sækja um

lausn frá embætti sínu. Enginn sóknarprestur má taka sjer kapellán upp á sitt eigið eindæmi, heldur verður hann að fá hann samþykktan eður sjer settan af biskupinum; ef hann því vill fá einhvern vissan mann sjer fyrir kapellán, verður hann fyrst að koma sjer saman um það við hann, rita svo biskupinum, og biðja um hann sjer settan sem kapellán. Í bónarbrjefinu á hann að tiltaka þau kjör, er hann vill gefa kapelláninum, og senda svo bónarbrjefið prófasti, er á að senda biskupi það, og segja álit sitt um það bæði hvort presturinn þurfi kapelláns, og hvort hann álíti kostina lífvænlega, og eins, ef hann hefir eitthvað annað út á það að setja. Finni biskupinn, að eitthvað verulegt sje á móti því, að presturinn fái þessa sína bón uppfyllta, á hann að neita honum um, að setja honum kapelláninn, en annars samþykkja köllunina, og síðan vígja þann, sem kallaður er til kapelláns, ef hann ekki fyrr er prestvígður; ferðina til vígslunnar á sóknarpresturinn að borga. Að vísu bannar *kirkjuordínantsían* prestum að kalla syni sína eða tengdasyni sjer til kapellána, vegna þess sóknarmenn muni þá sem optast kjósa þá sjer fyrir presta á eptir, þegar sóknarprestsins missi við; en slíkt bann er með öllu fallið nú burt við það, að sóknarmenn kjósa nú ekki lengur sjálfir presta sína.

Ef sóknarpresturinn þar á móti ekki hirðir um að fá neinn öðrum fremur fyrir kapellán, en þarf þó kapelláns með, má hann biðja biskupinn um, að setja sjer einhvern, og á þá biskupinn að gjöra það,

og á hann þá að taka til þess öðrum fremur brauðlausa kapellána þar í grennd.

Sóknarpresturinn má ekki reka kapelláninn burt frá sjer aptur, eður segja honum upp, meðan hann vill vera kyrr, nema hann hafi eitthvað sjerlegt út á breytni hans að setja, og þó má hann samt ekki gjöra það upp á eigin býti, heldur verður hann fyrst að fá dóm fyrir því, að mega verða lauss við kapelláninn; eins má kapelláninn ekki án gildra ástæðna yfirgefa embætti sitt, eður án þess að láta biskupinn og prófastinn vita af því; gjöri hann það samt, spillir hann mjög rjetti sínum, til að geta fengið aptur kapellánsþjónustu eður prestsembætti, jafnvel þó hann að öðru leyti hafi góða vitnisburði.

Þó það sje hið venjulegasta, að enginn sóknarprestur fái aðstoðarprest, nema hann sjálfur óski þess, þá má biskupinn, eður rjettara sagt stiptsyfirvöldin í sameiningu, þó setja honum aðstoðarprest móti vilja hans, ef það er sannað, að hann vanræki embættið, eður geti ekki gegnt því fyllilega, og biskupinn hafi áður áminnt hann um, að þjóna embættinu, sem vera ber, eður, ef hann ekki geti það, þá að taka sjer kapellán, og hann hvorugt samt hefir gjört. Þegar biskupinn þannig sjálfur setur kapellán einhverjum presti, verður hann sjálfur að tiltaka þau kjör, sem kapelláninn á að hafa.

Sóknarpresturinn má ekki fara með kapellán sinn sem vinnudreng, heldur virða hann sem guðsþjón og samþjón sinn í guðs orði; eins á kapelláninn að haga sjer við sóknarprestinn, sem við föður,

sinn og húsbónda, vera honum auðsveipur og hlýðinn, trúr, hollur og árvakur, og engan mótþróa auðsýna honum, konu hans nje hjúum. Illt samlyndi millum sóknarprestsins og kapellánsins getur bakað þeim ofanígjöf og sektir. — Auk launa þeirra, er kapelláninn fær hjá prestinum, nýtur hann sem aðrir prestar ýmsra hlunninda af hinu opinbera, og er undanþeginn ýmsum útgjöldum í almennar þarfir, sem síðar skal sagt.

þegar einhverr hefir verið kapellán um hríð, er sanngjarnt, að hann sje tekinn fram yfir aðra jafngamla *kandídata* til prestsembættis, er ekki þeim mun meir taka honum fram að lærdómi; eins virðist og ordínantsían að ætlast til, að honum skuli veitast hið fyrsta prestsembætti eður önnur kapellánsþjónusta, þegar hann, án þess sjálfur að vera skuld í því, missir kapellánsþjónustu þá, sem hann hefir, eður verður brauðlauss.

## 37. gr.
### Um prófastana.

Næst yfir prestana eru í andlegum málefnum settir *prófastarnir*. Hverr prófastur hefir sína sýslu, sem hann er prófastur í, og nefnist hún prófastsdæmi. það er ekki einungis yfir prestunum í prófastdæminu, sem prófasturinn hefir umsjón, heldur hefir hann og umsjón yfir öllum þeim kirkjum, sem þar eru, og yfir höfuð yfir öllum andlegum málefnum í prófastsdæmi sínu; prófastarnir eru þannig andlegir valdsmenn, er þó allir aptur standa næst

undir biskupinum, og að nokkru leyti líka undir stiptamtmanninum, sjá erindisbrjef biskupanna 1. júlí 1746, 23. gr.

þegar prófastlaust verður í einhverju prófastsdæmi, á biskupinn að setja þar einhvern til að gegna prófaststsörfum, uns reglulegur prófastur er kosinn. Eptir *kirkjuordinantsíu* Kristjáns 4. áttu sóknarprestarnir, ásamt biskupinum, að kjósa sjer nýjan prófast; en þessu er nú þannig breytt með erindisbrjefi biskupanna 1. júlí 1746, að biskupinn er ekki bundinn að útnefna þann til prófasts, er prestarnir kjósa með flestum atkvæðum; en með því hann þó alvarlega þar er áminntur um, að kjósa til prófasts engan vegna frændsemi eða vinsemdar, ef hann ekki vilji sæta lagaákæru fyrir það, verður hann að hafa gildar ástæður fyrir sjer í hvert skipti, ef hann kýs annan, enn prestarnir hafa kosið. Sá, sem er kosinn til prófasts, á að vera einhverr af sóknarprestunum í prófastsdæminu, sem bezt er fær til þess, og heimtar kirkjuordinantsían, að hann skuli vera heima í landsins lögum; má hann ekki skorast undan, að takast þenna starfa á hendur.

Prófastanna aðalskylda er, að vera biskupsins önnur hönd í því, að vaka yfir, að kristnin geti fengið sem beztan framgang í prófastsdæmum þeirra, og því reyna til að aptra öllu því, er geti orðið henni til hnekkis; þeir eiga því að skýra biskupi eður stiptsyfirvöldunum frá öllu því, er miður fer í prófastsdæmum þeirra og áhrærir andleg málefni, ef þeir sjálfir hvorki geta ráðið nje mega ráða bót á því.

Af fyrtjeðum ástæðum er þeim einkum boðið:

1. að þeir á ári hverju skuli *vísítera* prófastsdæmi sitt; sjá tilsk. 29. maí 1744, 15. gr.; þó þurfa þeir ekki að *vísítera* það árið, sem biskupinn *vísíterar* þar, eins og líka prófastarnir í sumum hinum víðlendari prófastsdæmum mega vera 2 ár um, að *vísítera* prófastsdæmið (erindisbr. bisk. 21. gr.).

Á þessum yfirreiðum sínum eiga þeir:

*a*, nákvæmlega að grennslast eptir ástandi prestanna, safnaðanna og ungdómsins (tilsk. 29. maí 1744); þeir eiga svo tímanlega fyrirfram, að láta hvern prest vita, hvenær þeir ætli að *vísítera* sóknir hans, að hann geti sunnudaginn áður, enn prófasturinn kemur, látið söfnuðinn vita það; á þá sóknarfólkið fjölmennt að koma til kirkjunnar, einkum öll þau börn, sem komin eru á það rek, að þau eigi að vera farin að læra kristindóminn, og liggur helgidagsbrot við því, ef nokkurr orsakalaust þá ekki kemur til kirkju, (erindisbr. bisk. 5, 13. gr., og tilsk. 28. febr. 1691, 1. gr.).

Presturinn á að prjedika, eins þó það sje á rúmhelgum degi, sem prófasturinn *vísíterar*; þetta flýtur beinlínis af því, að prófasturinn á að grennslast eptir, hvernig presturinn gegni embætti sínu svo vel í þessu sem öðru, eins og þetta og er álitið sem sjálfsagt í *kansellíbrjefi* 24. maí og 11. október 1800 fyrir Danmörku.

Prófastarnir eiga að grennslast eptir því hjá söfnuðinum, hvort presturinn fari í húsvitjun, og hvernig hann í hverri grein stundi embætti sitt, og

eins hjá prestinum, hvernig sóknarfólkið hagi sjer, bæði yfir höfuð og eins gegn prestinum; sjálfur á hann að spyrja ungdóminn, svo prófastur sjái, hvernig hann sje uppfræddur, tilsk. 29. maí 1744, 15. gr., (erindisbr. bisk. 8, 14. gr. og víðar).

*b,* prófasturinn skoðar kirkjurnar venjulega um leið, lýsir þeim og getur um galla þá, sem á þeim eru, og segir, að bæta þá, ef honum sýnist þess þörf, kgs.brjef 5. júlí 1781 og kansellíbrjef 5. júní 1784.

*c,* á hann að rannsaka nákvæmlega kirkjureikninginn fyrir hið umliðna ár, hvort hann sje rjettur, og sje hann það, ritar hann á hann, að hann sje honum samþykkur (tilsk. 17. júlí 1782, 16. gr.); ef prófasturinn álítur eitthvað rangt í reikningnum, og sem kirkjuverjandinn ekki vill leiðrjetta, verður hann að setja það undir biskups úrskurð.

*d,* á hann að skoða embættisbækur prestsins, hvort regla sje höfð á þeim, og farið sje vel með þær (erindisbrjef bisk., 31. gr.).

Prófastarnir eiga að hafa *vísítazíubók,* sem þeir rita í allt hið merkasta af því, sem gjörist á yfirreiðum þeirra; líka ber þeim að gefa biskupinum árlega skýrslu um það, bæði um ástand safnaðanna, embættisfærslu prestanna, og ástand og efnahag kirknanna.

2. Af skýrslum þeim, sem prestarnir árlega eiga að senda prófôstunum og nefndar eru í 33. gr. 1—6, eiga prófastarnir að búa til aðalskýrslur fyrir prófastsdæmið, er þeir senda biskupinum; eins að-

alskýrslu af skýrslunum undir 7. tölul., er þeir senda amtmanninum; loks af skýrslunum undir 8. tölul., er þeir senda biskupinum eður þeim, sem hann hefir falið á hendur að semja verðlagsskrána með amtmanninum sinna vegna.

3. Þegar einhverr prestur deyr í prófastsdæminu, ber prófastinum undir eins að skýra biskupinum frá því, og sjá um, að brauðinu verði meðan tilhlýðilega þjónað, þangað til það aptur verður veitt. Um þetta skal nákvæmar seinna verða talað, bæði hvernig fara eigi um embættisþjónustuna, og um umsjón staðar og kirkju, o. fl., þegar brauð verða laus.

4. Þegar einhverr kemur sem nýr prestur til einhvers brauðs, á prófasturinn að setja hann inn. Það gjörir hann á þann hátt, að í fyrsta sinni, sem nýi presturinn á að messa þar, les prófasturinn upp veitingarbrjef hans, stígur sjálfur í stólinn, og felur prestinn söfnuðinum og söfnuðinn prestinum á hendur til beztu umönnunar, K. O. Kr. 4, og erindisbr. bsk. 44. gr.

5. Prófasturinn á að hafa nákvæmt eptirlit með ljensjörðum presta og með prestasetrunum, að þeim sje haldið vel við, og sje það ekki gjört, þá skýra í tíma stiptsyfirvöldunum frá því (tilsk. 24. júlí 1789); og ber honum því að svara til skaða þess, sem brauðið kann að líða við hirðuleysi hans í þessu.

Það virðist engan veginn sem löggjöfinni sje fullnægt við það, þó prófasturinn hafi eptirlit á því, að kirkjan ekki falli, eður prestssetrið að bygging-

um, heldur virðist hann og eiga að hafa eptirlit á því, að tún, engjar og skógar og önnur hlunnindi prestssetursins sje ekki niðurnídd eða farist, og jafnvel eptir því, að kirkjujarðir prestanna ekki sje niðurníddar; þó verður skylda prófastsins að gæta að þeim, og ábyrgð hans á þeim langtum minni, þar eð honum auk annars ekki er gjört að skyldu, að koma svo opt á þær, sem prestssetrin, er hann árlega á að koma á, og gefst þar því kostur á árlega að líta eptir bæði kirkju og stað.

6. Prófasturinn á að taka út prestssetrin og *ljenskirkjurnar*, og eins jarðir þær, er þær eiga, og annað, er brauðinu fylgir, ætíð við prestaskipti, og eins endrarnær, hvenær sem þörf gjörist og biskupinn býður; prófasturinn útnefnir tvo úttektarmenn, er meta álagið og stýrir úttektargjörðinni, en sjálfur tekur hann engan þátt í því, að meta gallana eður ákveða álagið. Þær reglur, er gilda fyrir úttektum yfir höfuð, gilda og um þessar úttektir; prófasturinn hefir sjerskilda bók, er hann ritar úttektargjörðina í, og í sömu bókina ritar hann líka hinar árlegu skoðunargjörðir sínar yfir kirkjurnar; hann á að sjá um það, að álaginu sje undir eins varið til að bæta úr göllunum (tilsk. 24. júlí 1789). Ef nokkurr er óánægður yfir framgangsmáta prófastsins eður úrskurðum hans, verður hann að áfrýja gjörðina fyrir synódus; en sje hann óánægður með matið, getur hann beðið sýslumanninn um, að gjört sje yfirmat, og á þá þar við að standa.

7. Um skyldur prófastsins áhrærandi stúdenta

þá, er svara eiga árlega spurningum frá biskupinum, er fyrr talað.

8. Af stöðu prófastsins leiðir, að um þau málefni, sem honum eru send frá biskupi eður stiptsyfirvöldunum, verður hann að segja álit sitt, og koma svo brjefunum áleiðis; eins ber prófasti og að gefa biskupi eður stiptsyfirvöldum skýrslu eða álit sitt um andleg málefni, þegar þeir biðja hann þess.

Annars er hverr prófastur vanur, að fá erindisbrjef frá biskupinum, um leið og biskup útnefnir hann til prófasts, og þar í eru nákvæmar tilgreindar skyldur hans.

## 38. gr.

### Um biskupinn.

Biskupinn er hinn æðsti andlegi embættismaður á landinu; undir honum standa allir klerkar landsins, allar kirkjur þess og öll andleg málefni; hann er þannig andlegur yfirvaldsmaður, en er þó aptur látinn standa undir ráðherra kirkjumálefnanna í Danmörku.

Biskuparnir eru útnefndir af konungi; eru síðan vígðir biskupsvígslu, nú af Sjálandsbiskupi, og hafi þeir ekki fyrr verið prestvígðir, eru þeir áður vígðir prestsvígslu.

Af stöðu biskupsins leiðir, að hann á að sjá um, að prestarnir uppfylli skyldur sínar bæði að því er embætti þeirra snertir og eins lifnað, og að kirkjulögunum sje hlýtt, og ásamt með stiptamtmanninum að vaka yfir rjettindum prestanna og kirknanna.

Hinar helztu skyldur biskupanna hjer á landi og rjettindi eru taldar upp í erindisbrjefi þeirra 1. júlí 1746; þar er meðal annars sagt:

1. Í 2. gr., að biskuparnir megi sjálfir prjedika og úthluta sakramentunum, hvar og hvenær þeir eru beðnir þess, þó án þess að hlutaðeigandi prestar missi nokkuð í við það.

2. Að þeir eigi að sjá um, að prestarnir prjediki ómengað guðsorð; þeir geta því á yfirreiðum sínum látið þá prjedika, og jafnvel yfirheyrt þá, 3. gr.

3. Áttu biskuparnir á ári hverju að fara í *vísítazíu*, og vera búnir að *vísítera* allt landið á vissum áratíma, 5. og 11. gr. Um *vísítazíur* þeirra gildir hjer um bil hið sama, sem um *vísítazíur* prófastanna 6—10 og 13—15. gr. Ef biskup þá álítur, að bæta þurfi eitthvað eður betra, á svo fljótt sem verður að gjöra það; þeir er því óhlýðnast, sektast fyrir óhlýðnina, 18. gr.

4. Setur biskupinn prófastana, sem fyrr er getið, 22. gr.

5. Er honum í 38. gr. boðið, að láta stúdenta árlega svara nokkrum spurningum í guðfræði, og er áður talað um það.

6. Þá, sem verða prestar, á hann að vígja, og reyna þá áður í guðfræði, 45. gr.

7. Verði biskupinn varr við á yfirreiðum sínum, að nokkurr prestur sje svo fáfróður, óhæfur, eður lifi svo hneykslanlegu lífi, að söfnuðurinn hafi hans ekki not, má hann undir eins víkja honum frá embætti, og láta svo höfða mál gegn honum, til

þess hann algjörlega verði dæmdur frá því, 10. gr. Hið sama vald verður biskupinn að hafa, hvenær sem hann fær *sterkar líkur* fyrir því, að nokkurr prestur gjöri sig sekan í þessu, og eins láta höfða mál gegn prestum, þó brot þeirra varði þeim *ekki við embætti*.

Loks má hann og sekta prestana fyrir smáyfirsjónir þeirra, allt að 2 rd., og eiga bætur þær að falla til verðugra presta á fátækustu brauðunum, og getur hann látið taka þær lögtaki, ef þær ekki eru góðviljuglega goldnar; sjá kgs.brjef 26. júní 1782; annars á hann sjaldan að beita þessu, nema hann áður hafi aðvarað um það, en hinn ekki gegnt aðvörunum hans.

8. Hann á að sjá um, að ætíð sje nóg til af nauðsynlegum guðsorðabókum, 50. gr.

9. Öllum þeim, sem biðja um eptirrit af kirkjumáldögum, á hann að gefa þau, en þó móti borgun, 56. gr.

10. Á hann að taka árlega hjá landfógetanum brauða uppbótapeningana, úthluta þeim meðal prestanna, og gjöra fyrir því árlega grein, 60. 61. gr.

11. Hann heimtar og saman peninga þá, er lúkast eiga árlega af sumum brauðum, og úthlutar þeim meðal verðugra uppgjafapresta og prestsekkna; þessum peningum úthlutar hann fyrir *Hólastipti* með amtmanninum fyrir norðan, og fyrir *Skálholtsstipti* á *synodusi* með stiptamtmanni og prestum þeim, sem þar eru.

12. Biskupinn má stundum, er svo stendur á

leyfa undantekningu frá lagaboðunum um barnaferming; sjá kgs.br. 14. nóvember 1832, og er þar um áður talað.

13. Hann á að sjá um, að farið sje reiðilega með tekjur kirknanna.

14. Á hann að gefa ýmsar skýrslur árlega til æðstu stjórnar kirkjumálefnanna í Danmörku, sem að mestu eru dregnar saman út af skýrslum prófastanna, og líka því, er gjörist á yfirreiðum hans, og skýra henni frá öllum þeim ráðstöfunum og breytingum í kirkjunnar málefnum, er til hins betra má miða að gjörðar væri, 64. gr. og víðar.

þar að auki hefir biskupinn umsjón yfir nokkrum kristfjárjörðum og stofnunum.

þegar einhverr klerkur sækir um eitthvað til konungsins eður stjórnarráðherranna, er biskupinum sent það, til að segja álit sitt um það.

Eptir DL. 1—2—13 á biskupanna varnarþing að vera hæstirjettur í öllum þeim málum, er áhræra embættisbrot hans, opinberan syndsamlegan löst eður villulærdóm, og eptir 2—17—23 útnefnir konungurinn menn til að rannsaka málið; þessi lagaboð, er hljóða um hlunnindi, sem þar að auki virðast eðlileg, verða að gilda hjer á landi eptir tilsk. 24. janúar 1838, þó þau eigi hafi verið þinglesin hjer; sjá og hjer um *kirkjuordinantsíu* Kristjáns 4. og tilsk. 10. júní 1746 um stiptprófasta hjer á landi.

Ýms störf eru falin á hendur stiptamtmanninum og biskupinum *í sameiningu:*

1. Eiga þeir nú í sameiningu, eins og að framan

sagt hefir verið, að veita öll þau prestaköll, er konungur sjálfur ekki hefir áskilið sjer að veita; ef þeim ekki kemur saman, á að bera það undir konungsúrskurð.

2. Hafa þeir í sameining umsjón yfir kirknagóðsinu, að ekkert ólöglega gangi undan því, sjá auk annars erindisbrjef bisk. 1. júlí 1746, 16. gr.

3. Eiga þeir að vernda lögleg rjettindi og embættisvald klerkanna, og er það einkum fólgið í því, að sjá um, að þeir fái gjafsókn í þesskáttar málum.

4. Á synodus hafa þeir forsæti, sem fyrr er getið, og eru þar yfirdómendur allra andlegra málefna.

5. Þeir eru yfirumsjónarmenn prestaskólans og latínuskólans.

6: Þeir eru og forstöðumenn nokkurra annarra opinberra stofnana.

Auk þessa á biskupinn *ásamt með amtmönnunum:*

1. Að setja verðlagskrána árlega; sjálfur setur hann hana með stiptamtmanninum, en fullmaktar einhverja tvo presta til, að setja hana sinna vegna með hinum amtmönnunum, sinn í hvoru amtinu, (kgs.br. 16. júlí 1817).

2. Að hafa á hendi umsjón spítalanna. Að vísu áttu lögmennirnir fyrr, hverr í sínu lögmannsdæmi, að sjá um spítalana ásamt með biskupinum; en síðan engir lögmenn voru, hefir nú hverr amtmaður ásamt með biskupinum umsjón yfir þeim spítölum, sem í hans amti eru.

Þegar biskupslaust er, á stiptamtmaður að setja einhvern prest á meðan, til að gegna biskupsstörf-

um; hann nefnist *stiptprófastur* eða *offisialis*; störf hans eru hin sömu sem biskupanna; þó er sagt í tilsk. frá 10. júní 1746, er hljóðar um stiptprófasta hjer á landi, að þeir ekki skuli *vísítera*, nema ef biskupslaust sje lengur enn 2 ár. Ástundum hafa óvígðir menn verið gjörðir hjer að offisiölum eður stiptprófföstum, hafa þeir þá látið einhvern prest fremja fyrir sig prestavígslur.

---

Um *synodus* hefir erindisbrjef biskupanna ýmsar ákvarðanir; eptir því á hann að haldast eitt sinn á ári hverju, sem nú er í Reykjavík; þar eiga að mæta prófastar þeir og prestar, er biskupinn beðar þangað, til að sitja á synodó, á hann að kalla þá með nægum fyrirvara. Stiptamtmaðurinn og biskupinn hafa forsætið í honum báðir; hann á að setja með stuttri ræðu, er einhverr prófastur eða prestur heldur, sem biskupinn árinu áður hefir sagt það. Að því búnu á þar fyrst að lesa upp allar konunglegar tilskipanir og boð, og eins brjef frá stjórnarráðunum til biskupsins, er áhræra biskupsdæmið allt, svo allur klerkdómurinn geti fengið vitneskju um það. Biskupinn á *Hólum* átti og að láta prenta á íslenzku allar þær konunglegar tilskipanir, er báðir biskuparnir fengi.

Á synodus á biskupinn enn fremur að gefa klerkunum góð ráð; annaðhvort til að afstýra einhverri óreglu, eður þeim til upphvatningar, til að gegna embætti sínu með árvekni; þessi ráð eiga síðan að gefast hverjum prófasti skrifuð, og hann

aptur að skrifa þau og senda prestunum í sínu prófastsdæmi með umburðarbrjefum; væri ráðin þvílík, að þau og ætti að vera sem regla fyrir eptirkomendurna, átti og að prenta þau. Öll þessi konungs eður biskupsboð, er prófastarnir eiga að senda prestunum með umburðarbrjefum, á hverr prestur að rita í bók hjá sjer, sem einlægt á að fylgja prestakallinu, 24.—29. gr.

Á synodus var og venja, að ráðgast um öll merkileg málefni eður uppástungur, er áhrærðu kirkjuna, og taka ákvarðanir í því efni. Í erindisbrjefi biskupanna 20. gr. er og nefnt, að þegar einhverr prestur óski, að kirkjukúgildum hjá sjer sje fækkað, skuli hann rita stiptamtmanninum til um það, sem aptur skuli ráðfæra sig um það við klerkana á *synodus,* áður enn hann skeri úr því. *Acta synodalia* á hverr prestur að rita hjá sjer í fyrtjeða brjefabók prestakallsins.

Þetta hefir nú nokkuð breytzt með tímanum, og á *synodus* framfer nú opt lítið annað, enn að telja sundur prestsekkna- og uppgjafapresta peninga fyrir Skálholtsstipti.

Að synodus sje yfirdómur í öllum andlegum málefnum, hefir fyrr verið talað.

## 39. gr.

### Um tekjur og hlunnindi presta.

Embættislaun prestanna eru fólgin í tvennu, bæði í því, að þeir eru undanþegnir ýmsum almennum gjöldum og kvöðum, og líka í tekjum þeim,

er þeir njóta. Að því er hinar *venjulegu tekjur* þeirra snertir, þá nefna menn sumar þeirra *fastar*, en sumar *óvissar*; til föstu teknanna telja menn:

1. Preststíund.
2. Lambsfóður.
3. Dagsverk.
4. Afgjald af jörðum.
5. Gjald frá annexíubændum; en til hinna óvissu:

1. Offur.
2. Laun fyrir ýms embættisverk, er nefnast *aukatekjur*.

Auk þessa hafa margir prestar *bújarðir, er þeir ekki gjalda neitt eptir*, og njóta ýmsra *kirkjuhlunninda*; þar að auki fá prestarnir á fátækustu brauðunum úr konungssjóði nokkra peninga árlega, er nefnast *uppbótarpeningar*, og loks hafa prestar á einstöku brauðum nokkrar tekjur enn, svo sem klausturprestarnir laun af klaustrunum, spítalaprestarnir frá spítölunum, og presturinn í Vestmanneyjum manntalsfisk.

## 40. gr.

### Preststíundin.

Hin helztu lagaboð, sem hjer gilda um tíundina, er kristnirjettur Árna biskups og reglugjörð frá 17. júlí 1782, er hljóðar um ýmsar tekjur presta og kirkna.

Tíundin var lögtekin hjer á landi ár 1096, eptir uppástungu Gissurar biskups í Skálholti, og þessi

tíundarstatúta hans er enn grundvöllurinn fyrir tíundinni hjer á landi.

Í kristnarjetti Árna biskups stendur þannig: *»að sá maður sem hann á tíu hundruð álna skuld-»laust, greiði tólf álnar á hverju ári; á hann meira »fè eður minna í landi eður lausum eyri, þá gjör-»ist þar tíund af eptir fjármegni með slíkri grein, »sem hjer segir. Sá maður sem hann á tíu sex »álna aura skuldlausa, fyrir utan hversdaglegan »búning, skal greiða alin vaðmáls; en sá maður, »sem hann á tuttugu aura skuldlaust, skal greiða »tvær álnar; sá sem á fjörutíu aura, skal greiða »þrjár álnar; sá sem á 60 aura, skal 4 álnar; en »sá sem 80 aura á, skal fimm álnar; sá sem á 100, »greiði 6 álnar, og á hverjum fimm hundruðum, skal »aukast tíundin sex álnum«.* Líkt þessu stendur og í kristnarjetti þeirra þorláks og Ketils biskupa.

þegar menn nú gæta að því, að í eyri eru sex álnir, verður eptir kristnarjetti Árna biskups tíundarskyldan þannig: að sá sem á ½ hndr. skuldlaust, á á ári hverju að lúka í tíund 1 alin; sá, sem á 1 hndr., 2 álnir; sá, sem á 2 hndr., 3 álnir; sá, sem á 3 hndr., 4 álnir; sá, sem á 4 hndr., 5 álnir, og sá, sem á 5 hndr., 6 álnir; og sá, sem á 10 hndr., 12 álnir, og að tíundin úr því á að aukast 6 álnir á hverjum 5 hndr.

það eru þannig engin lög til þess, að taka tíund af minna fje enn ½ hndr., nje til þess, að taka meiri tíund af því fje, sem er yfir ½ hndr., en nær þó ekki 1 hndr., heldur enn af ½ hndr.;

ekki heldur til að taka meiri tíund af því fje, sem er yfir 1 hndr., en nær þó ekki 2 hndr., heldur enn af 1 hndr., o. s. frv.; eður með öðrum orðum: það er að vísu ljóst, að af fyrstu 5 hndr. á að lúkast tíund á fyrtjeðan hátt af hverju hundraði; en menn hafa þár fyrir enga heimild til, að taka hana af hálfu hundraði, eður neinu broti úr hundraði nema af fyrsta hálfa hundraðinu.

Líka virðist það mjög vafasamt, hvort nokkur lagaheimild er fyrir því, að taka megi meiri tíund af því fje, sem er yfir 5 hndr., en nær ekki 10 hndr. heldur enn af 5 hndr.; eður meiri tíund af því fje, sem er yfir 10 hndr., en nær ekki 15 hndr., heldur enn af 10 hndr.; eður með öðrum orðum: hvort tíundin, þegar fjeð er yfir 5 hndr., eigi nokkuð að aukast, nema við hver 5 hndr.

En þrátt fyrir þetta er *venjan* þó nú, og hún mjög gömul, að taka tíund af hverju hundraði, eins þó fjeð sje yfir 5 hndr., eins og þó það sje undir 5 hndr., og er þá tíundin víða tekin þannig, að af 6 hndr. eru teknar í tíund 8 álnir; af 7 hndr. 9 álnir; af 8 hndr. 10 álnir; af 9 hndr. 11 álnir; af 10 hndr. 12 álnir; af 11 hndr. 14 álnir; af 12 hndr. 15 álnir o. s. frv., og er þá tíundin látin vaxa á hverjum 5 hndr., sem fjeð vex, á sama hátt og á fyrstu 5 hundruðunum.

Sumir þar á móti taka upp nýja reglu, undir eins og fjeð er yfir 5 hndr., og láta tíundina aukast úr því um $1\frac{1}{5}$ alin við hvert hundrað, sem fjeð vex yfir 5 hndr.; þannig taka þeir af 6 hndr. í tíund $7\frac{1}{5}$ alin; af 7 hndr. $8\frac{2}{5}$ alin; af 8 hndr. $9\frac{3}{5}$

alin; af 9 hndr. $10^4/_5$ alin; af 10 hndr. 12 álnir; af 11 hndr. $13^1/_5$ alin; af 12 hndr. $14^2/_5$ alin o. s. frv.

Auk þessa taka sumir tíund af hverju hálfu hundraði.

Menn áttu eptir kristnarjetti ekki að gjalda tíund nema af því, sem þeir áttu *skuldlaust;* af því leiðir aptur, að menn máttu taka frá fyrir skuldum. en á hinn bóginn áttu menn án efa að telja það með, er þeir attu hjá öðrum, því þeir áttu það eins fyrir því.

Hverdagsbúningur var undanskilinn tíundargjaldi; og eins þurfti enginn að tíunda búsafleifar sínar um vor, nema hann brygði búi eður seldi úr því.

Þegar menn nú gæta að því, að aðalreglan fyrir tíundargjaldinu var sú, *að* af hverjum 600 álnum skyldi gjalda í tíund 6 álnir, og *að* menn máttu taka af fje sínu í leigu um árið 1 eyri af hverjum 10, og *að* ekki var tekin tíund af hversdagsklæðnaði, nje af búsafleifum á vor, nema þær eigi yrði eyðslufje, er auðsætt, að *tíundin hefir átt að vera $^1/_{10}$ partur af hinni hæstu lagaleigu þess fjár alls, er menn áttu og ekki þurftu að hafa sjer til fatar og matar,* eður *$^1/_{100}$ parturinn af þessum eigum manna.* Menn geta þannig að nokkru leyti sagt með sanni, að *tíundin hafi verið tekjuskattur,* og eins að hún hafi verið *efnaskattur;* en með því þó sumir kunna að hafa af nokkrum eigum sínum um árið meiri arð enn 10%, og aptur af sumum langtum minni og engan, hefir þó tíundin fremur verið efnaskattur enn tekjuskattur.

Þó nú tíundarlöggjöfin í fyrtjeðu efni sje í hinu verulega hin sama sem í fyrndinni, þá hafa þó nokkrar breytingar orðið í þessu bæði við hina seinni löggjöf og eins við venjuna. Breytingar þessar eru einkum:

1. *Fyrrum var goldin jöfn tíund af hverju hundraði, án tillits til þess, í hverju hundraðið var fólgið; en nú gelzt ekki jöfn tíund af öllum hundruðum, heldur er gjörður mikill munur á því, hvert hundraðið er.*

Það var snemma nokkuð, að menn vildu ekki gjalda eins mikla tíund af því, er engan árlegan arð gaf af sjer, sem hinu, er arð gaf eigöndunum árlega, og á alþingi var ákvarðað ár 1574, að *3 hndr. í dauðum aurum, er engan arð gæfi af sjer, skyldi vera til tíundargjörðar sem 1 hndr.*

Á hinni eldri löggjöf og þessum alþingisdómi er nú reglugjörðin 1782 byggð að mestu leyti, að því er tíunðina snertir, nema hvað hún og hefir fellt til tíundar þau hundruð, er árlegan arð gefa af sjer, ef hann eigi er fullur; en þó eigi fellt þau eins mjög og hin, er engan arð af sjer gefa.

Þannig er sú aðalregla gefin í reglugjörðinni, *að hvert 4 rdl. virði, er svo gangi í kaupum og sölum, hvort sem það er í kvikfjenaði, fiskibátum eður öðru, skuli álítast sem 1 hndr. til tíundargjörðar;* en með þessu hefir löggjafinn í rauninni ekki viljað segja annað, enn að *af hverju hundraði skuli greiðast full tíund,* því menn mega ekki gleyma því, að þegar tilskipanin kom út, gekk hvert

hundrað venjulega í kaupum og sölum 4 rdl. Fjórir ríkisdalir í kvikfjenaði voru því þá hið sama sem 1 hndr. í kvikfjenaði. Og þessu samkvæmt er sagt í reglugjörðinni, *að kýr þær, er full leiga lúkist af, skuli tíundast sem 1 hndr;* því rjettur skilningur þessara orða er auðsjáanlega sá, að hver kýr, sem er í því ástandi, að hún verði leigð út gegn fullri leigu, skuli tíundast sem 1 hndr., hvort sem eigandinn leigir hana eður ljær öðrum eður hefir hana sjálfur, og er því hið sama og Jónsbók kallar *löggilda kú;* en eptir k. b. kap. 6 og 18 á sú kýr, er hvorki skerðir verð nje leigu, að vera eigi eldri enn 8 vetra, og eigi yngri enn að öðrum vetri, og hafi borið tvo kálfa, heil og heilspenuð, og hafi keflt um veturinn eptir Pálsmessu, eigi verri enn meðalkýr, hjeraðsræk að fardögum.

En frá þessari aðalreglu sinni, að af hverju hundraði skuli lúkast full tíund, hefir löggjafinn vikið með ýmsa muni; þannig er sagt í reglugjörðinni, *að því er nautpening snertir, að 3 hndr. í nautum og geldum kvígum skuli tíundast sem 1 hndr.*, svo hvert naut og geld kvíga er þannig felld um tvo hluti verðs til tíundar, en um ganglag þeirra er talað í *Jónsbókar k.b.*, kap. 6, og er þar sagt, að *3 veturgömul naut sje við kú;* verður þá hvert þeirra nú til tíundargjörðar $13^1/_3$ al. *Tvö tvævetur naut við kú;* því til tíundargjörðar nú hvert 20 ál. *Uxi þrevetur tveir hlutir kúgildis og kýr geld með sama lagi;* hvort fyrir sig er því nú til tíundargjörðar $26^2/_3$ ál. *Uxi 4 vetra gamall geldur eður graður við kú,*

til tíundargjörðar því nú 40 ál. *Uxi 5 vetra þriðjungur annars kúgildis*, nú því til tíundargjörðar $53^1/_3$ al. *Uxi 6 vetra tveir hlutir annars kúgildis*, til tíundargjörðar þess vegna nú $66^2/_3$ al. *Uxi 7 vetra fyrir kýr tvær, og svo þó eldri sje, landgenginn*, til tíundargjörðar nú 80 ál. *Arðuruxi metfje*, því til tíundargjörðar þriðjungur af því verði, sem hann er virtur til.

Um annan nautpening talar ekki reglugjörðin, enn ávikið var, sumsje löggildar kýr og geldneyti; en bæði er í Jónsbók talað um *kýr geldmjólkar og kvígur að fyrsta kálfi* (sumsje kvígur, sem hafa átt einn kálf), og sagt, að þær sje *2 aurum verri, enn kýr*, og eins eru margar kýr ekki löggildar, sem þó hvorki eru geldmjólkar nje kvígur að fyrsta kálfi; það væri samt með öllu fráleitt að álíta, að hinum eldrum lögum væri nú svo breytt við reglugjörðina, af því kýr þessar væri ekki nefndar þar, að engin tíund ætti nú að lúkast af þeim, þar sem reglugjörðin þó segir, að tíund skuli greiðast af geldneytum og geldum kvígum; en úr því menn ekki geta álitið þetta, og reglugjörðin ekki nefnir, hvernig þær skuli tíundast, verða hin eldri lög um þær að vera enn í fullu gildi; þó er athuganda við kýr geldmjólkar og kvígur að fyrsta kálfi, að svo virðist sem þær nú ætti að tíundast 100 al., því Grágás segir, að þær sje leiguverri, enn kýr, og sama virðist Jónsbók meina, þó orð hennar sje önnur — því menn eiga hvergi að álíta án yfirgnæfandi ástæðna, að hin yngri lög hafi breytt hinum eldrum — er hún segir þær

sje tveim aurum verri enn kýr, því 2 fjórð. smjörs voru þá, eins og enn, leiga eptir kúna, en giltu þá að eins 2 aura, í stað þess að þeir gilda nú 20 al.

Og þær kýr, sem eigi eru löggildar með fullu, en þó betri enn geldmjólkar kýr og kvígur að fyrsta kálfi, verða að metast meira enn hinar síðarnefndu, en þó minna enn löggildar kýr.

*Hestar gallalausir 4 vetra og ekki eldri enn 10 vetra, eru 1 hndr.;* en *til tíundar eru nú allir hestar 4 vetra* eptir reglugjörðinni *að eins* $^1/_2$ *hndr.* Þetta hefir verið skilið svo, *að engir hestar væri nú meira til tíundar enn* $^1/_2$ *hndr., þó eldri væri enn 4 vetra,* eins og stæði í reglugjörðinni: *allir hestar 4 vetra, og eins þó eldri sje;* en af þessu leiðir beinlínis, að allir hestar eldri enn 10 vetra verða þá líka að tíundast $^1/_2$ hndr. Hestar eru þannig felldir til tíundar hjer um bil að helmingi við það, sem fyrr var, og sú regla verður án efa og að gilda um yngri hesta, að þeir verða nú til tíundar að fellast til helminga.

Um *hryssur* verða menn að álíta, að gildi hjer um bil hið sama, nema hvað þær nú eru felldar um $^5/_9$ parta til tíundar, og eiga því að tíundast nú 4 vetra og eldri 40 al., og að því skapi hinar yngri.

Að því er *sauðfjenað* snertir, þá ákvarðar reglugjörðin, að 6 ær mylkar sje 1 hndr. til tíundargjörðar; 8 sauðir 3 og 4 vetra, og þá víst líka eldri, 1 hndr.; 10 tvævetrar kindur 1 hndr.; og 18 gemlingar 1 hndr.; en þetta verður þó nákvæmlega að berast saman við hinn tilvitnaða stað í Jónsbók.

Um *geitfje* er ekki talað í reglugjörðinni; en það er lagt í hundruð á fyrnefndum stað í Jónsbók, og geta menn því, með því að bera saman ákvarðanir Jónsbókarinnar um verðlag þess við ákvarðanir hennar um verðlag sauðfjenaðarins, og gæta svo að, hvernig sauðfjenað nú á að tiunda eptir reglugjörðinni, hjer um bil sjeð, hvernig geitfje nú muni eiga að leggja í hundruð til tíundar.

Um tíund af *svínum*, sem nefnd eru í Jónsbók á optnefndum stað, þarf ekki að tala, þar sem þau eru nú hvergi til orðin.

Auk þessa segir tilskipunin, að *allir bátar, sem menn halda úti til fiskiveiða, eigi að tíundast sem 1 hndr., og lóðir og þorskanet, er menn hafa til veiðar, sem ½ hndr.; það er að segja, þær lóðir og þorskanet, er fylgja einum bát.*

*40 rd.* í peningum (þ. e. 10 hndr., er nú verður eptir meðalverði allra meðalverða í verðlagsskránni hjer um bil 300 rd.), er engan arð gefa af sjer, eiga eptir reglugjörðinni að tíundast sem 1 hndr, og *20 rd.* (nú hjer um bil 150 rd.) sem ½ hndr., og eru því arðlausir peningar þar felldir til tíundar um 9 parta, og þess vegna langtum meir, enn eptir alþingisdóminum. Aðra muni telur tíundarreglugjörðin ekki upp.

2. *Fyrrum töldu menn án efa, eins og áður er ávikið, allt sitt góðs til tíundar, er tíund átti að lúkast af, bæði það, er þeir sjálfir höfðu handa á millum, og eins það, er þeir áttu hjá öðrum, en drógu frá aptur skuldir sínar, og guldu svo tíund*

*af öllu því, sem þeir áttu skuldlaust og tíundast átti*, og þetta sýnist og reglugjörðin að hafa viljað; þar á móti *telja menn nú að eins ákveðna muni til tíundar, og gjalda enga tíund af hinu, er þeir eiga, eins og engar skuldir nú eru dregnar frá*, og til þessarar venju virðist reglugjörðin að hafa gefið fullkomið tilefni, þó hún eigi hafi ætlazt svo til; því meðal annars fellir hún hundruðin svo misjafnt til tíundar, eins og áður er sýnt, án þess að gefa nokkrar almennar reglur fyrir því, er menn gæti farið eptir; og skyldi skuldir frádragast, vanta og með öllu ákvarðanir fyrir því, hver hundruðin maður fyrst mætti draga frá fyrir þeim, hvort þau, er gjalda á af fulla tíund, eður þá hin, sem minni tíund á að gjaldast af o. s. frv., og yrði því þetta þá allt að gjörast af handa hófi og í tómri lögleysu.

Þegar menn nú gæta að því, hvernig venjan hefir myndazt í þessu efni, þá er hún víða um landið nokkuð mismunandi.

Það er eigi óvíða, að ekki er goldin tíund nema af þeim munum, sem reglugjörðin nefnir, og þó ekki af arðlausum peningum; samt hefir alstaðar verið goldin tíund af þeim jörðum, sem hundraðatal er á, og menn eigi af öðrum ástæðum hafa álitið tíundarfrjálsar, og eins sumum jörðum, er ekkert hundraðatal hafa haft, jafnvel þó tíund af jörðum sje ekki nefnd sjer í lagi í reglugjörðinni. Aptur er sumstaðar goldin tíund af fleira lausafje enn reglugjörðin nefnir, og jafnvel á þeim stöðum, þar sem arðlausir peningar ekki tíundast.

Menn geta því engan veginn sagt, að það sje venja hvervetna, að gjalda ekki tíund nema af þeim hlutum, sem reglugjörðin hefir lagt í hundruð. Það er og auðsætt, að þeir fjármunir, sem taldir eru upp í reglugjörðinni, eru að eins nefndir, til að sýna, hvernig þá eigi að tíunda, en ekki í þeirri veru, að löggjafinn hafi ætlað sjer, með því að nefna þá, að telja upp allt það, er tíund ætti að lúkast af; og með því það þannig á einn bóginn má álítast víst, að löggjafinn hefir viljað láta tíunda fleiri hluti, en þá, sem hann þar hefir nefnt, eður sagt, hvernig tíundin skyldi lúkast af, og mönnum á hinn bóginn er skylt, að fara sem mest eptir boðum löggjafans, að auðið er, er engin ástæða til, að sleppa þeim hlutum úr tíund, sem með öllu eru áþekkir þessum; þetta gildir einkum um allan lifanda pening, sem því virðist allur eigi að tíundast — þó ber án efa eigi að gjalda sjer á parti tíund af kálfum, folöldum eða lömbum — eins og það og virðist mega gilda um báta, til hverra helzt veiða sem þeir eru hafðir, svo sem til selaveiðar, og þá að líkindum eins vel um önnur veiðigögn, sem um þorskanet t. a. m. lagvaði, skötulóðir, selanætur og laxanet, og þessu er líka víðast fylgt meir eða minna strangt.

Það er víða venja, að menn vilja fella burt til tíundar nokkuð af peningi sínum vegna vanhalda; en þetta er hvergi leyft í reglugjörðinni, heldur þvert á móti væri gagnstætt orðum hennar; að vísu leyfir löggjöfin að fella 7. hverja löggilda kú úr; en þetta leyfi nær ekki lengra, enn að því er löggildar kýr.

snertir, og hefir löggjafinn getað leyft það af sjerskildum ástæðum. Þó virðist sem mörg rök megi færa til þess, að það verði og að gilda um allar mjólkandi kýr.

Þar á móti er meiri ástæða til, að leggia vanmeta gripi, eins og víða viðgengst, ekki í fulla tíund, eður gripi þá, er eigi eru fullgildir, og var það fyllilega samkvæmt hinni eldri löggjöf, sjá Jónsbók á hinum tilvitnaða stað, og er líka samkvæmt reglugjörðinni, að því leyti kýr og nautpening snertir, og eins og löggjafinn þar hefir heimtað að kýr sú, er skyldi tíundast sem 1 hnd., væri löggild, eins virðist og málnytu ásauðarkúgildið að verða að vera löggilt eður í því standi, að full leíga verði goldin eptir það, ef það á að geta tíundazt sem 1 hndr., en eptir J. B. k. b., kap. 6., eru 6 ær við kú, tvær tvævetrar og 4 gamlar, og fæði lömb sín, órotnar, loðnar og lembdar að fardögum; þær 6 ær, sem eru í lakara standi enn þetta, virðast því ekki eiga að tíundast sem 1 hndr.; líka telur Jónsbók 7 lambskotur við kú, 8 lambgimbrar, er fæði lömb sín við kú, og 8 algeldar ær, þrevetrar og eldri við kú, en 12 tvævetrar eru eptir reglugjörðinni 1 hndr. Um hesta og hryssur sýnist nokkuð öðru máli að gegna, og eins um geldfje; bæði er þessi peningur svo geysilega felldur til tíundar í reglugjörðinni, að óvíst er nema löggjafinn kunni einmitt að hafa gjört það með sjerstaklegu tilliti til þess, að hann svo opt er í ljelegu standi, og líka eru orðin einkum um hestana svo almenn í reglugjörðinni, að varla er auðið

með nægum rökum að gjöra nokkrar undantekningar frá þeim.

Sumstaðar er venja, að menn að eins tíunda þá muni, er þeir eiga á tíundardegi; en bæði kristinnrjettur *Þorláks* og *Ketils* biskupa, og líka kristinnrjettur *Árna* biskups segja, að menn skuli tíunda *það fje, er þeir áttu í fardögum*, og í reglugjörðinni 1782 er engin breyting á þessu gjörð; að vísu segir í kristnarjetti, *að ef fje nokkurs vaxi eða minnki síðan um 5 hndr. eður meira, skuli tíundin vaxa eða minnka þar eptir*, en síðan tíundargjaldið lagðist á sjerskilda hluti, verður hverr nú að tíunda þá, er átti þá í fardögum, án tillits til þess, þó hann síðar hafi fargað þeim fyrir tíundardag, og eins er það, að þó menn eptir fardaga eignist hluti, er annarr átti í fardögunum, og sem því átti að telja þá fram til tíundar, getur hann þar fyrir ekki verið skyldur til, að greiða tíund af þeim á ný sama árið; þar á móti virðist meira mæla fyrir því, að tíundin geti aukizt, ef nokkurr eptir fardaga eignast 5 hndr. eða meira í tíundarbærum aurum, er enginn átti í fardögum, og sem því enginn taldi þá fram til tíundar, og ef hann eignast þessa hluti, áður enn gagnstími þeirra byrjar; og eins, að tíundin megi þverra, ef nokkurr skyldi missa alveg eptir fardagana fyrir gagnstímann 5 hndr. eður meira í tíundarbærum aurum.

Eptir þessu fyrsagða *hvílir* tíundargjaldið nú eptir venju þeirri, sem reglugjörðin frá 1782 hefir gefið tilefni til — *á tilteknum eður nokkrum hlutum*, sem annaðhvort flestir geta sagzt að vera *arð-*

*berandi,* og eru það að nokkru leyti, eður þá í hið minnsta lagaðir til að verða það; og þegar menn gæta að því, að mestar tekjur búandans eru komnar undir þeim lifanda peningi, er hann getur framfleytt, eður undir sjávarútvegi hans, þá geta menn nú sagt um tíundina, að hún sje nokkurs konar *tekjuskattur;* og samkvæmt þessari lögun, sem tíundargjaldið nú hefir tekið, eru arðlausir peningar, þó þeir sje nefndir í reglugjörðinni, óvíðast tíundaðir, eins og það og eptir þessu er með öllu ástæðulaust, að draga skuldir frá, er þó sumstaðar mun viðgangast, og tíunda þá ekki um leið allt sitt fje skuldlaust.

Um það, hvar og hvenær menn eigi að telja fje sitt til tíundar, hverjir eigi að leggja það í tíund, að hreppstjórarnir eigi að skapa þeim tíund, er ekki mæta á hreppstjórnarþinginu, og fleira þar að lútandi, sjá kristnarjett Árna biskups, kap. 15., reglugjörð 1782, 2. og 3. gr., opið brjef 1. sept. 1786.

3. Tíund þá, sem gelzt af fasteign, nefna menn *fasteignartíund* eður *jarðartíund,* en þá, sem gelzt af lausafè, *lausafjártíund.* Tíundin skiptist í 4 staði jafna; einn fjórðungur hennar bar fyrrum biskupunum, og nefndist þá *biskupstíund;* en nú hefir konungur tekið hann undir sig, og nefnist hann nú *konungstíund;* annarr fjórðungur hennar ber fátækum, hann nefnist *fátækratíund;* hinn þriðji prestum og nefnist *prestatíund,* og hinn fjórði kirkjum, *kirkjutíund.* Sje þó tíundin minni en eyristíund, á hún öll að hverfa til fátækra, sjá kristnarjett Árna biskups kap. 15., og skiptist ekki; þó mátti biskup

leggja hana til kirkna, ef honum sýndist það nauðsynlegra, og viðhelzt það enn frá gamalli tíð, að einstaka kirkja eður prestur nýtur þessarar tíundar.

Þegar tíundin er svo stór, að henni ber að skipta, nefnist hún *skiptitíund,* og þeir segja menn að sje í skiptitíund, er tíunda svo mikið fje; en þeir, sem tíunda minna fje, segja menn að ekki sje í skiptitíund, eður að þeir sje innan skiptitíundar.

Það er nú berlega sagt í kristnarjetti, *að sá, sem eigi 5 hndr. í landi eður lausum aurum, skuli greiða eyri í tíund, og að öll eyristíund skuli skiptast, en sú að eins hverfa til fátækra óskipt, er minni sje,* og eins er þar sagt skýlaust *að hverr eigi að gjalda vortíund* — en svo nefnist biskups, prests, og kirkjutíundirnar, af því gjalddagi þeirra er á vorin — *þar sem hann á lögheimili þau missiri, er tíundum er skipt á haustið, en ef eigi er skipt,* þ. e. ef tíund hans er eigi svo mikil, að henni sje skipt, eður með öðrum orðum: sje hann innan skiptitíundar, *þá skuli hann þar gjalda alla tíund, sem hann er heimilisfastur Marteinsmessu,* sem ætíð er 11. dagur nóvembermánaðar.

Á þessu er nú nokkur breyting orðin:

*a.* Þannig er nú *jarðartíundin goldin til tíundartakandanna þar, sem jörðin liggur, og er henni aldrei nú slengt saman við lausafjártíund jarðeigandans; eins er henni nú ætíð skipt í 4 staði, hvað lítill sem jarðarparturinn er, án tillits til þess, hvort eigandinn á nokkurt annað fje, sem hann á að greiða tíund af, svo öll jarðartíund er nú*

*skoðuð sem skiptitíund.* Aptur er lausafjártíundinni ekki skipt í 4 staði, nema tíundarbært lausafje eigandans nemi 5 hndr., eður að hann af lausafje sínu eigi að greiða eyristíund, án tillits til tíundar þeirrar, er hann kann að eiga að greiða af jarðagóðsi sínu. Eigi því einhverr nú t. a. m. 2 hndr. í jörð og 3 hndr. í lausafje, skiptist tíundin af jörðinni í fjóra staði, milli tíundartakandanna, þar sem jarðarparturinn liggur; en tíundin af lausafjenu fellur öll til fátækra í þeirri sveit, sem hann á heima í, í stað þess að öll þessi eyristíund hefði eptir kristnarjetti átt að skiptast í 4 staði, milli tíundatakandanna, þar sem eigandinn á heima. Eigi þar á móti einhverr að eins 2 hndr. í jörð, en ekkert lausafje, er hann eigi að svara tíund af, skiptist nú þessi tíund hans millum tíundartakandanna, þar sem jörðin liggur, í stað þess, eptir kristnarjetti, að falla öll óskipt til fátækra í hreppi hans; þannig er nú orðinn mikill mismunur á jarðartíund og lausafjártíund.

Til grundvallar fyrir þessu, hvernig jarðartíundin nú er goldin, liggur auðsjáanlega sú skoðun, að hver jörð með hjáleigum sínum, ef þær fylgja nokkrar, eigi að skoðast sem ein heild út af fyrir sig gagnvart hinu opinbera, og að hið opinbera skipti því engu, hvort einn eður fleiri eigi jörðina, eður hvar þeir kunni að eiga heima, það eigi því að hafa aðganginn með tíundina og önnur gjöld í almennar þarfir, er af jörðinni eiga að greiðast, að jörðunni sjálfri, eður þeim, er á henni býr eður búa, áþekkt því og ákveðið er í kristnarjetti, þegar eigandinn er

í útlöndum. En af þessari skoðun getur eigi leitt annað enn það, að tíundin ætti að ganga til rjettra tíundartakanda, þar sem jörðin liggur, og skiptast millum þeirra, ef jörðin er 5 hndr. eður meira að dýrleika; en sje jörðin þar á móti minni, svo eigi lúkist eyristíund af henni allri, er það gagnstætt öllu, að tíundin eigi hverfi óskipt til fátækra. Af þessu leiðir og enn fremur, að enginn getur haft rjett til að stykkja út úr jörðu sinni minna part, enn 5 hndr., og gjöra hann að sjerstakri jörðu eður koti, er þá eigi sje hjáleiga frá heimajörðunni, án leyfis þeirra tíundartakanda, er tjón biði í tekjum sínum við það, heldur verður þvílík útstykking að vera markleysa gagnvart hinu opinbera og þeir að mega halda sjer til ábúandanna á allri eigninni með tíund sína, rjett eins og engin útstykking hefði átt sjer stað.

Eptir tilsk. 1. apríl 1861 á nú að borga jarðartíundina eptir dýrleika þeim, sem settur er á jarðir í nýju jarðabókinni; þó er áskilið prestum þeim, sem voru í kallinu, þegar hin nýja jarðabók öðlaðist lagágildi, rjettur til að taka preststíundina af jörðunum eptir hinum eldra dýrleika þeirra, meðan þeir eru þar kyrrir, en þó með því skilorði, að jarðartíundin sje á þann hátt rífari, enn ef hún væri reiknuð eptir hinni nýju jarðabók.

*b*. Ef einhverr hefir bú eður útibú á öðrum stað, enn hann á heima, geldur hann tíund af búinu eður því tíndarbæra fje sínu, er hann þar hefir, til tíundartakandanna þar í sveit; en þar af leiðir þá,

að hann eigi getur verið skyldur að borga líka tíund af þessu fje, þar sem hann er heimilisfastur.

Til breytinga þessara, sem nefndar eru undir bókstöfunum *a* og *b* hefir kristinnrjettur sjálfur gefið nokkra orsök, þar sem hann segir: *þangað skal hverr maður leggja kirkjutíund sína, sem biskup kveður á, og skal hann skipta hjeraði til þess,* því eptir þessu ákváðu biskupar, af hverjum bæjum tíundir skyldi ganga til hverrar kirkju, og við þetta skiptist landið í fastar kirkjusóknir, og með tímanum fóru menn að borga kirkjutíundina og preststíundina af jörðum þeim og búum, er þeir áttu í einni sókn, til kirkjunnar þar og prestsins, þó þeir sjálfir væri búsettir eður heimilisfastir í annarri; og þessu samkvæmt bauð tilsk. 21. marz 1575, *að hverr prestur skyldi hafa tíund af öllum þeim bændum og jörðum, er væri í sókn hans, hverr sem jarðirnar ætti.*

*c*. Í tilsk. 14. maí 1834 er boðið, *að tíundin af leigupeningi, er eigi sje innstæðukúgildi, nje því undanskilin tíund, eigi að lúkast af þeim, er hafi hann til leigu, og falla til tíundatakandanna, þar sem leigupeningurinn sje á þeim tíma, er telja eigi hann fram til tíundar.*

Þessi ákvörðun er í mörgu tilliti óhappaleg; hún gjörir meðal annars undantekningu frá þeirri aðalreglu laganna, að eigandinn sjálfur lúki tíund af öllu sínu tíundarbæru lausafje, og eigi heldur er hún í neinni beinlínis samfellu við þá reglu, að ábúandinn greiði tíundina af ábýli sínu, því maður

getur setið eptirgjaldslaust á ábýli sínu, án þess þó að vera eigandi þess, og er þó skyldur eptir áminnztri reglu að gjalda tíundina af því, en ákvörðun þessi nær eptir orðunum engan veginn til allra þeirra, er uppbera arðinn af annarra tíundarbæru lausafje, heldur að eins til þeirra, er hafa tíundarbæran *kvikfjenað til leigu*. það er þannig engin breyting gjörð á því, að ef maður ljær öðrum skepnur sínar, eður á hvern helzt annan hátt, sem maður á þær hjá öðrum, á maður sjálfur að tíunda þær; en taki maður *leigu* eptir þær, þá snýst allt um, og leigunauturinn á þá eptir tilskipuninni að gjalda tíundina, en eigandinn sleppa við hana. Og þó maður leigi öðrum skip, eður hverja helzt aðra tíundarbæra muni, og taki fulla leigu eptir, á eigandinn eins að tíunda þá fyrir því, þar tilskipunin gjörir enga breytingu í því, nema þegar kvikfjenaður er leigður, því þá að eins á leigunauturinn eptir henni, en ekki eigandinn að gjalda tíundina.

þegar tilskipunin enn fremur segir, að tíundin af leigupeningi skuli falla til tíundartakandanna þar, sem leigupeningurinn sje á þeim tíma, er telja eigi hann fram til tíundar, þá er það auðsætt, að löggjafinn hefir sagt hjer allt annað, enn hann hefir ætlað sjer; því ef t. a. m. leigupeningurinn væri óvíss og menn eigi vissi, hvar hann hefði verið, þegar átti að telja hann fram til tíundar, gæti engir tíundatakendur heimtað tíund af honum, og hann yrði því ótíundaður það ár. það er líka óhugsanda, að löggjafinn hafi viljað, að — ef leiguhestur eður annarr leigu-

peningur manns væri á ferðum í öðrum sveitum eður fjórðungum landsins, þegar telja ætti hann fram til tíundar, þá skyldi tíundin af honum falla til tíundartakandanna þar í sveit, sem hesturinn þá væri, og eins að tíundin af öllum strokpeningi, þó því að eins, að það sje leigupeningur, skuli falla til tíundartakandanna þar í sveit, sem hann er, þegar leigunauturinn á að telja hann fram til tíundar; og þó væri þetta svona, ef menn ætti að fara eptir orðanna hljóðun í tilskipuninni.

það er því auðsætt, að löggjafinn hefir ætlað sjer að segja eitthvað annað, enn hann hefir gjört; og hið eðlilegasta er þá og sem gjörir minnsta breytingu á hinum eldrum lögum, að ímynda sjer, að löggjafinn hafi viljað, að tíundin af leigupeningi skuli falla til þeirra tíundartakanda, er taka eiga tíund af öðru lausafje leigunautarins það ár, og sem því eptir kristnarjetti verða tíundartakendurnir þar, er leigunauturinn á heima um haustið, er tíund hans er skipt, eður sje hann innan skiptitíundar, á Marteinsmessu, eins og fyrr var sagt. — þegar menn nú þar næst gæta að sambandinu millum 1. og 2. greinar í tilskipuninni, þá sjest, að eptir að löggjafinn í 1. gr. er búinn að ákveða, að innstæðukúgildi hverrar jarðar skuli vera tíundarlaus, hvort þar búi *eigandinn sjálfur* eða *leiguliði*, og þar næst, hve mörg innstæðukúgildi skuli fylgja hverri jörðu, sem tíundarfrjáls, segir hann, að allur annarr peningur, sem haldinn sje á jörðunni, fyrir utan innstæðukúgildin, skuli tíundast. Vegna þessa virðist nú eðlilegast,

að löggjafinn í 2. gr. hafi viljað fara að tala um það, hvernig skyldi þá fara um þau leigukúgildi, er ábúandinn hefði frá jarðeiganda, en sem ekki mætti eptir 1. gr. álítast, að vera innstæðukúgildi, og sem því tíund ætti að lúkast af, hvort ábúandinn eður eigandinn ætti að borga tíundina af þeim, og hvort hún ætti að borgast tíundartakendunum þar, sem eigandinn væri heimilisfastur eður þeim, þar sem leiguliðinn væri það. Og með því þetta virðist vera eðlilegasta sambandið millum greinanna, og menn svo eigi mega skilja tilskipunina eptir orðunum, virðist eðlilegast, að skilja 2. greinina svo, að þar sje ekki verið að tala um leigupening yfir höfuð, heldur að eins um þau kúgildi, er landsdrottinn kann að byggja leiguliða sínum umfram innstæðukúgildin; svo allan annan leigupening ætti eigandinn sjálfur að tíunda, eins og lög hafa verið, og tíundin ganga til tíundartakandanna, þar sem eigandinn er heimilisfastur; þessi skilningur gjörir og minnsta breytingu á löggjöfinni, og styrkist líka við það, að engin næg ástæða er til að álíta, að í 2. grein sje talað um annan leigupening, enn gjört er í 1. grein, eður um annan enn þann, sem haldinn er á jörðinni, því síður, sem orðin í byrjun 2. gr. »hinn burtleigði peningur« (De bortleiede Creature) virðast lúta að því, að nú eigi þar að fara að gefa nákvæmari reglur um leigupening þann, sam áður er búið að nefna í 1. gr. Samt kann að virðast mikil ástæða til að álíta, að þá verði og að fara á sama hátt með þann leigupening, sem leigður er árlangt sem innstæðu-

kúgildin, hverr sem hann svo á, og að hann þessu samkvæmt verði að heimfærast undir 2. gr., því það megi í þessu efni standa með öllu á sama, hvort landsdrottinn á leigupeninginn, eður aðrir, og menn géta sagt um allan þann leigupening, sem leigður er árlangt, hverr sem hann á, að *hann sje haldinn á jörðinni eður framfleytist þar,* en engan veginn um þann leigupening, sem um nokkurn tíma af árinu er leigður út til annarra, en er hjá öðrum hinn hlutann af því, og getur hann því eigi heimfærzt undir 2. gr., ef hún stendur í nokkru nánu sambandi við 1. gr., sem menn verða að álíta að sje.

4. Frá því að greiða tíund af fje sínu eru undanskildir ýmsir menn meir eða minna; líka er sumt fje á stundum undanskilið tíund, hverr sem það á, sem þó annars er þess kyns fje, er venjulega á að greiða tíund af. Þannig er í kristnarjetti Þorláks og Ketils biskupa ákveðið, að það fje þurfi »ekki til tíundar að telja, sem áður er til guðsþakka gefið, hvort sem það er til kirkju lagið, eður brúa, eður til sáluskipa« (sálnamessna); og vegna þess var það án efa, að engin tíund var lengi goldin af fje því eður jörðum, er biskupsstólarnir, klaustrin, kirkjurnar og fleiri líkar stofnanir áttu; þó var seinna opt boðið, að gjalda tíundir af þessum jörðum til allra stjetta (sjá t. a. m. tilsk. 21. marz 1575, er þó eigi gat orðið framgengt í því efni), og á alþingi var dæmt 1604, að »gjalda skyldi preststíund og fátækratíund af öllum konungs- og kirkjujörðum, að þeim fráteknum, sem kirkjurnar standa á; þó skyldi

almúginn að eins skyldur til þessa með því fororði, að allir umboðsmenn konungs og kirkna væri í því form og fyrirmynd annarra«. Samkvæmt þessu er og víðast í Norðurlandi af öllu opinberu jarðagóðsi, og eins kirknaeignum, nema sumum heimajörðunum, goldnar fyrtjeðar 2 tíundir; á Vesturlandinu þar á móti gengur þetta mjög misjafnt til, því þar eru sumstaðar goldnar allar tíundir af því, og sumstaðar engin, og sumstaðar einungis tíund til fátækra; og eins á Suðurlandi, að þar er engin föst regla í þessu; þó er víðast um landið af prestssetrum flestum engin tíund goldin, sízt, er prestar búa á þeim.

Ef menn álíta, að tíundarfrelsi geti burtfallið að lögum við það, að rjettir hlutaðeigendur, hverr eptir annan, eigi hirða um það nje nota, er það eigi nema eðlilegt, þó ýmsar slíkar stofnanir hafi misst meira eður minna af tíundarfrelsi sínu með tímanum, svo tíundarfrelsi þeirra nú sje orðið misjafnt.

Þó boðið sje í tilskipun 1. apríl 1861, 2. gr., að heimta og greiða skuli allar tíundir af jörðum eptir dýrleika þeim, sem á hverja jörð er settur í hinni nýju jarðabók, þá hefir engin jörð við það misst tíundarfrelsi sitt þegar af þeirri ástæðu, að almenn lög svipta eigi sjerstök lög gildi þeirra nje nema burtu forrjettindi; tilskipunin segir eigi heldur, að nú skuli fara að taka tíund eptir nýju jarðabókinni af *öllum* jörðum, *og eins þeim, er tíundarfrelsi hafa haft*. Það hefði og sjer á parti orðið að berast upp á alþingi, hvort burtnema ætti tíundar-

arfrelsið, áður enn það hefði verið burtnumið, og líklega þarf meira enn orðin ein, ef á að burtnema það á rjettlátan hátt.

Við jarðamatið er það líka aðgæzluvert, að bændakirkjustaðirnir voru metnir til dýrleika á þann hátt, að kaupahlutinn og kirkjuhlutinn ásamt með öllum hlunnindum kirkjunnar voru metnir til samans og í einu lagi til dýrleika, svo ómögulegt er að vita, hvað stórr partur kaupahlutinn er af dýrleikanum, og hve stórr partur hans kirkjuhlutinn er og kirkjuhlunnindin. Með því nú eptir þessu eigi er unnt að sjá dýrleika kaupahlutans, eður því taka tíund af honum eptir nýju jarðabókinni, en kirkjuhlutinn er tíundarfrjáls, verður af þessum jörðum án efa að taka tíundina eptir forna matinu, sje það lægra. Auk þessa er það aðgætanda, að prestmata og aðrir einstakir tollar, er lúkast af sumum jörðum í almennar þarfir, voru lagðar við afgjaldið af jörðum þeim, er þær gjaldast af, og hleyptu þeim því fram í dýrleika; nú virðist það óeðlilegt í alla staði, og hefir eigi getað verið löggjafans vilji, ef hann hefði vitað þetta, að leggja nokkurn toll á framfærslu þá, er jarðir þessar hafa við þetta fengið í dýrleika sínum, eður að leggja toll á útgjöld manna í opinberar þarfir, rjett eins og það væri tekjur þeirra, og það virðist liggja í augum uppi, að enginn prestur ætti að hafa heimting á, að fá tíundir sínar auknar af jörðu af þeirri ástæðu, að honum væri goldin af henni prestmata eður annarr tollur. Með því menn nú eigi vita gjörla, hvað tollar þessir hafa hleypt hverri

þessari jörðu fram í dýrleika, virðist og af þessari ástæðu, sem hærri tíund eigi verði heimtuð af þeim, enn hingað til hefir verið af þeim goldin.

Samkvæmt fyrnefndu tíundarfrelsi, er kirkjum og slíkum stofnunum var veitt í kristnarjetti Þorláks og Ketils biskupa, er og sagt í reglug. 1782, 4. gr., að *pia corpora* t. a. m. kirkjur, prestar, skólar og spítalar skuli ekki þurfa að greiða tíund af kúgildum sínum eður öðru inventario, er þau eigi. Að vísu er hjer prestunum bætt inn í, er eptir kristnarjetti áttu að tíunda fje sitt, nema það sem þeir áttu í bókum eða messuklæðum.

Stiptamtmaðurinn, biskupinn og amtmennirnir þurfa ekki að telja fram fje sitt til tíundar, eður greiða gjöld af því til sveitarinnar eður annarra, heldur eiga þeir að gefa til fátækra og *pia corpora* (en þar við skilur reglugjörðin prestana, eins og fyrr er á vikið), sem venja hefir verið, en vera sjálfráðir um hve mikið; þó nær þetta frelsi að eins til þeirra sjálfra og þess fjár, er þeir halda handa sjer og heimilum sínum heima hjá sjer; sjá reglugjörð 1782, 5. gr.

Allir prestar og andlegir menn, er opinberum embættum þjóna, eiga, sem allir aðrir, að telja fje sitt til tíundar, er tíund á að greiðast af, en þurfa að eins að lúka tíund af því til fátækra; sjá reglug. 1782, 6. gr. Í tilsk. 14. maí 1834 er sagt, að þetta tíundarfrelsi sje að eins að skilja um pening þann, er þeir haldi handa sjer og heimilum sínum heima hjá sjer. Hafi því prestur útibú í öðru

prestakalli, ber honum að greiða tíund af því þar til prests og kirkju og eins ábýlinu, hafi það eigi tíundarfrelsi.

það getur varla verið vafi á því, að uppgjafaprestum beri og þetta tíundarfrelsi, þó nokkrir biskupaúrskurðir að sögn lúti í aðra átt.

Í kristnarjetti var prestum boðið að tíunda allt sitt fje, nema það, sem þeir áttu í helgum bókum, messuklæðum, og þeir höfðu til guðsþjónustu; gjöld til konungs guldu þeir engin. það getur nú þess vegna enginn vafi verið á því, að þeir hafi goldið tíundir allar af fje sínu, sem þeir eigi höfðu tíundarfrjálst, nema presttíundina, að því leyti hún var sitt af embættistekjum þeirra, og þetta fyrirkomulag viðhjelzt allt fram til siðaskiptanna. Um siðaskiptin komu út ýms lagaboð, er bönnuðu að íþyngja prestum eður andlegrar stjettar mönnum nokkuð í gjöldum eður leggja á þá skatta til konungs; þegar konungur því tók biskupstíundina undir sig, voru prestar og stúdentar víðast um landið látnir ókrafðir um hana, og sluppu þannig algjörlega við hana, er fram liðu stundir, án þess þeir með nokkru lagaboði þó væri i rauninni leystir við gjald þetta, uns kgs.brjef 7. marz 1774 gjörði það, og ákvað um leið, samkvæmt fornum og þá gildandi lögum, að menn hinnar andlegu stjettar skyldi og vera undanþegnir, að gjalda skatt og gjaftoll til konungs. Hingað til hafði þannig enginn greinarmunur átt sjer stað í sköttum eður tíundum andlegu stjettar mannanna, því hann kemur fyrst fram í reglugjörðinni 1782,

nema hvað þjónandi prestar, sem eðlilegt er, eigi þurftu að gjalda sjálfum sjer presttíund. Reglugjörðin vildi nú bæta kjör andlegu embættismannanna bæði með að auka tíundarfrelsi þeirra, og eins með ýmsu öðru, og gjörir því á fyrnefndum stað, sem eðlilegt var, mun á þeim andlegrar stjettar mönnum, er hafi opinber embætti á hendi, og hinum, er eigi hafi þau, og eykur þessu samkvæmt að eins tíundarfrelsi hinna fyrnefndu svo, að það nái til allra hluta tíundarinnar, nema þess, er fátækum ber, en lætur þar á móti tíundarfrelsi hinna standa í stað. Það var þannig auðsjáanlega tilgangur reglugjörðarinnar að auka tíundarfrelsi andlegu embættismannanna á þann hátt, sem þar segir, eins og hún í mörgu öðru vildi bæta kjör þeirra, en engan veginn að ákveða neitt um það um leið, að þeir skyldi missa þetta tíundarfrelsi sitt aptur, er þeir ljeti af embættum, enda var eigi fremur ástæða til að taka nokkra slíka ákvörðun um þetta eina atriði, enn um hin önnur hlunnindi, er reglugjörðin veitir andlegum embættismönnum. Hvort andlegir embættismenn eigi að missa hið umrædda tíundarfrelsi sitt, er þeir sleppa embættum sínum, eða eigi, verður að dæma eptir reglum þeim, er gilda um embættismenn yfir höfuð, hvort þeir missi almenn hlunnindi sín eður forrjettindi, er þeir fá lausn frá embættum sínum, eður ekki; og með því menn nú mega álíta það sem almenna reglu, að þeir missi þau eigi við það, þá er engin ástæða til að álíta, að andlegir embættismenn skyldi missa tíundarfrelsi

sitt til prests og kirkju fyrir það, þó þeir legði niður embætti sitt, og það er því minni ástæða til að álíta þetta, sem það má af mörgu sjá, að þeir eigi missa tíundarfrelsi sitt til konungs fyrir það; þannig er meðal annars sagt seinna í grein þessari í reglugjörðinni, að »prestar og prestsekkjur skuli vera undanþegin skattgjaldi, gjaftolli og öðrum álögum eptir útgengnum úrskurðum gegnum rentukammerið«, og þá konungstíundinni eptir kgs.br. 7. marz 1774, en sje ekkjur uppgjafapresta undanþegnar þessum gjöldum, þá hafa sjálfsagt menn þeirra líka verið það, meðan þeir voru uppgjafaprestar; hvorki uppgjafaprestar nje ekkjur þeirra eru heldur krafin um þessi gjöld til konungs. Ætti og reglugjörðin að skiljast svo, að andlegir embættismenn eigi væri undanþegnir tíundargjaldi til prests og kirkju, nema meðan þeir gengdi embættum sínum, væri biskupinn sjálfur það eigi heldur, ef hann legði niður embætti sitt, en sá skilningur á reglugjörðinni, er leiðir til slíks, er með öllu fráleitur, með því hann og eigi er nauðsynlegur. Auk alls þessa hætta uppgjafaprestar eigi að vera prestar fyrir það, þó þeir hætti við embætti sín eður fái lausn frá þeim, og eru þeir því beinlínis eptir orðum reglugjörðarinnar lausir við að lúka aðra tíund af lausafje sínu, enn til fátækra, þar eð reglugjörðin undanþiggur *alla presta* frá því, því að hugsa, að saman við orðin: »allir prestar« eigi að tengja orðin: »sem opinberum embættum gegna« og ímynda sjer svo, að aðrir prestar hafi eigi tíundarfrelsið, en þeir prestar, sem gjöri það, er ekki

einungis ástæðulaust frá málsins hálfu, þar orðin geta skilizt öðruvísi, heldur virðist meðal annars lýsa hreinu hugsunarleysi um sjálfa stöðu prestanna, því hjer á landi eru engin prestsembætti, sem eigi eru opinber, en að tala um presta, sem opinberum embættum gegni, gæti því að eins átt við, ef hjer væri nokkur prestsembætti, sem eigi væri opinber.

Þetta tíundarfrelsi presta nær ekki nema til lausafjártíundar þeirra, en þeim er hvergi heimilað tíundarfrelsi af ábýlum sínum nema til konungs eptir kgs.br. 7. marz 1774, og verða þeir því að gjalda venjulegar tíundir af þeim, ef þau eru ekki sjálf tíundarfjáls.

Hið sama tíundarfrelsi og prestum ber, ber og kapellánum, því bæði ber að telja þá meðal presta og líka eru þeir andlegir menn, er opinberum embættum gegna. Í kansellíbrjefi 1. ágúst 1801 er að vísu sagt svo: »að kapellánar sem geistlegir embættismenn eigi, þar sem engar hentugar bújarðir sje handa þeim, er prestakallið eigi, og þeir því neyðist til, að taka aðrar jarðir til byggingar, að vera eptir reglugjörðinni 17. júlí 1782 undanþegnir frá að greiða tíund, nema til fátækra, en þetta er víst ekki rjett.

Af sumum jörðum er engin tíund goldin, þó þær sje einstakra manna eign, og hverr sem á þeim býr, og af sumum að eins til prests og fátækra; þetta gildir um ýmsar konungsjarðir og eins um stólsjarðirnar gömlu, og ef til vill fleiri. Jarðir þær, sem *Skálholts*biskupstóll átti, voru og seldar með

tíundarfrelsi; en þó Hólastólsjarðirnar ekki væri seldar berlega með þeim skilmála, hefir það þó, ef til vill, verið meiningin, enda hafa og hingað til ekki verið goldnar nema áminnztar 2 tíundir af þeim.

Í tilsk. 14. maí 1834 er ákveðið, að engin tíund sjer í lagi skuli lúkast af jarðanna innstæðukúgildum, heldur skuli tíundin af þeim álítast sem fólgin í þeirri, sem svarast af jörðunni; ef menn ekki geti sannað með byggingarbrjefum, eður á annan löglegan hátt, að fleiri eður færri innstæðukúgildi hafi fylgt jörðinni, áður tilskipunin kom út, þá megi álítast sem innstæðukúgildi, eitt kúgildi á hverjum 5 hndr. Það virðist mjög vafasamt, hvort telja megi frá nokkurt innstæðukúgildi sem tíundarfrjálst á þeim jörðum, er að sönnu veitt hefir verið tíundarfrelsi eður í hið minnsta njóta þess, en sem þó ekki eru eign þeirra, er tíundarfrelsi hafa fyrir góðs sitt, t. a. m. á þeim jörðum, er lágu undir biskupsstólana, en nú eru seldar, því þar getur ekki tíundin af innstæðukúgildunum álitizt sem innibundin í tíund þeirri, er af jörðunni svarast, og virðist því, sem hún ætti að borgast sjer í lagi.

Í tilsk. 15. apríl 1776 (um nýbýli) er ákveðið, »að þeir, sem reisa nýbýli, eigi, þegar enginn eigi jörðina fyrr, að vera lausir við að greiða skatt og tíund í 20 ár; deyi þeir fyrr, njóti ekkjur þeirra eður aðrir erfingjar sama frelsis, þangað til 20 árin eru úti, hvort sem þær gipta sig eður ekki; en ef annarr maður eigi landið, þurfi nýbýlismaðurinn og ekkja hans engum skatti eður tíundum að lúka, með-

an þau lifa«. Til þess nýbýlismaðurinn geti fengið þennan rjett, verður landið að hafa verið honum reglulega útvísað, eins og hann og getur misst þetta frelsi sitt, ef hann vanrækir skyldur þær, er tilskipanin leggur honum á herðar.

Loksins er sagt í kristnarjetti, að þótt maður eigi minna fje, enn að hann eigi þingfararkaupi að gegna, skuli hann samt, hvort sem hann er griðmaður eður bóndi, ef hann á tíu aura skuldlausa, gjöra tíund, nema hann eigi ómaga þann, sem hann verði á verkum sínum fram að færa. Undanþága sú, sem felst í þessari ákvörðun, er hvergi úr lögum numin, en henni mun óvíða framfylgt.

Öll sú preststíund, er menn í einu prestakalli eiga að lúka af jörðum og lausafje, ber sóknarprestinum þar (tilsk. 21. marz 1575); nú á hún eptir opnu brjefi frá 18. marz 1853 annaðhvort að lúkast í gildum og góðum aurum eður peningum á þann hátt: að lúkist hún í peningum, þá á það að vera *eptir meðalalin verðlagsskrárinnar;* þar með á án efa að skiljast: eptir meðalverði allra meðalverða álna þeirra, er verðlagðar eru í verðlagsskránni; en lúkist hún í vörum, þá á *alin að mæta alin,* og má ekki alinin í aurum þeim, sem tíundin er goldin í, vera í lægra verði, en alinin er í verðlagsskránni, eptir meðalverði allra meðalverða; þó mega sjávarbændur gjalda tíundina í hertum fiski, sumsje hverja alin með alin í fiski, án tillits til þess, þó gangverðið á honum sje minna, enn meðalverð allra meðalverða er í verðlagsskránni. Gjald-

endurnir mega sjálfir ráða, hvort heldur þeir borga í vörum eða peningum.

Eindagi tíundarinnar er fimmti dagur viku, er fjórar vikur eru af sumri, sjá kristnarjett *Árna* biskups, kap. XVI.

Ef tíund ekki er goldin í tæka tíð, má taka hana lögtaki, ef ekki er komin tveggja ára skuld á hana, eður ef ekki eru tvö ár liðin frá eindaga þeim, sem hún átti að gjaldast í, og svo er um allar prests-tekjur. Tilskipun 2. apríl 1814.

Á Vestmannaeyjum komust á norsk tíundarlög við það, að Árni biskup 1280 gaf sancto Mikaelsklaustri í Noregi Kirkjubæ; og hafa þau síðan haldizt þar.

## 41. gr.

### Um dagsverk.

Allir þeir bændur, sem eru fyrir innan skiptitíund, eiga að fornri venju og eptir gömlum ákvörðunum (sjá *synodal*-ákvörðun 22. júlí 1726), að vinna einn dag hjá sóknarprestinum um túnasláttinn, sem víðast fæðir þá á meðan.

Allir þeir húsmenn og vinnuhjú, sem eru innan skiptitíundar og eiga að borga ljóstoll til kirkjunnar, eiga og að vinna prestinum dagsverk; sjá kgs.brjef 21. maí 1817; einnig eiga lausamenn að gjöra það; sjá reglug. 1782, 13. gr. Sá, sem ekki vill vinna dagsverkið, má borga prestinum það, eptir kgs.brjefi 21. maí 1817, með öðrum góðum landaurum, eptir meðalverði í þeirri sveit, og á þeim tíma, sem dags-

verkið átti að vinnast á. Dagsverkið um túnasláttinn er að fornu mati 5 álnir, og er maðurinn þá fæddur. Peningar verða og að vera gildur gjaldeyrir; þegar dagsverkið ekki er unnið, er það nú víðast goldið eptir verðlagsskránni, eptir því sem dagsverkið þar er metið.

## 42. gr.

### Um lambsfóður.

Eptir gamalli venju og ákvörðunum á hverr sá, sem hefir grasnyt, að fóðra eitt lamb fyrir prestinn, eður gjalda honum málbandshest af góðu velverkuðu heyi, og flytja það heim til hans. Þessi tollur er, eptir því sem sagt er í gömlum dómum, með fyrstu ákominn við það, að allir þeir, er grasnyt höfðu, voru álitnir skyldir að fóðra í sameining reiðhest prestsins. Tollur þessi er nefndur í reglug. 1782, og eins eldri lagaboðum.

Lömbin lætur presturinn undir eins á haustin reka í fóðrin, og þeim á eptir venjunni að skila prestinum vel fóðruðum á vorin 10. maí, er nefnist *eldaskildagur,* eður þegar gjafatíminn er úti. Ef vanbrestur verður á með lambseldið, eður með að gjalda prestinum lambsfóðrið í heyi, verður að gjalda það í góðum og gildum aurum eður peningum, á- þekkt því, sem boðið er í kgs.brjefi 21. maí 1817 um dagsverkið, og getur þá presturinn án efa ætíð heimtað sömu borgun fyrir það, sem stendur í verðlagsskránni. Lambseldið er að fornu mati 10 fiskar.

Sumstaðar er sú venja, að menn fóðra annað

lamb til fyrir prestinn, er nefnist *Maríulamb* eður *Pjeturslamb;* en allt önnur rót er fyrir þeirri venju, enn hinni, að taka af honum *prestslambið,* er menn nefna svo. Líka tóku sóknarbændur í fyrndinni sumstaðar hverr sitt lambið af kirkjueigöndunum eður þeim, sem á kirkjustöðunum bjuggu, þó þeir ekki væri prestar.

það getur stundum orðið vafasamt, hvort sá bóndi, sem hefir tvær heilar jarðir, eður fleiri undir, eður heldur bú á tveim stöðum eður fleirum, og hefir þar grasnyt, ekki eigi að taka eins mörg prestslömb, sem jarðir þær eru, er hann býr á eður heldur bú á, og þannig fóðra eitt lamb á hverri jörðu eður búi sínu fyrir þann sóknarprest, þar sem jörðin lægi eður búið væri.

Til þess að skera úr þessu, virðist á eina síðuna einkum beri að gæta að: fyrst, hvort jarðirnar eður búin sje í einu eður fleirum prestaköllum, þar næst, hvort það eru að eins jarðarpartar eður þá að eins eitt lögbýli þar í, er menn hafa undir, eður, hvort menn búa svo á fleirum lögbýlum, að aðrir eigi hafi þar af sneiðir með manni; og í þriðja lagi, hvort maður hafi fleiri lögbýli undir, af því hann hafi eigi fengið hin byggð, en reynt það þó á lögboðinn hátt. Og aptur á hina síðuna, fyrst og fremst, að hverjum presti ber lambsfóður af hverjum þeim, sem hefir grasnyt í söknum hans og að það eigi geti skipt málum, hvort bóndinn hefir heimili sitt í prestakallinu eður eigi; þar næst, að engum presti ber utan eitt lambsfóður af neinum, sem hefir gras-

nyt í sóknum hans, nema hann valdi prestinum ólöglegri rýrð í lambsfóðrunum, og í þriðja máta, að enginn prestur hefir heimtingu á því, að jarðeigendur hafi margbýli á jörðum sínum, og getur því engra skaðabóta krafizt fyrir það, þó þeir eigi gjöri svo; að honum þar á móti beri fullar skaðabætur fyrir þá rýrð í tekjum sínum, er hann bíður við það, að menn setji lögbýli ólöglega í auðn, svo að þar sje eigi haldið uppi byggð.

Þó einhverr eigi nokkrar skepnur, og fái sjer einhversstaðar slægjur að fyrir þær, getur hann eigi verið skyldur fyrir það, til að fóðra prestslamb, þó það kunni sumstaðar við að gangast, heldur virðist sem hann verði að hafa einhver föst umráð einhvers jarðarparts fyrir skepnur sínar.

## 43. gr.

### Um afgjald presta af jörðum.

Í fyrndinni gáfu þeir, sem kirkjur byggðu á bæjum sínum, fje til þeirra, þeim til viðhalds og prýði, annaðhvort í löndum eður lausafje, eður í hvorutveggju; og varð hver kirkja að hafa nokkra heimanfylgju; annars leyfði biskupinn ekki, að það yrði kirkja; margir aðrir gáfu og við ýms tækifæri fje til kirkna; kirkjufjeð var í vörzlum þeirra, er kirkjurnar höfðu látið byggja, og erfingja þeirra, og kirkjan með fje sínu skoðaðist að nokkru leyti sem eign þeirra; þeir tóku að sjer tekjur kirknanna, en viðhjeldu þeim og keyptu af prestum að syngja þar helgar tíðir, eður þá hjeldu presta til þess; en

samt höfðu biskuparnir nokkra umsjón yfir kirkjunum. Þegar biskupavaldið óx, heimtuðu biskupar, að leikmenn ljeti með öllu kirkjurnar og kirkjufjen af hendi við sig; en margir leikmenn settu sig á móti því. Þessi *staðamál*, er menn nefndu svo og einkum áttu sjer stað í *Skálholts*-biskupsdæmi, enduðu þannig, að sætt komst á 1297 millum *Eiríks* konungs *prestahatára* og *Árna* biskups *Þorlákssonar* í *Skálholti*, er svo hljóðaði: »að þær jarðir allar í Skálholtsbiskupsdæmi, sem kirkjur ætti, skyldi vera undir biskupsforræði; en þær, sem leikmenn ætti hálfar eður meir, þeim skyldi leikmenn halda með þvílíkum kennimannaskyldum, sem sá hefði fyrirskilt, er gaf, en lúka af ekki framar«. Við kirkjujarðir verður hjer að eins að vera meint til kirkjustaðanna, og eptir þessa sátt fengu leikmenn flestir biskupinum til forráða kirkjur sínar með öllu góðsi þeirra, bæði í löndum og lausum aurum, þar sem kirkjan átti meira enn helming í heimalandi; en hinum hjeldu þeir. Þegar biskuparnir voru búnir að fá staðina, fengu þeir prestunum þá og kirkjueignirnar í ljen, og þetta ljen nefndist *beneficium*. Síðan hafa og ýmsir kirkjustaðir með kirkjueignum á ýmsan hátt lagzt til prestanna.

Þar sem þannig þessar ljenskirkjur eru, er enginn einstakur maður nú lengur á, og menn geta sagt, að eigi sig sjálfar eður að landið eigi handa prestum sínum, er sóknarprestunum veittur kirkjustaðurinn til ábúðar afgjaldslaust, og eins leigur og landskuldir af kirkjujörðunum, og yfir höfuð allur

arðurinn af kirkjufjánum; en þar á móti ber þeim að gæta að því, að það ekki rýrni nje gangi úr sjer. Sumstaðar í þingabrauðum voru prestum skömmu eptir siðaskiptin lagðar jarðir frá stólunum til ábúðar, eður þá af konungi, einkum einhver klausturjörð, og guldu þá prestarnir venjulega eptir þær; en nú eru prestarnir víðast hættir að gjalda eptir þessar jarðir, og hefir afgjaldsins lengi ekki verið krafizt. Í sumum brauðum hafa og nokkrar jarðir verið gefnar prestum til afgjalds, án þess þær hafi verið gefnar kirkjum. Í þeim brauðum, þar sem engin bújörð er ætluð prestinum, og hann enga jörð á þar í sóknunum, má hann, eptir kgs.br. 18. apríl 1761, með aðstoð hjeraðsprófastsins, sýslumannsins og 2 annarra valinkunnra bænda, kjósa sjer til ábúðar einhverja þá jörð í sóknunum, er hvorki eignarmaðurinn býr á nje sýslumaðurinn, nje sá bóndi, sem búinn er að búa þar í 20 ár, og vel hefir setið jörðina, eins á jörðin ekki að vera ljenuð neinum af hinu opinbera. Hafi sá, sem stendur upp fyrir prestinum, goldið festu fyrir jörðina, er presturinn skyldur að borga honum hana, og sýslumaðurinn á að útvega honum aptur aðra hagkvæma jörð. Presturinn á að gjalda eptir jörðina, sem eigandanum ber; sú jörð, sem þannig hefir verið einu sinni útlögð prestum til ábúðar, á síðan að vera bújörð prestanna þar, meðan presturinn sjálfur enga jörð á í prestakallinu.

## 44. gr.

### Gjald frá annexíubændum.

Eptir fyrnefndri sátt Eiríks konungs og Árna biskups frá 1297, áttu leikmenn að halda þá staði, þar sem kirkjan ekki átti meira, enn hálft heimaland, með þeim kennimanna skyldum, sem sá hafði fyrirskilið, er gaf, og lúka ekki af framar. Á þessum kirjustöðum voru í fyrndinni opt haldnir prestar af eigöndunum, er gáfu þeim ákveðið kaup, eður þá, ef kirkjan var ekki svo rík, keyptu þeir messur við og við af næstu prestum. Þegar siðaskiptin komust á, og prestar tóku til að gipta sig, og því ekki gátu lengur notað það, að vera hjá kirkjueigöndunum; þóttust margir kirkjueigendur ekki skyldir til, að fæða þá, úr því þeir ekki vildu vera heima hjá sjer, enda þóttu þeim þeir nú og eiga minna kaup skilið af sjer, enn áður, meðan þeir sungu sálumessur í kirkjum þeirra, og embættisstarfi þeirra allur var meiri. Í þessu þrasi gekk millum klerka og leikmanna, uns 1629, að *Oddur* biskup *Einarsson* ljet dóm ganga á alþingi um einn prest, er kirkjueigandinn ekkert hafði þótzt geta borgað vegna harðinda, er þá gengu; ljetu dómendur í ljósi þá meiningu, að þó menn nú ekki lengur gæti farið eptir því, sem prestum hefði verið goldið í pápisku tíðinni, ætti þeir samt að fæðast af kirkjufjánum, og dæmdu kirkjueigandann skyldan til, að lúka prestinum hálfar leigur, eður 1 fd. smjörs eptir hvert kúgildi, er kirkjan ætti. Þessi dómur fjell flestum prestum og kirkjueigöndum svo vel í

geð, að þeir tóku til að fylgja honum sem reglu fyrir því, hverjar árlegar tekjur prestarnir skyldi hafa af kirkjufjánum frá eigöndum bændakirknanna; og nú er sú regla því nær hvervetna komin á, að prestar fá hálfar leigur eður 1 fd. smjörs eptir hvert kúgildi, sem bændakirkjurnar eiga, og kallast þetta smjörgjald vanalega *prestmata;* og þessari langvinnu reglu getur víst enginn kirkjueigandi riptað nú, þar sem hún er ákomin, þareð kirkjueigendurnir í fyrstu fúsir hafa gengizt undir hana, og eignirnar síðan með þeim kvöðum hafa gengið mann frá manni. Á einstaka stað hefir þó þessi venja eigi fyllilega komizt á, og þar virðist menn eigi hafi rjett til að troða henni upp á kirkjueigendurna.

Þegar kirkjueigendur hafa fengið leyfi til, að fækka hjá sjer kirkjukúgildum, þá hafa þeir opt um leið skuldbundið sig til, að gjalda prestinum eins mikið fyrir því árlega af smjöri, svo tekjur prestanna enga þurð hafa liðið við það; og þegar bændakirkjur hafa einhversstaðar verið lagðar niður, einkum þegar það hefir verið gjört eptir beiðni eigandanna sjálfra eður með samþykki þeirra, hefir jarðeigandinn á stundum eins fyrir því haldið áfram að greiða prestinum árlega sömu prestmötu sem fyrr. Annars er það auðsætt, að þegar bændakirkja einhversstaðar er lögð niður án samþykkis kirkjueigandans, verður þessi tollur að falla niður; en sje það eptir samkomulagi við kirkjueigandann, að kirkjan sje niðurlögð, verður allt að vera komið undir samkomulagi millum hans og stjórnarinnar um tollinn, hvort hann skuli falla niður

eður viðhaldast, og þá hvort allur eður nokkurr. Þar sem sú venja er ákomin, að presturinn árlega fær hjá kirkjubóndanum hálfar leigur eptir kirkjukúgildin, eður laun sín goldin sjer í smjöri, þarf presturinn ekki að taka á móti borgun í öðru enn því, eður þá peningum, sje smjörið eigi til, eptir því verðlagi, sem smjörið það ár hefir í verðlagsskránni; sjá tilsk. 1782, 11. gr.

Auk fyrtaldra tekna prestanna, er og sagt í reglugjörð 1782, 13. gr., að lausamenn eigi að lúka prestinum, auk dagsversks, 24 skk. árlega, og eins mikið kirkjunni. Þó löggjöfin nú hafi gjört mönnum langtum örðugra fyrir, enn fyrr, með að vera lausum, geta menn þar fyrir engan veginn álitið, að löggjafinn með því hafi losað lausamennina, þar sem þeir eru, við þessar skyldur. Þó sagt sje, að lausamenn eigi að lúka prestum, auk dagsverks, 24 skk. þá flýtur þar af engan veginn, að enginn lausamaður eigi að borga þenna toll, nema hann eigi dagsverk að gjalda, heldur sýnist sem reglugjörðin þvert á móti hafi viljað láta hvern þann, sem lauss væri, gjalda presti og kirkju þenna toll, hvort sem þeir svo eptir löggjöfinni ætti að borga meira eður ekki. Eptir tilsk. 1782 giltu 24 skk. hjerumbil 8 fiska, og sýnist nú ætti að borgast annaðhvort í góðum og gildum landaurum, eður þá í peníngum eptir verðlagsskrárinnar meðalverði allra meðalverða.

## 45. gr.
### Um offur.

Í reglugjörðinni 1782, 12. gr., var ákveðið, að á hverri stórhátíð, jólum, páskum og hvítasunnu skyldi biskuparnir og allir konunglegir verðslegir embættismenn, ásamt með umboðsmönnum og klausturhöldurum, og líka ríkir bændur offra prestum sínum; eins skyldi og kaupmenn gjöra það og þjónar þeirra, þeir er full laun tæki, en ekkert tíundaði; en hverr var látinn sjálfráður um það, hvað mikið hann gæfi.

Við kgs.br. 4. júní 1790 var ákveðin upphæð offursins þannig, að sýslumenn, konunglegir þjónar og kaupmenn skyldi í hvert skipti gjalda í offur 4 mörk, en jarðeigendur að eins 1 mark; en aðrir jarðeigendur skyldi ekki vera skyldir að offra, enn þeir, sem ætti í hið minnsta 20 hndr. í jarðagóðsi, eður þá 10 hndr. í jörðum, og að auki tíundaði 10 hndr. í lausafje.

Nú er við tilsk. 27. janúar 1847, 3. gr., ákveðið, að sjerhverr húsbóndi, eður þeir, sem eigi með sig sjálfir, þó þeir ekkert bú hafi (*selvstændige enlige Personer*), og sem eigi 20 hndr. annaðhvort í fasteign eða lausafje, eða þá í fasteign og lausafje til samans, eigi árlega að gefa prestinum í offur ekki minna enn 8 álnir.

Með þessu seinasta lagaboði sýnast engan veginn þeir embættismenn og kaupmenn, er eptir reglugjörð frá 1782 áttu að offra, án tillits til þess, hvað

þeir ætti, losaðir við það, eins og með því heldur engin breyting er gjörð á því, hvað mikið þeir eptir kgs.br. 4. júní 1790 eiga að offra um árið, ef offursskylda þeirra eigi getur byggzt á fjáreign.

Að því leyti þar á móti offurskyldan var bundin við eigur, þá er nú við lagaboðið 1847 orðin talsverð breyting frá því, sem var; þannig er *fyrst* offurupphæðinni breytt, og *í öðru lagi* er offurskyldan byggð á nokkuð öðrum grundvelli, þar hún nú getur byggzt á lausafjáreign eingöngu.

Þó í lagaboði þessu eigi sje ákveðið, að lausafjáreignin skuli vera í tíundarbæru lausafje, mun það samt vera tilgangurinn, því það er auðsætt, að lagaboðið hefir viljað láta eignarupphæðina, er offurskyldan skyldi byggjast á, halda sjer óbreyttri, frá því, sem hún var ákveðin í kgs.br. 1790, en þar var hún ákveðin við tíundina af lausafjenu, og þá tíundaði eigandinn, en eigi leigunauturinn, leigupening sinn. Þegar menn því nú vilja finna, hvort maður eigi svo mikið, að hann sje skyldur að lúka presti offur, ber að draga frá lausafjártíund hans, fyrst leigupening þann, er hann tíundar, og þarnæst ómagafje það, sem hann kann að lúka tíund af. Og að því er upphæð fasteignarinnar snertir, sem kemur manni í offur, þá ber að gæta þess, að þar verður að fara eptir gamla matinu, því nýja matið er eigi löggilt fyrir aðra skatta, sem nú eru, enn tíundina; en ef jörðin hefir ekki hundraðatal eptir gamla matinu, verður rjettast að fara eptir virðingunni, er liggur til grundvallar fyrir nýja matinu, og sjá, hve mörg

hundruð eignin verður eptir henni, samanborinni við dýrleikann á hundraðinu í verðlagsskránni eptir meðalverði allra meðalverða. það getur eigi losað mann við offurskylduna, þó jörð manns sje tíundarfrjáls, en þar á móti virðist engin offurskylda geta byggzt á kirkjueign, þó bændur eigi þær kirkjur, sem eignin liggur til, því eignarrjettur kirkjueigandans yfir góðsinu er þar eigi fullkominn og kirkjan er hinn verulegi eður næsti eigandi þess, og á kirkjugóðs geta engir tollar lagzt eptir reglugjörð 1782, nema það sje með berum orðum gjört í lagaboðum þeim, er um þá tolla hljóða, með því á eignum þessum hvíla og ýmsar álögur í opinberar þarfir, er aðrar fasteignir eru lausar við.

Ef embættismenn og kaupmenn, er eptir kgs. brjefinu 1790 eiga að lúka í offur 4 mörk, þó þeir ekkert eigi, eiga 20 hndr. í fasteign eður tíundarbæru lausafje, ber þeim nú að gjalda offur eptir tilsk. 1847, og þess heldur, sem þeir eptir nefndu konungs brjefi ætíð áttu að gjalda meira í offur, hvernig sem ástatt var fyrir þeim, enn bændur.

## 46. gr.

### Um aukatekjur presta.

Um þær hljóðar einkum tilsk. 27. janúar 1847. Eptir að löggjafinn þar hefir fyrst óskað, að menn vildi láta sjer farast vel við presta sína, er þar talað um, hvað prestum beri fyrir aukaverk þeirra.

1. Er þar ákveðið, að prestum beri fyrir að syngja yfir og kasta moldum á einhvern 6 álnir

(1. gr). þetta gjald nefnist *líksöngseyrir*, og hefir hann einlægt verið 6 álnir. Ef þeir, sem að hinum dauða standa, biðja prestinn að halda líkræðu yfir honum, ber prestinum sómasamleg borgun fyrir það sjer á parti (1. gr.); haldi presturinn líkræðu, og hafi ekki verið beðinn þess, þá getur honum engin borgun borið fyrir það.

2. Fyrir hverja hjónavígslu bera prestum 6 álnir.

3. Fyrir barnaskírn 3 álnir.

4. Fyrir að leiða konu í kirkju 2 álnir. þessi borgun á og án efa að greiðast fyrir það, þó presturinn ekki leiði konuna reglulega í kirkju, þegar hún ekki óskar þess, heldur að eins lýsir því yfir af stólnum, að hún nú í fyrsta sinn komi í kirkju eptir barnsburðinn, o. s. frv.

5. Fyrir barnsfermingu bera prestum 12 álnir.

Við þetta er það aðgætanda, að þær borganir, sem taldar eru undir tölul. 2—5, eru að eins hið minnsta, sem prestum á að borga fyrir þessar gjörðir þeirra, og að prestar mega taka á móti meiri borgun, ef þeim er boðin hún; aptur á móti má prestur ekki heimta neitt fyrir þær, þegar þeir, sem hann gjörir gjörðina fyrir, annaðhvort þiggja af sveit, eður vegna fátæktar hafa verið leystir við að gjalda til sveitar (7. gr.); við þessa síðarnefndu virðast þó ekki verða skildir nema þeir, sem ekki að eins ekkert aukaútsvar til sveitarinnar hefir verið gjört, heldur líka hefir verið gefin eptir þurfamannatíund sín. Með þessu er þó engan veginn bannað prestum,

jafnvel þó þeir að líkindum eigi noti það, að taka á móti borgun af þessum fátæklingum, ef þeim er boðin hún.

Auk þessa er í 1. gr. að því er líksöngseyrinn snertir, sagt, að prestum beri hann ekki eptir sveitarómaga, nema ef afgangur skyldi verða af eigum þeim, er þeir láta eptir sig, þegar búið er að endurgjalda sveitinni kostnað þann, er hún hefir haft þeirra vegna. það, sem mönnum í ómegð er lagt, þurfa þeir ekki að endurgjalda sveitinni, þegar þeir vaxa upp, og það fje verður því eigi tekið af eigum þeirra, er þeir deyja, til sveitanna.

þegar börn þeirra deyja, sem eptir 7. gr. annaðhvort sjálfir þiggja af sveit, eður vegna fátæktar ekkert eru látnir gjalda til sveitar, og börn þessi eru í ómegð, og engar eigur eiga, þá getur prestum enginn líksöngseyrir borið.

Í 2. gr. er sagt, að þegar prestar verði að ferðast í sóknir sínar, til að þjónusta veika, eigi þeir sjálfir að leggja sjer hesta til; en sá, sem lætur vitja prests, á að láta fylgja honum bæði fram og aptur; en þurfi prestar að fara sjóveg, eiga þeir að hafa flutning ókeypis fram og aptur. Sama regla sýnist og verða að gilda, hvenær sem prestur er sóttur, til að gjöra eitthvert embættisverk (sjá tilsk. 30. apr. 1824).

6. Ber prestum fyrir að gegnumskoða reikninga hverrar bændakirkju í prestakalli sínu 3 álnir af sjóði kirkjunnar; þegar kirkjan því ekkert á um-

fram í sjóði, eður stendur í skuld, virðist sem prestum ekkert geti borið fyrir þetta (tilsk. 1847).

Öll þessi gjöld eiga eptir 6. gr. að lúkast í góðum og gildum landaurum eður peningum, eptir hvers árs verðlagsskrármeðalverði á þessum álnum.

7. Fyrir hvern þann, sem prestar setja kúabólu, og sem hún kemur út á, ber þeim eptir kgs.br. 24. marz 1830 úr jafnaðarsjóðnum 12 sk.; þó eiga þeir og fyrir þessa borgun að gefa bóluseðil.

8. Fyrir hvert vottorð úr kirkjubókum, er prestar gefa, bera þeim venjulegast 32 sk., þó ekki af húsmönnum, tómthúsmönnum, daglaunamönnum, vinnuhjúum, eður öðrum áþekkum, nema 16 sk. Ef prestar í vottorðum þessum verða að vitna um fleira, enn eitt atriði, til dæmis: gefa útdrátt af fleirum enn einum stað úr kirkjubók, má hann taka að auk, fyrir hver hin atriðin, sem hann vitnar um, hið hálfa af fyrtjeðri borgun; þó má borgunin fyrir öll atriðin til samans aldrei verða meiri, enn svo, að hún verði helmingi meiri, enn einstakt vottorð kostar (tilsk. 21. desember 1831, 2. gr.); þó er gjörð hjer frá sú undantekning, að fyrir að gefa prestsseðil eður rita á hann, að hann sje sjer sýndur, má prestur að eins taka 6 sk. (3. gr.). Líka eru það ýms vottorð, er prestar verða að gefa borgunarlaust:

*a,* í öllum opinberum málefnum, þegar þeir annaðhvort eptir löggjöfinni eiga að gefa þau eður hlutaðeigandi embættismenn biðja um þau í embættisnafni.

*b,* þegar einhverr ætlar að sækja um eptirlaun, eður

annan styrk af hinu opinbera, og því bíður um vottorðið máli sínu til sönnunar, eður hann þarf á því að halda, til að fá eptirlaunin eður styrkinn sjer borgað.

*c,* þegar hjón vilja skilja, að þeir hafi reynt að sætta þau.

*d,* sem fátæklingar fá hjá þeim, um hvað sem svo vottorðið hljóðar (1. gr.).

Ef einhverr álítur, að prestur hafi tekið of mikla borgun fyrir einhvern vitnisburð, er hann hefir fengið hjá honum, má hann innan 6 vikna klaga það fyrir amtmanni, er þá með úrskurði sínum getur skorið úr því. Ef presturinn tekur of mikla borgun fyrir þessi vottorð, á hann að fá í fyrsta sinni ofanígjöf fyrir það, og gjöri hann það aptur, á að sekta hann allt að 10 rd.

Hjer ætti að sönnu við að tala um gjafapeninga þá, er prestar á fátækustu brauðunum fá, og eins nokkrar fleiri tekjur, er prestar á einstöku brauðum hafa; en þetta er þó með öllu einstaklegs efnis, og sleppum vjer því hjer að tala um það.

## 47. gr.

### Ýms hlunnindi presta, og kvaðir, er á þeim liggja.

Prestarnir eru undanþegnir frá því að lúka konungi nokkra þegnskyldu; þeir borga þannig hvorki skatt, gjaftoll, lögmannstoll, nje manntalsfisk (sjá meðal annars reglug. 1782), og um tíundarfrelsi þeirra til annarra stjetta hefir fyrr verið talað; eins gjalda þeir enga ljóstolla til kirkju, þó mun það

vera meir eptir venju, enn lögum, að þeir gjalda þá ekki, og það getur varla rjettlætzt við reglug. 1782, 4. gr., því ljóstollur er eigi álagður við kgl. lagaboð, heldur kristnarjett, en eptir honum áttu prestar að gjalda hann, sem aðrir.

Þeir verða yfir höfuð ekki skyldaðir til af yfirvaldinu að takast á hendur nein störf nje byrðar, sem ekki eiga skylt við embætti þeirra, og að mestu leyti liggja á almenningi. Þeir þurfa ekki að leggja neinn styrk til, þegar kirkjugarðar eður kirkjuveggir eru byggðir, eður þök lögð á kirkjur, reglug. 1782, 15. gr., nje til þinghúsabyggingar, tilsk. 29. maí 1744, 24. gr. Eptir kgsbrjefi 29. apríl 1776, 8. gr., voru þeir lausir við að taka nokkurn þátt í vegabótum, og með því sú skylda eigi heldur hefir verið lögð á þá í nýju vegalögunum, eins og vegabótaskyldunni þar yfir höfuð eigi hefir verið breytt hið minnsta, eru þeir lausir við alla hluttöku í aðgjörðum aukavega, og vegabótagjaldi til þjóðveganna verður eigi heldur jafnað niður á þá, því það er allt annað, þó prestar sje hafðir með í talinu, þegar verið er að skipta vegabótagjaldinu niður á hreppana.

Og loksins eru þeir við reglugjörð 1782, 4. gr., lausir við að borga nokkra skatta, sem ekki sjerstaklega eru lagðir á þá í þeim konunglegum lagaboðum, sem um slíka skatta eður gjöld hljóða, og eptir því virðast þeir og ætti að vera lausir við að gjalda til jafnaðarsjóðanna af lausafje sínu, fyrst þeir eigi sjerstaklega eru nefndir til þess í tilskipun 6. júní 1853. Á það hefir áður verið drepið, að þeir gæti

vænt sjer gjafsóknar í málum, er snerti embættisrjettindi þeirra.

Aptur á hinn bóginn liggja þó nokkur útgjöld og byrðar á prestum í almennar þarfir; þannig eiga þeir sem hverjir aðrir, að borga tíund af fje sínu til fátækra, sem áður er ávikið, og eins má leggja á þá aukaútsvör til sveitar, og setja þeim niðursetninga, reglug. 1782 og 8. janúar 1834. Ef þeir halda bú, verða þeir að senda menn í fjallgöngur á haust, láta leita grenja í landareign sinni og borga dýratolla. Af útibúum sínum verða þeir að gjalda tíund, eins og áður er sagt, til allra stjetta, og eins mun það viðgangast nú, að þeir gjaldi til niðurjafnaðarsjóðsins af fje því, er þeir tíunda, og loks, ef þeir eru jarðeigendur, ber þeim að gjalda sem öðrum jarðeigöndum alþingistoll af fasteign sinni og aðrar kvaðir, sem beinlínis eru lagðar á fasteignir.

Af sumum brauðum eiga prestar árlega að borga ákveðna peningaupphæð til uppgjafapresta og prestsekkna, er þeir eiga að vera búnir að senda prófföstum innan loka maímánaðar hvert ár; og eins eiga þeir, sem veitt er brauð, að borga lítið eitt til prestsekkna; og skal um þetta atriði seinna verða talað nokkuð nákvæmar.

## 48. gr.

### Um prestaköll, er þau verða laus.

Prestaköll verða laus:

1. þegar presturinn þar deyr;
2. ef hann fær annað prestakall eður embætti;

3. ef hann segir af sjer, og fær þannig lausn;
4. ef hann með dómi verður dæmdur frá embætti, eður honum er vikið frá því með konunglegum úrskurði.

Vjer höfum hjer að framan leitazt við að sýna, að prestar, þó þeir ekki hafi nema stiptamtmanns- og biskupsveitingu fyrir brauðum sínum, verði eigi sviptir embættum aptur með neinum yfirvalda úrskurðum.

Þegar mál er höfðað gegn einhverjum presti, til að hafa fyrirgjört embætti sínu, eður ef málið er þess eðlis, að hann ekki getur verið við embætti, ef hann fjelli á því, og líkur ganga gegn prestinum, þá verður biskupinn að vísu að víkja honum frá embætti um tíma, meðan á málinu stendur; en hvort presturinn missir alveg embættið, svo brauðið verði laust, er þó komið undir dóminum eður endalokum málsins.

Þegar eitthvert brauð verður laust af þeim orsökum, sem biskupinum þegar ekki eru kunnar, svo sem við lát einhvers prests, á prófasturinn að segja biskupinum frá því hið fyrsta; en um lát prófasta rita sýslumenn biskupi. Undir eins og biskupinn hefir fengið áreiðanlega vissu um, að brauðið sje laust, gjörir hann það heyrum kunnugt með opnu brjefi, sem fest er upp á stað nokkrum í Reykjavík, svo þeir, sem vilji, geti sótt um það. Brjef þetta er ekki tekið ofan aptur, fyrr enn eptir 6 vikur, því fyrr má eigi veita brauðið (tilsk. 19. janúar 1742), og eiga öll bónarbrjef um brauðið, ef stiptamtmaður og biskup

eiga að veita það, að vera komin til biskups fyrir þann tíma; þar eptir er brauðið veitt hið fyrsta; en sje brauðið eitthvert þeirra, er konúngur hefir áskilið sjer sjálfum að veita, þá er því og þar að auki slegið upp í Kaupmannahöfn í 6 vikur, áður enn það er veitt.

Um það, hvernig fara skuli með prestslega þjónustu í brauðinu, meðan það er laust, og hverjum beri tekjurnar af því á meðan, hljóðar tilsk. frá 6. janúar 1847.

Þar er boðið, að prófasturinn eigi að sjá um, að hinir næstu prestar þjóni brauði, er það losnar, og þangað til hinn nýi prestur kemur til brauðsins, eður að einhverr, sem prestsvígslu hefir, verði settur til þess; þó má eptir 1. gr. prestur sá, sem fengið hefir annað brauð, ætíð halda áfram að þjóna til næstu fardaga því brauði, sem hann ætlar frá, svo prófasturinn þarf þá ekki að skipta sjer af þjónustugjörðinni þar á meðan.

Enginn, sem veitt er nokkurt brauð, hefir heimting á að fara til þess, fyrr enn í næstu fardögum, eptir að það losnaði, sjá 1. og 3. gr.; en þá á hverr sá, sem brauðið hefir verið veitt, að fara til þess, eður ef hann af einhverjum orsökum, ekki hefir getað það svo snemma, eður ef honum hefir verið veitt það eptir fardagana, þá hið allra fyrsta, sem honum er unnt; þó er hjer frá gjörð undantekning með þann, sem áður er prestur í einhverju öðru brauði, og ekki er veitt brauðið fyrr enn eptir fardagana; því, ef hann vill, þarf hann þá ekki að fara

til þessa síns nýja brauðs, fyrr enn í næstu fardögum, eptir að hann fjekk veitinguna fyrir því, sem þá verða aðrir fardagar frá því brauðið, sem hann á að fara til, losnaði; en vilji hann þetta, verður hann undir eins að láta prófastinn þar, sem brauðið liggur, er honum er veitt, vita þessa fyrirætlan sína, svo prófasturinn geti sjeð um, að því verði þjónað af öðrum, uns hann kemur.

Reglur tilskipunarinnar fyrir því, hverjum beri tekjurnar af brauðinu frá því það losnaði, og þangað til nýr prestur kemur til þess, eru þær:

1. Að allar tekjur prestakallsins, frá því það losnaði og til næstu fardaga þar eptir, bera þeim presti, sem frá fer, eður ekkju hans og dánarbúi, 1. gr.;

2. Allar þær tekjur þar á móti, sem falla eptir þann tíma, bera presti þeim, sem fær brauðið, hvort sem það er veitt honum fyrir eða eptir fardagana, 2. gr.

Af hinu fyrsagða leiðir, að þegar presti er veitt annað brauð, en eigi fyrri enn eptir fardaga næstu eptir að það losnaði, bera honum það fardagaár bæði tekjurnar af þessu brauði, sem honum þá er veitt, og eins af því, sem hann fer frá, en verður þó aptur að kosta prestsþjónustu í öðru hvoru brauðinu.

*Ef prófasturinn verður að sjá um, að brauðinu sje þjónað af öðrum,* þá á kostnaður sá, er þar af leiðir, að borgast af þeim, er tekjurnar bera, þannig: að

*a, Þeir, sem þjóna brauðinu, frá því það*

*losnar og til þess í næstu fardögum eptir*, fá endurgjald þar fyrir af tekjunum, er verður að skiljast svo, að þeir eigi af þeim að fá bæði kostnað sinn borgaðan, og þar að auki ríflegt endurgjald fyrir starfa sinn; þó ef einhverr prestur, sem veitt hefir verið annað brauð, en fengið hefir fyrst veitinguna eptir næstu fardaga, eptir að það losnaði, fer til þessa nýja brauðs sins þá þegar, þá fær sá, sem prófasturinn setur til að þjóna brauðinu, sem presturinn fer frá, eptir tilsk. 3. febr. 1836 IV helminginn af brauðsins föstu og lausu tekjum fyrir þann tímann af fardagaárinu, sem hann þjónar því, að frádregnum fyrst kostnaði þeim, er hann verður að hafa, til að þjóna brauðinu.

b. *Þeir þar á móti, sem þjóna brauðinu frá næstu fardögum eptir að það losnaði*, og þangað til nýi presturinn kemur, eiga ætíð að fá borgun eptir tilsk. 3. febr. 1836, kap. IV.; þyki kostnaðurinn of hátt metinn, má bera það undir biskupinn, sem einn hefir vald á að skera úr því.

Frá þessum reglum, hverjum beri tekjur af brauði, frá því það losnar og til þess það er veitt, verða þó að gefast undantekningar:

*a*. þegar mál er höfðað móti einhverjum presti, og honum, meðan á málinu stendur, hefir verið vikið frá embætti, fær hann hálfar tekjurnar, sem eptir verða, þegar kostnaður allur er frádreginn; sjá tilskip. 3. febr. 1836 IV. En ef málið nú gengur á hann, svo hann missi embættið, verður hann strax frá dómsins uppsögn að missa allar tekjurnar; og

þeir, sem þjóna brauðinu í millibilinu frá því það þannig losnar, eður frá dómsins uppsögn og til næstu fardaga eptir, að fá allar tekjurnar fyrir þennan tíma óskertar. Þetta leiðir beinlínis af sjálfu sjer, og það er auðsætt, að löggjafinn hvorki hefir haft þetta tilfelli fyrir augum í 1. gr., nje heldur það, ef prestsurinn er settur frá með konunglegum úrskurði, er og, ef til vill, aldrei mun koma fyrir; þó virðist mikil ástæða til, að heimfæra tilskipunarinnar boð, að því er tekjurnar snertir, upp á þetta seinna tilfelli, ef ekki er öðruvísi ákveðið í úrskurðinum sjálfum.

*b*. Beri svo við af einhverjum ástæðum, er átundum má verða, að brauð eigi verði veitt á hinu næsta fardagaári eptir að það losnar, og að það standi óveitt svo árum skiptir, getur presti þeim, sem brauðið þá næst verður veitt, eigi borið tekjur af því í öll þessi ár, eður frá lengri tíma enn næstu fardögum áður honum var veitt brauðið, heldur verða allar tekjurnar á þessu millibili að bera þeim, er gegna embættinu, þó þeir eigi hafi veitingu fyrir því.

Hjer að framan hefir verið talað um það, að við prestaskipti eigi ætíð að taka brauðið út af presti þeim, sem frá fer, eður erfingjum hans í hönd þeim tilkomanda presti.

## 49. gr.

### Eptirlaun presta.

Þegar söknarpresturinn enga næga forstöðu getur lengur veitt embætti sínu, annaðhvort vegna

ellihrumleika eður langvarandi veikleika eður lasleika, verður hann að segja því af sjer, eður sækja um lausn frá því; en þó hann þannig verði að fara frá embættinu, fær hann af konungi engin eptirlaun, heldur að eins af tekjum prestakallsins. Um leið og hann sækir um lausnina, er hann verður að biðja konung um, ef brauðið er eitt af þeim, sem hann veitir, en annars stiptamtmanninn og biskupinn, verður hann og að sækja um eptirlaunin; prófasturinn með tveim sóknarprestum ákveður þau venjulega eptir fyrirmælum NL. 2—14—1, og eru þau venjulega þriðjungurinn af embættisins föstu tekjum, og stundum einhver hlunnindi að auk, einkum ef brauðið er ríkt. Ef presturinn ekki er hrumari eða lasnari en svo, að hann geti veitt embætti sínu nægą aðstoð, með því að taka kapellán sjer til styrktar, getur hann ekki fengið nein eptirlaun.

Auk eptirlauna þessara, er uppgjafaprestar fá af brauðunum, er árlega skipt á meðal þeirra peningatillagi því, er prestarnir á betri brauðunum eiga að greiða á ári hverju til uppgjafapresta; þó eiga engan þátt að fá í þessum styrk þeir uppgjafaprestar, sem vel fjáðir eru; sjá kgs.br. 16. febr. 1748.

Og loks verða menn að álíta, eins og fyrr hefir verið sagt, að uppgjafaprestur ekki missi hlunnindi þau gegn hinu opinbera, sem lögin hafa veitt prestsstjettinni, og getið hefir verið hjer að framan í 45. gr.

## 50. gr.

### Um prestsekkjur.

1. Hefir prestsekkjan, eptir tilsk. 6. jan. 1847, ef maður hennar deyr eptir jólin, rjett til að búa á hálfu prestssetrinu afgjaldslaust hið næsta fardagaár þar á eptir; en þá verður hún að flytja burt þaðan; þessi rjettur ber henni þar á mót ekki, ef maður hennar deyr fyrir jólin, því þá verður hún í næstu fardögum á eptir að flytja í burt af prestssetrinu.

Þegar prestsekkja verður að flytja burt af prestssetrinu, má hún eptir kgs.br. 5. júní 1750 flytja á hverja sem hún vill af jörðum þeim, sem liggja þar undir prestakallið; en sje þar engin jörð, er liggi undir prestakallið eða kirkjuna, má hún flytja á einhverja jörð í næsta brauði, sem liggur þar undir prestakallið eður kirkjuna, og henni er hentug; og sje þar heldur engin slík jörð, þá á sýslumaðurinn og hreppstjórinn að losa handa henni einhverja jörð í því brauði, sem maður hennar var prestur í, en þar við er án efa að eins átt við það prestakall, sem hann var prestur í, þegar hann dó; og gilda um það hjer um bil sömu reglur, sem um það, þegar losa verður jörð handa presti; þó er þar sagt enn fremur, að hvorki fátækar ekkjur nje meðhjálparar presta þurfi að standa upp fyrir prestsekkjum.

Það er auðsætt af samanhenginu í tilskipuninni sem og því, að hið opinbera eigi hefir meiri umráð yfir byggingu á jörðum, er liggja undir bændakirkjur, enn yfir byggingu á annarri fasteign bænda,

að þar sem tilskipunin nefnir kirkjujarðir, á hún að eins við ljenskirknajarðir.

Eptir jörðina á ekkjan að gjalda sem hverr annarr. Ef jörðunni fylgja einhver hlunnindi, svo sem skógur, útræði eður reki, má prestsekkjan ekki nota meira af þeim, enn hún þarf að hafa til sinna eigin nota og sjer til framfæris; hitt, sem hún ekki þarf sjálf á að halda, má presturinn eptir þörfum nytka sjálfur, og þá eins sjálfsagt jarðeigandinn, ef þurft hefir að losa einhverja bændaeign handa henni. Ekkjan á á sinn eiginn kostnað að halda jörðinni við bæði að húsum og öðru, ef hún er svo efnug, að hún geti það, og verður því þá án efa að svara henni með fullu álagi, þegar hún fer þaðan; en sje hún svo fátæk, að hún geti ekki haldið henni við að húsum, þá á presturinn eður jarðeigandinn (ef þurft hefir að losa bændaeign handa henni) að leggja til viðu þá, sem þurfa; en bændurnir í sókninni að starfa allt að torfverkunum, og fyrir það eiga þeir ekki að fá annað en fæðið.

Hreppstjórinn á árlega að skoða jörðina, sem ekkjan býr á, gæta að því, sem af sjer gengur, og segja ekkjunni að vera búinni að gjöra við það innan tiltekins tíma; sje þetta á sanngirni byggt, og ekkjan svo efnuð, að hún geti gjört við því, en hafi þó þrisvar sinnum óhlýðnazt þessu boði hreppstjórans, missir hún ábúðarrjettinn og eins mikið af styrk þeim, sem hún fær af brauðinu, sem afgjaldinu af jörðunni nemur. Vanræki hreppstjórinn að

hafa nægilegt eptirlit með jörðinni, stendur hann í ábyrgðinni fyrir því, ef jörðin níðist niður.

2. Á prestsekkjan að fá eptir tilsk. 6. jan. 1847 fyrsta fardagaárið, eptir að maður hennar deyr, einn fjórða partinn af brauðsins föstu tekjum; en til þeirra eiga eptir tilskipuninni að eins að teljast gjöld af fasteign þeirri, er liggur undir prestakallið, heytollar, dagsverk, tíundir bæði af fasteign og lausafje, prestsgjald af klaustrum og prestmata af útkirkjum. Þó tekjur þessar þannig sje einskorðaðar, má þó án efa telja og til þeirra tolla þá, er lúkast af nokkrum jörðum til presta, og með öndverðu hafa verið prestmata af útkirkjum, sem nú eru lagðar niður, því þeir eru einmitt eptirleifar af gömlum prestmötum, og er því öll ástæða til að halda, að löggjafinn hefði talið þá með, ef hann hefði munað eptir þeim, þar eð sama regla virðist ætti að gilda um þá, og prestmötur aðrar, en með því tollar þessir eru svo óvíða, gat löggjafanum auðveldlega dottið úr minni, að telja þá.

Þegar þetta fyrsta ár er úti, eiga ekkjurnar eptir kgs.br. 1750 í sumum brauðunum að fá fastákveðinn styrk af þeim á hverju ári, en í hinum minnstu þeirra fá þær engan; þessi styrkur er þó misjafn, eptir því sem brauðin eru góð; í beztu brauðunum fær ekkjan áttunda partinn af brauðsins föstu tekjum, í hinum betrum meðalbrauðum tíunda partinn, og í hinum lakari þeirra, eður sem metin eru 50 rd. til 60 rd., tólfta partinn. Áður en tekjunum er skipt millum prestsins og ekkjunnar, á að draga frá það,

sem af brauðinu á að borga til uppgjafaprests. Ef fleiri ekkjur eru í einhverju brauði, enn ein, þá á að skipta eptir ákvörðun prófastsins styrknum milli þeirra. Ekkjur uppgjafapresta hafa engan rjett til þessa styrks.

3. Eiga allir sóknarprestar, nema þeir, sem eru á minnstu brauðunum, að gjalda árlega fastákveðinn styrk í peningum til prestsekkna, og þessum styrki þeirra er aptur skipt upp millum prestsekknanna; sjá kgs.br. 1750.

4. Eru úr konungssjóði veittir prestsekkjum árlega 300 rd., sem og er skipt upp millum þeirra (kgs.brjef 13. maí 1785). Ekkjur presta á beztu brauðunum fá ekkert af þessum peningum; en þar á móti fá hlutdeild í þeim ekkjur uppgjafapresta og eins kapellána (kanselíbréf 18. apr. 1818).

5. Allar sektir, sem prestar falla í, hera prestsekkjum, og á hlutaðeigandi prófastur að senda þær biskupi, og þær skiptast millum prestsekkna (kgs.br. 1750).

6. Þegar einhverr andlegrar stjettar maður fær konunglegt leyfi til að giptast í forboðna liðu, eður uppreisn af legorðs- eður hórdómsbroti, á hann að borga þóknun til prestsekkna, er biskup ákveður kgs.br. 1750.

7. Eiga allir þeir, sem eitthvert brauð er veitt, sem metið er 30 rd. eða meira, að borga nokkuð til prestsekkna, sem þó er misjafnt, eptir því sem brauðin eru góð, og mega prófastar eigi fyrr setja

þá inn, enn þeir hafi gjört það. Eins þeir, sem fá rektorsembætti eður kennaraembætti við skólann, og

8. Mega menn álíta prestsekkjur njóti hinna sömu rjettinda gegn hinu opinbera, sem menn þeirra höfðu, og getið er hjer að framan.

## 51. gr.

### Um laun prófasta og ekkjur þeirra.

Í brjefi til hirðstjórans hjer á landi frá 6. maí 1617 gjörði konungur ráð fyrir, að í hverju hjeraði væri fastákveðið brauð, er sá hefði, sem prófastur væri þar, og óskar hann að hirðstjórinn vildi sjá svo til, þegar einhverr prófastur dæi, að einhverr vænsti og merkasti presturinn aptur yrði kosinn í hans stað, og fengi brauðið eptir hann. Með því það nú hafði verið venja að veita prófóstunum beztu brauðin í prófastsdæmum þeirra, þegar þau losnuðu, án þess þó nokkurt eitt brauð þar væri öðru fremur ætlað prófastinum, var þetta skilið svo, að prófastar ætti að ganga fyrir öllum öðrum, þegar þeir sækti um eitthvert brauð, er losnaði í prófastsdæmi þeirra, eins og það og virðist leiða af sjálfu sjer, að sá presturinn, sem settur er til að vera yfir öðrum prestum, sje álitinn merkari, og því verðugri til að fá brauð, enn hverr hinna, sem undir hann eru settir. Auk þess sem prófastarnir þannig hafa aðgang til beztu brauðanna, þegar þau losna, hverr í sínu prófastsdæmi, hafa þeir að auk nokkur laun fyrir starfa sinn, þó þau sje ekki stór. Um rjett þeirra til að gefa saman og syngja yfir andlegrar stjettar mönnum í prófastsdæmi sínu,

er fyrrtalað; eins eiga prófastar að fá í hvert skipti, sem þeir *visitera* einhverja kirkju, 20 álnir hjá henni, ef hún frá árlegum nauðsynjagjöldum sínum hefir umfram 12 rd. eður meira; en sje hún ekki svo rík, á prófastur að eins að fá 10 álnir af henni, tilsk. 27. janúar 1847. Fyrir að setja presta inn, hefir kansellíið í brjefi 15. júní 1830 sagt, að löng venja hafi verið að borga prófföstum spesíu af kirkjunni. Fyrir úttekt prestsetra ber þeim 1 rd. fyrsta daginn, 64 sk. annan, og 32 sk. hinn þriðja, og svo eigi meira, nema hvað þeir eiga að vera fæddir kauplaust, á meðan úttektin varir, tilsk. 24. júlí 1789, 6. gr.

Prófastaekkjur hafa engan meiri rjett, en ekkjur annarra presta.

## 52. gr.

### Um laun biskups og biskupsekkna.

Biskupinn hefir nú ákveðin laun úr konungssjóði, eins borgun fyrir skrifstofukostnað, og húsaleigustyrk.

Þegar hann er á yfirreiðum sínum, fær hann borgun fyrir hvern þann dag, sem hann er burtu, og að auki öll útgjöld sín borguð eptir opnu brjefi 10. febr. 1847. Ef hann skyldi verða að segja af sjer vegna lasleika, ber honum eptirlaun úr konungssjóðnum eptir lögunum um eptirlaun embættismanna.

Biskupar varir eru og hafa ætíð verið lausir við öll gjöld til allra stjetta, og öll þau hlunnindi, er klerkum bera yfir höfuð, bera þeim í fyllsta máta. Þó eiga þeir að gefa árlega til prests, kirkju og fátækra, en mega sjálfir ráða, hve mikið þeir láta það vera,

og, síðan biskupinn nú flutti til Reykjavíkur, hefir verið jafnað á hann bæjargjaldi sem stiptamtmanninn. Af jarðagóðsi sínu verða þeir að borga þá skatta og tolla, sem lagðir eru á fasteignir, og ef þeir hafa útibú, verða þeir nú, eptir reglugjörðinni 1782, að gjalda tíundir af fje því, er þeir þar hafa, þó eigi konungstíund. Biskupum ber og, sem öðrum konunglegum embættismönnum, eptir opnu brjefi 31. maí 1855, að sjá ekkjum sínum borgið á lögboðinn hátt með fjárstyrk eptir sinn dag, og hafi þeir því lagt fje í lífsábyrgðarsjóðinn handa þeim, fá þær við lát þeirra árlega ákveðinn styrk þaðan, og eins ber þeim, sem öðrum konunglegra embættismannaekkjum árlegur styrkur úr konungssjóði. Ekkjur þeirra verða og að njóta sömu hlunninda, sem menn þeirra nutu.

Með konungsúrskurði 21. sept. 1824 var ákveðið, að biskupsekkja skyldi hafa helming biskupslaunanna frá dánardægri mannsins hennar, og unz nýr biskup væri útnefndur; en sá, sem meðan gegndi biskupsstörfunum, skyldi hafa hinn helminginn; en úr því nýr biskup væri útnefndur, bæri henni ekkert af þeim.

## 53. gr.

### Um hluti lagða til guðsþakka.

Við opinbera guðsþjónustu þurfa menn að halda á ýmsum hlutum, svo hún geti fram farið sómasamlega og með þeirri virðingu, er guðdóminum sje samboðin. Þessir hlutir nefnast *helgir* eður *heilagir*, og telja menn þar til fyrst og fremst *kirkjuna sjálfa*, *altarið*, *klukkurnar* og þau *ker kirkjunnar*,

sem höfð eru til helgra gjörða, og kirkjunnar *ornamenta* eður hluti þá, er hún á innan um sig sjer til prýðis; einnig telja menn hjer til *kirkjugarðinn*. Þetta, er menn þannig hafa til guðsþjónustugjörðar, mátti í pápiskri tíð eigi gjörast að eign manna, nje því ganga kaupum og sölum, og var margt af því vígt um leið, og menn lögðu það til guðsþjónustugjörðarinnar, einkum kirkjurnar, kirkjugarðarnir og klukkurnar. Þegar einhver kirkja var vígð, var árdagur sá úr því einlægt haldinn helgur sem stórhátíð þar í sókn, og nefndur *kirkjudágur*. Ef einhver kirkja var fallin, og var byggð á ný, var hún og aptur vígð; og ef kirkjan eður kirkjugarðurinn hafði verið saurgað með heiptarblóði, svo sem ef víg eður manndráp hafði verið framið þar, mátti ekki messa í kirkjunni, nje grafa í kirkjugarðinum, fyrr en búið var að hreinsa þau, og vígja á ný.

Hjá Mótmælöndum eru að sönnu nýjar kirkjur vígðar í fyrsta sinni, er guðsþjónustugjörð er haldin í þeim, og stundum þegar kirkjan er nýbyggð, og eins nýir kirkjugarðar; en slík vígsla er gjörð í allt annarri veru, enn hjá pápiskum. Um serimóníur þær, er þá skal viðhafa hjá oss, er talað í handbók presta.

Ný kirkja getur ekki stofnazt í pápiskum löndum, nema með biskupsleyfi; en í löndum Mótmælanda verður hún að stofnast með leyfi landshöfðingjans; hjer á landi eru þó dæmi til allt fram að 1700, að nýjar kirkjur hafa verið reistar að eins með biskups leyfi.

Að gjöra eitthvað til háðungar við helga hluti, er refsingarvert, eins og sá glæpur er refsingarverðari enn ella, þegar helgi þeirra um leið er eitthvað misboðið.

Auk fyrtjeðra helgra hluta, sem beinlínis eru hafðir til opinberrar guðsþjónustugjörðar, verða menn og að leggja fje til hennar, að fá staðizt kostnað þann, er af henni rís, því annars gæti hún ekki staðizt til lengdar eður viðhaldizt. Fje það, er í þessari veru er til kirkna lagt, nefnist *kirkjufje*, og getur það annaðhvort verið fasteign eða lausafje, og lausafjeð aptur þvíumlíkt, að það annaðhvort gefi arð af sjer eða engan arð; hjer með geta og kirkjunni verið lagðar aðrar tekjur.

Og loks geta hlutir verið lagðir til guðsþakka, þó þeir ekki sje hafðir við opinbera guðsþjónustu, eður lagðir til kirkna, þegar þeir þó eru lagðir til þvílíkra stofnana, er gjörðar eru í mildiríku skyni; slíkar stofnanir voru í pápiskri tíð að mestu leyti undir forsjá hinna andlegu, og giltu að miklu leyti sömu reglur um fje þeirra sem um kirknafjen, og eimir enn nokkuð eptir af því hjá oss. En með því þó þessar síðarnefndu stofnanir ekki standa í neinu beinlínis sambandi við trúarbrögðin, nje eru nú lengur undir umsjón hinna andlegu, skal hjer sleppt að tala um þær. Allir þessir 3 fyrtjeðir flokkar af hlutum nefnast opt einkum meðal pápiskra manna sameiginlegu nafni, og allt þetta fje kölluðu menn hjer á landi í fornöld, að væri lagt til guðsþakka.

## 54. gr.

### Um kirkjur.

Eins og getið var í næstu grein hjer á undan, geta kirkjur bæði átt fasteign og eins lausafje, og eins geta þeim verið lagðar aðrar tekjur, og á allt þetta sjer stað hjer á landi. Kirkjur hafa því, sem slíkar stofnanir, bæði rjettindi og skyldur, að því er fjármuni snertir.

Að því er eignarrjett kirkna áhrærir, þá er hann í rauninni hvorki meiri nje helgari, enn hverr annarr eignarrjettur er í sjálfu sjer, og sama er um önnur rjettindi þeirra, að þau ekki eru helgari fyrir það, þó þau beri kirkjum, enn öðrum; samt er boðið í erindisbrjefi biskupanna frá 1. júlí 1746, 16. gr., að til þess að komast hjá öllum þrætum, er af skorti áreiðanlegra skilríkja megi rísa um eignir kirknanna, rjettindi þeirra og kúgildi þau, er standa á eignum prestakirknanna og bændakirknanna, skuli í Skálholts-biskupsdæmi *Vilkins* biskups máldagabók frá 1397 og í Hólabiskupsdæmi máldagabækur þeirra Jóns biskups Eiríkssonar frá 1360, Pèturs biskups frá 1394, Auðunnar biskups frá 1398 (á að vera 1318) og Ólafs biskups Rögnvaldssonar frá 1461, og eins kirknaregistur eður máldagabók sjera Sigurðar (á Grenjaðarstað, sonar Jóns biskups Arasonar), er samin er eptir siðaskiptin, vera álitnar áreiðanlegar og *authentiskar* (frumrita ígildi) máldagabækur í Skálholts- og Hólabiskupsdæmum, og skuli eptir þeim dæma og útkljá allar þrætur um eignir kirkna og rjettindi þeirra; og með

kgs.br. frá 5. apríl 1749 er einn fremur Gísla biskups Jónssonar máldagabók frá 1575 fullgilt, og þar ákveðið, að þó ekki sje nema ósannað eptirrit af henni til í stiptskistunni í Skálholti, skuli þó eptirrit það gilda sem áreiðanleg og authentisk máldagabók (sumsje áreiðanlegs frumrits igildi) í Skálholtsbiskupsdæmi; samt skuli vera farið eptir því, er boðið sje í erindisbrjefi biskupa, 16. gr.

Það virðist þannig sem löggjafinn, til að bjarga úr skorti þeim á skilríkjum, er margar kirkjur hafa fyrir eignum og ítökum sínum, hafi viljað, að máldagabækur þessar skyldi álítast *sem væri þær áreiðanleg heimildarskjöl kirknanna*, og eins máldagabók Gísla biskups, þó ekki væri til nema óstaðfest eptirrit af henni í stiptskistunni, og svo skyldi dómstólarnir álíta þær í dómum sínum, án þess þó að löggjafinn með þessu lagaboði sínu hafi *viljað leggja undir kirkjurnar annarra manna eigur*, ef það yrði nægilega sannað, að eitthvað, sem einhverri kirkju í máldögunum væri eignað, ekki lægi undir hana með rjettu. Máldagabækur þessar er því rjettast að álíta ekki sem *lagaboð*, heldur sem *heimildarskjöl*, og að um þær hljóti því að gilda hinar sömu reglur, ef önnur heimildarskjöl skyldi fram koma gegn þeim, sem gilda, þegar tvö eður fleiri heimildarskjöl eru hvort á móti öðru, og eptir líkum hætti verða menn og að dæma það, þegar máldagabókunum ekki ber saman hverri við aðra. En af þessu leiðir þá og, að menn verða að viðurkenna, að ýmsar kirkjur geti átt ýmsar eignir eður ítök, þó

þess sje ekki getið í máldagabókum þessum, með því og sumar þeirra geta verið komnar undir kirkjurnar eptir að máldagabækurnar voru gjörðar; og eins á hinn bóginn er það vel hugsanlegt, að ekki liggi allt það undir kirkjurnar, sem þeim er eignað í máldagabókunum, og að önnur skjöl geti nægilega sýnt það; og sömuleiðis, að margt geti, síðan máldagabækurnar voru samdar, verið gengið undan þeim á löglegan hátt. Að löggjafinn hafi sjeð þetta hvorttveggja sannar og ljóslega það, er undir eins á eptir stendur í nefndri lagagrein, þar sem svo er að orði kveðið: »en komi nokkurr fram með langvarandi hefð, yfir 100 ár, eður og þvílík brjef og skjöl, sem auðsjáanlega sýni, að nokkur eign, ítök eður kúgildi ólöglega sje komin undan kirkju, sem henni er eignað í fyrtjeðum máldagabókum, eður og síðan hefir verið lagt til hennar, skal stiptamtmaður vor og hlutaðeigandi biskup dæma um þessa hefð og hið framkomna skjal, áður en dæma megi eptir því«. Það hafa að vísu sumir viljað draga út af þessum lagastað þá ályktun, að menn ekki gæti hefðað undan kirkjum nema með 100 ára notkun; en þetta virðist þó vera misskilningur tómur, því hjer virðist ekki vera verið að tala um neina hefðun *frá kirkju*, eður undan henni, heldur virðist sem rjettur skilningur greinar þessarar sje sá, að eptir að löggjafinn í fyrra kafla hennar hefir gefið máldögunum sama gildi, sem áreiðanleg og frumrituð heimildarskjöl annars hafa, fer hann í seinna hlutanum að tala um það: *fyrst,* hvernig fara skuli fyrir kirkjum, þegar

svo beri undir, að þær hafi engi skjöl eður máldaga fyrir einhverju að styðjast við, en hafi þó langvaranlega notkað það (»komi einhverr fram með langvarandi hefð, yfir 100 ár«, sumsje fyrir rjetti einhverrar kirkju til einhverrar eignar eður ítaks o. s. frv.), og *síðan*, hvernig fara skuli fyrir þeim, þegar þær ekki njóta einhvers þess, sem máldagarnir þó eigna þeim, eður sem þær seinna mega hafa fengið, en þær þó hafa slík skjöl og skilríki að styðjast við, er auðsjáanlega sýnast lýsa því, að þetta sje með órjettu undan þeim gengið (eður og þvílík brjef og skjöl, sem auðsjáanlega sýni, að nökkur eign ólöglega sje komin undir kirkju, er nefndar máldagabækur eigna þeim, eður þeim seinna sje lagðar). Í báðum þessum tilfellum hefir löggjafinn viljað, að áður enn kirkjan flæktist inn í mál út af slíku, skyldi stiptsyfirvöldin fyrst rannsaka, hvernig fyrtjeðri notkun kirkjunnar væri varið, eður hvað áreiðanleg þessi skjöl hennar væri, því að ef stiptsyfirvöldin áliti, að þessi gögn ekki gæti verið kirkjunni að liði, þá mætti sleppa hinu umþráttaða án dóms, er ekki mætti viðgangast, ef þeim þætti gögnin góð. Þannig var og þetta lagaboð skilið fyrst eptir að það útkom, og rituðu þá ástundum á alþingi amtmaður, biskup og lögmenn á skjöl forn, er kirkjur áttu fyrir eignum sínum og þar voru fyrir þá lögð, að þau skyldi álítast sem frumrit, og fjell þá án efa við það optast þrætan niður, þar eð þeir, er á móti voru, eigi vildu þá halda málinu lengur fram. Það er og fráleitt að hugsa, að þetta bendi til þess, að til þess

að hefða undan kirkjum, þarfi 100 ára notkun, eður að skilja greinina svo, er sumir þó gjöra, að þegar einhverr komi fram gegn kirkju með 100 ára hefð, eður þau skilríki, er auglióslega sýni, að einhverr eign ólöglega sje komin undan kirkjunni, skuli stiptamtmaður og biskup dæma um, hvort hefð þessi og skjöl sje rjett, áður enn dómstólarnir megi dæma í málinu, því meðal ótal annarrar vitleysu, er af þessu leiddi, væri það ein, að löggjafinni setti við hliðina hvort á öðru sem hjer um bil jafnsterk sönnunargögn, *hundrað ára hefð* eður notkun og *skjöl, er auglióslega sanni, að manni eigi beri hið umþráttaða*.

Þess ber annars að geta, að menn nú eigi hafa máldagafrumritin sjálf, og eru þau líklega glötuð, nema Sigurðar-registur, sem enn er til á skinni við biskupsdæmið. Af máldagabókum Hólabiskupsdæmis liggur við biskupsdæmið sannað eptirrit af tveimi kunnum embættismönnum, en þeir hafa eigi alstaðar getað lesið máldagabækurnar gömlu, og hafa því víða eyður. Af Vilkins og Gísla biskups máldaga er ekkert sannað eptirrit til. Það er því vel hugsanda, að af máldagabókum þessum geti verið rjettari og fyllri eptirrit til, enn hin nefndu, og er því mikið í varið, að halda sem flestum þessum eptirritum saman, og geyma þau vandlega, og eins gömlum eptirritum af þeim, þó þau snerti eigi nema einstöku kirkju.

Það er og ekkert undarlegt, eður harðstjórnarlegt í því sem þó sumir halda, að löggjafinn hefir bent dómstólunum á, að álíta máldagabækur hinna

fernu páfiska piskupa, sem nokkurs konar frumrita ígildi um eignir kirkna; því bæði er þvílíkt boð nauðsynlegt sökum fáfræði margra dómanda, er annars myndi lítið hafa skeytt máldagabókum þessum, og líka í alla staða eðlilegt og skynsamlegt. það var lögboðin venja í fyrndinni, að sá, er kirkju hjelt, ritaði á skrá allar eignir hennar, og það, er til hennar var lagt; þessi skrá var lesin upp við kirkjuna á hverju ári á kirkjudeginum, en hann var haldinn helgur sem páskadagur þar í sókn, og fjölmenntu sóknarmenn því þá til kirkju; væri kirkja óvígð, skyldi lesa skrána einhvern þann dag, er mest fjölmenni væri þar saman komið. Á yfirreiðum sínum tóku biskupar sumir eptirrit af skrám þessum, eður útdrátt af þeim sjer til minnis, þar skrárnar voru eigi hjá þeim, og svo þeir gæti sjeð, er þeir vildi, hvað hver kirkja ætti, og er því auðsætt, að þeir hafa gjört máldagabækur þessar svo nákvæmar, sem þeim var unnt. Hinar löggiltu máldagabækur eru því langtum áreiðanlegri, enn nokkrar kaupbrjefabækur sýslumanna nú geta verið, sem vantar mikið á, að sje gjörðar á jafntryggjanda hátt.

Eptir anda fyrtjeðrar lagagreinar má ekki fara eptir fyrtjeðum máldögum, að því er *inventaria* kirknanna snertir, svo sem *ornamenta* og *instrumenta* hennar, heldur á í því að fara eptir skrám þeim, er biskuparnir eptir siðaskiptin hafa gjört yfir þau.

þegar einhverr vill fá úr stiptiskistunni vitneskju um eignir eður ítök einhverrar kirkju, á biskupinn að gefa hana, þó á sá, sem biður um eptirritið, ann-

aðhvort sjálfur að láta rita það, eður þá þóknast biskupi fyrir það, ef biskup lætur rita það; sjá instr. 57. gr., og loks er í 15. gr. biskupinum boðið, að láta halda reglulega bók, hvervetna þar sem hann *vísiterar*, yfir allar eignir kirknanna, er ætíð skuli undirskrifast af biskupinum, þegar hann vísiteri, sem forsvarsmanni þeirra, og nokkrum öðrum góðum dándismönnum, og skuli bók sú síðan geymast í stiptskistunni.

## 55. gr.
### Um tekjur kirkna.

Auk þess að fasteignir kirkna, ýms ítök þeirra í annarra manna lönd og fríður peningur, sá er þær eiga, gefa árlegan arð af sjer, og ýmsan hagnað og sparnað má hafa af þeim dauðum aurum, er þær sumar eiga, eru þeim og tillagðir nokkrir tollar eður tekjur frá sóknarmönnum; þessar tekjur eru einkum: 1. *kirkjutíundin*, 2. *ljóstollur* og 3. *legkaup*.

*Kirkjutíundin*. Um hana hefir hjer að framan verið nokkurn veginn talað, þegar talað var um tíundina yfir höfuð; og er því ónauðsynlegt hjer, að taka það upp aptur; á henni er sami eindagi sem á preststíund; sjá kristnarjett Árna biskups, kap. XV; og eins á hún að greiðast í sömu aurum sem prestatíundin; sjá tilsk. 1853.

*Ljóstollur*. Um hann hljóðar kristnirjettur Árna biskups, kap. XV; þar er boðið, að hverr sá maður, sem gjalda á álnar-tíund eður meiri, sje skyldur að greiða á hverjum 12 mánuðum 2 aura vax heilagri

kirkju til lýsingar, þeirri sem biskup kveður á, eður þess jafngildi í öðrum aurum.

Eptir þessu var því ljóstollurinn jafn fyrir alla, en gjörðu álnartíund, hvort sem þeir höfðu bú eður voru búlausir; hjón guldu optast tvo ljóstolla, þar eð fjársameign þeirra þá var mjög sjaldgæf, heldur átti hvort um sig eignir sjer, en maðurinn, sem lögráðandi beggja fjármuna, galt gjöld þau, er á öllu fjenu lágu. Þegar menn nú á fyrra hluta 18. aldar fóru að álíta, að norsku lög Kristjáns 5. gilti hjer um eignir hjóna, og að hvorugt hjónanna því ætti eignir út af fyrir sig, heldur bæði allt í sameiningu, komst ruglingur á um ljóstollsgjaldið, þar menn tóku nú að álíta almennt, að hjón ætti eigi að borga nema einn ljóstoll.

Úr þessum ágreiningi skar reglugjörðin 1782, en nokkuð á annan hátt, enn menn skyldi hafa vænzt, því hún ákvað í 13. grein, að þeir menn skyldi gjalda heilan ljóstoll (sumsje 2 ljóstolla), er hjeldi bú og hjeldi vinnuhjú, hvort heldur þeir væri giptir eður ógiptir, karlmenn eður ekkjur; þar að auki skyldi lausamenn gjalda auk dagsverks árlega presti 24 sk., og kirkju jafnmikið, en húsmenn skyldi að eins gjalda hálfan ljóstoll (sumsje einn). Það er nú auðsætt þegar af þessu og eins orðunum í lagagreininni sjálfri, að löggjafinn er hjer eigi að breyta eldrum lögum um það, hverjir eigi að gjalda ljóstoll, og hverjir eigi, heldur að eins að gefa reglur fyrir því, hverjir af þeim, er ljóstoll eigi að lúka, eigi að lúka hann heilan, og hverjir hálfan; reglugjörðin hefir því enga

breytingu gjört á ljóstollsskyldunni sjálfri frá því, sem hún er í kristnarjetti ákveðin, eður komið með þau nýmæli, að allir undantekningarlaust skuli gjalda ljóstoll, þó þeir tíundi ekkert, ef þeir að eins haldi bú eður sje húsmenn.

Reglugjörðin þótti samt nokkuð óljós, 1. því menn gæti haldið bú („sidder med Husholdning") og vinnuhjú, og verið þó húsmenn, og því þyrfti nákvæmari ákvörðun um það, hvort þeir þá ætti að borga heilan ljóstoll eður hálfan, er svo ástæði, og 2. þóttust menn eigi vita, hvort löggjafinn, með því að ákveða ekki í reglugjörðinni, hvernig vinnuhjú ætti að borga ljóstollinn, er þó eptir kristnarjetti ætti að borga hann, ef þau tíundaði $^1/_2$ hundrað eður meira, hefði ætlazt til, að þau framvegis eigi skyldi gjalda hann. Sökum þessa kom út nýtt kgsbrjef 21. maí 1817 um ljóstollinn, er ákvað, að vinnuhjú og þeir húsmenn, er eigi hjeldi vinnuhjú, skyldi borga hálfan ljóstoll, ef tíundaði 60 ál., og kveðst konungur þar gefa þenna úrskurð eptir hinum gildandi lögum um ljóstollinn, og sýnir þetta augljóslega, að hann hefir álitið skilorðið í kristnarjetti fyrir ljóstollsgjaldsskyldunni óhaggað.

Að ógiptir kvennmenn og konur, sem skildar eru við menn sína að borði og sæng, eigi að gjalda heilan ljóstoll, þegar þær halda bú og vinnuhjú, virðist vafalaust, þó löggjafinn eigi hafi nefnt það; að hann að eins hefir nefnt til þess karlmenn og ekkjur, kemur til af því, að það er hið vanalegasta, að sá, sem bú heldur, er annaðhvort karlmaður eður

ekkja, en þar á móti mjög svo óvanalegt, að aðrir kvennmenn gjöri. það, svo að hann hefir eigi munað til þess, er hann samdi ákvörðunina. Orðin undan: »sá sem bú heldur og vinnuhjú, hvort sem hann er giptur eður ógiptur«, eru líka svo almenn, að þau ná til ógiptra kvennmanna, er það gjöra, og það er auðsætt, að löggjafinn ekki hefir ætlað sjer að bæta þessum orðum við: »hvort sem það er karlmaður eður ekkja«, til að draga nokkuð úr því, er hann hafði sagt, heldur þvert á móti til að gjöra regluna enn almennari, og sýna að hann vildi, að hún eigi að eins skyldi ná til karlmanna, heldur og til kvennmanna.

Af því löggjafinn nefnir lausamenn undir eins á eptir þeim, er eiga að borga heilan ljóstoll, og undan þeim, er eiga að borga hann hálfan, kynni það virðast vafasamt, hvort hann eigi hafi viljað, að þeir skyldi borga heilan ljóstoll, hvernig sem stæði á fyrir þeim; en orðin í greininni virðast þó eigi svo ljós, að það geti rjettlætzt af þeim, að láta þá borga hærra ljóstoll, enn þeim ber eptir hinum almennu reglum nú í löggjöfinni, og sem er hálfan, ef þeir tíunda 60 al., því það getur verið, að orð löggjafans um þá í reglugjörðinni lúti eigi að ljóstollinum, og þá er eigi ástæða til að álíta, að þeir eigi að borga hærra ljóstoll, enn húsmenn, sem engin vinnuhjú halda, eiga að borga eptir kgs.brjefinu 1817, og þess síður, sem eigi er hægt að sjá í hverju þeir eru mismunandi frá slíkum húsmönnum.

Eptir kristnarjetti virðist eigi fyllilega ljóst, hvort

gjalda hafi átt ljóstoll af ómagafje, eður eigi, ef það nam tíund; og þó meira virðist fyrir því, að gjalda hafi átt hann, er þó venjan nú orðin fyrir hinu gagnstæða. Þó reglugjörðin 1782 eigi geti um, *hvernig* eigi að borga ljóstoll af ómagafje, verður eigi ályktað þar af, *að ekki* eigi að taka hann af því; hún hafði eigi heldur talað um, *hvernig* vinnuhjú ætti að borga ljóstoll, og þó segir kgs.brjefið 1817, að þau eptir löggjöfinni eigi að borga hann, ef þau tíundi annars svo mikið, sem lögin heimti til þess. Þó tilskipun 1834 bjóði, að leigunauturinn skuli gjalda tíund af leigupeningi sínum, hefir það engin áhrif getað haft á ljóstollsgjaldið. Sá, sem á $^{1}/_{2}$ hundrað eður meira í friðum peningi, verður því eins að gjalda ljóstoll fyrir því, þó hann leigi út allan þennan pening sinn til annarra; og eins getur enginn orðið skyldur til að borga ljóstoll fyrir það, þó hann taki pening á leigu.

Það mun nú vera orðin venja hvervetna, að þó menn eigi fasteign, gjalda þeir eigi ljóstoll fyrir það, nema þeir af öðrum ástæðum eigi að gjalda hann, og eins alstaðar í sjóplássum, að allir bændur, húsmenn og lausamenn gjaldi ljóstoll, hvort sem þeir tíunda nokkuð eður ekkert.

Í fyrndinni ákváðu aldrei biskupar um hvern einstakan mann, hverri kirkju hann skyldi borga tíundir sínar og ljóstoll, er og hefði verið ókljúfanda verk, heldur ákváðu þeir, hver ból eða jarðir skyldi liggja til hverrar kirkjú að tíundum og ljóstollum, eður af hverjum bólum hver kirkja skyldi taka tí-

undir og ljóstolla; eru þau á stundum nafngreind í máldagabókum biskupanna, og á stundum að eins nefnd tala þeirra. Nú fyrir löngu er komin föst regla á um þetta og sóknaskipanirnar fastákveðnar við langvarandi venju, og verður nú varla gjörð á þeim nein gild breyting, nema með konunglegum úrskurði.

Við sóknaskiptin fengu þannig kirkjurnar rjett til allra þeirra ljóstolla, er fjellu á bæjum í sóknum þeirra, og þetta varð að hafa nokkur áhrif á ljóstollagjaldið, eins og það hafði á tíundargjaldið. Það virðist þannig auðsætt, að þegar einhverr ólöglega setur eitthvert lögbýli í auðn, hvort heldur það er af því, að hann leggur það undir ábýli sitt, eður hann leigir það öðrum, án þess að halda þar uppi byggð, ber honum að endurgjalda kirkjunni þá þverrun í ljóstollum hennar, sem leiðir af þessari ólöglegu gjörð hans; en með því enginn er skyldur til að hafa margbýli á jörðum sínum, þarf hann eigi að endurgjalda fleiri enn einn ljóstoll, þó hann setji eitt lögbýli í auðn. Af þessu síðastnefnda leiðir og, að þó maður setji í auðn hjáleigur sínar og önnur útbýli á jörðu sinni, ber kirkjunni ekkert endurgjald fyrir ljóstolla þá, er hún gæti fengið af þeim, ef þar væri haldið byggð uppi. Geti menn þar á móti ekki fengið eitthvert lögbýli byggt, og því neyðist til að setja það í auðn, getur maður eigi verið skyldur að borga kirkjunni ljóstoll af því, og ekki heldur þó menn geti ljeð eitthvað út af því móti borgun eður sjálfir hafi þess einhver not, án þess þó

að hafa þar byggð. En menn verða, ef auðið var, að hafa reynt á löglegan hátt að fá jörðina byggða, en eigi getað.

þannig getur maður komið til að borga tvo eður fleiri ljóstolla við að setja jarðir ólöglega í auðn; en auk þessa virðast menn ástundum geta orðið skyldir til þess, er þeir halda bú á fleirum enn einum stað. þannig virðist sá, sem heldur tvö eður fleiri bú, sitt í hverri kirkjusókn, verða að vera skyldur til að borga sinn ljóstollinn til hverrar kirkju þar, sem búin eru, því býli hans eru lögð að ljóstollum sitt til hverrar kirkjunnar, og það virðist lítið geta skipt málum, þó hann kunni að hafa fremur aðsetur sitt á einu þeirra, enn öðru, með því hann að nokkru leyti getur sagzt eiga heima á þeim öllum, og vera búandi maður í hverri kirkjusókninni fyrir sig.

Með því nú enn fremur að til hverrar kirkju eru lagðir að ljóstollum tilteknir bæir, eður öll lögbýlin í sókn hennar, hlýtur hún að hafa fulla heimtingu á því, að enginn sitji sjer í ljósi fyrir því, að fá ljóstoll af nokkru lögbýli í sókn sinni; en af þessu leiðir aptur, að maður verður að bæta henni halla þann, er hún bíður af því, ef hann býr svo á tveim eður fleirum lögbýlum í sömu sókn, að engir aðrir búa þar líka, er kirkjan fái ljóstoll af, og því lúka kirkjunni ljóstoll fyrir hvert það lögbýli, er hann þannig býr á.

þar á móti getur enginn maður verið skyldur að borga *sömu* kirkju nema einn ljóstoll af *fjáreign*

*sinni*, þó hann haldi fleiri enn eitt bú í sömu sókn, *ef* hann eigi sitar kirkjunni í ljósi fyrir því, að fá ljóstoll af hverju lögbýli, sem þar er innan sóknar. Slík skylda getur eigi leitt af sóknaskiptunum.

Einhleypir menn og vinnuhjú, sem ljóstoll eiga að lúka, virðast eiga að gjalda hann til þeirrar kirkju, þar sem þeir eiga heima í sókn á gjalddaganum, og hið sama virðist verða að gilda, þó vinnuhjúið væri þar í sókninni ekki til vistar nema að hálfu, eður einhverjum öðrum hluta, en væri hitt að vistum í annarri kirkjusókn.

Eindagi á ljóstollum er eptir gömlum ákvörðunum föstudagurinn langi, og eptir reglug. 1782 á heill ljóstollur nú á að lúkast með 4 pnd. tólks, en hálfur með 2 pnd.; svo má og borga hann með peningum, eptir verðlaginu á tólkinum í verðlagsskránni.

*Legkaup*. Það var eptir kristnarjetti forna, kap. V, 12 álnir, nema fyrir barn tannlaust var það 6 álnir. Nú er þessu breytt svo við tilsk. 27. jan. 1847, 4. gr., að legkaup fyrir barn yngra enn tvævett er 3 álnir; en fyrir alla aðra 6 álnir. Fyrir sveitarómaga er ekkert legkaup, nema afgangur verði af eigum hans, þegar búið er að greiða af þeim sveitinni skuld hennar. Eptir kristnarjetti á líksöngseyrir að ganga fyrir legkaupi.

Í kristnarjetti Árna biskups kap. XI er sagt, að hverr kristinn maður eigi þar löglegan gröpt, sem hann andast í kirkjusókn, nema hann kjósi sjer legstað að annarri graptarkirkju með sjálfs síns minni

og með skynsemd heill að viti. það virðist auðsætt, að, eins og maður eigi verður jarðaður nema að einni kirkju, svo geti eigi heldur nema einhver ein kirkja verið skyld til að láta hinum dána gröpt í tje, en hver kirkja sje skyld til þess, er ákveðið í áminnztri grein; af þessu leiðir þá aptur, að engri annarri kirkju enn þessari einu getur borið legkaup eptir hinn dána, ef hann er jarðaður að henni. Sje hann þar á móti jarðaður að annarri kirkju, enn þeirri, sem hann á löglegan gröpt að, verður að gjalda tvö legkaup, annað þar, sem hann er jarðaður, og hitt þeirri kirkju, sem eptir löggjöfinni var skyld að láta honum gröptinn í tje; því þessi skylda kirkjunnar, að láta hinum dána gröptinn í tje á sínum tíma, byrjar undir eins við andlát hans, og hún getur eigi verið til eitt augnablik án þess kirkjan hafi tilsvaranda rjett, sem er að fá á sínum tíma legkaupið; rjettur kirkjunnar til legkaupsins byrjar því undir eins við andlát hins dána, eins og skylda hennar að láta honum gröptinn í tje, og þessum rjetti geta þeir, sem standa að hinum dána, eigi svipt kirkjuna, þó þeir eigi vilji nota sjer af þeim rjetti sínum, að láta jarða hann að henni.

Um það, hvar menn verði að álíta, að þeir eigi löglegan gröpt, er menn eigi vita um, í hverri sókn dáið hafi, og sem eigi heldur hafa gjört neina gilda ráðstöfun fyrir legstað sínum, er að nokkru leyti áður talað.

það er auðsætt, að kirkjum eigi getur borið legkaup eptir þá menn, sem eigi má jarða við þær.

Legkaupið á að greiða í góðum og gildum landaurum eður í peningum eptir meðalverði verðlagsskrárinnar á slíkri alin; sbr. tilsk. 1847, 6. gr. Eindagi legkaups er fimtudagurinn, þegar 4 vikur eru af sumri; sjá kristnárjett forna, kap. V.

Auk þessa eiga lausamenn eptir reglugjörðinni frá 1782 að lúka 24 sk. árlega til sóknarkirkju sinnar.

Af ýmsum höppum, er menn starfa að á helgum dögum, og eins af allri helgra daga veiði, á að gefa fátækum ákveðinn hlut, en kristinnrjettur Árna biskups 26. k. gefur sem almenna ákvörðun um hlut þennan, »að, ef afgjöfin verður meiri, enn hundrað í einum stað saman, þá sje henni skipt sem tíund í fjóra staði«, og verður þessi ákvörðun enn að vera í fullu gildi.

Auk fyrtjeðra tekna hafa einstaka kirkjur nokkrar fleiri tekjur, en þar eð þær eru einstaklegs eðlis, getum vjer hjer sleppt að tala um þær. Allar þessar tekjur má taka lögtaki, þegar þær ekki eru goldnar í rjettan eindaga, og ef þær ekki eru orðnar tveggja ára gamlar; sjá tilsk. 2. april 1841.

Nokkrar kvaðir í kirkjunnar þágu liggja á sóknarmönnum, er hún ekki þarf að borga að neinu eður mjög litlu. Þannig er ákveðið í reglug. 1782, 15. gr., að bændur í sókninni eigi kauplaust að vinna öll moldarverk að kirkjunni og kirkjugarðinum, þó megi á kostnað kirkjunnar gefa hinum allrafátækustu þeirra, er ekki geti fætt sig sjálfir, eina máltíð á degi hverjum, meðan á verkinu stendur, og eins ljá þeim verkfæri, ef þeir engin hafi. Ef

einhverja mikla endurbót þarf að gjöra á kirkju, eiga sóknarbændurnir að styrkja til, að flytja að viðina og efnið, og á að jafna því niður á þá eptir efnum þeirra; og gjörir hreppstjórinn það venjulega.

Auk þessa eru kirkjur, eins og þegar að nokkru leyti hefir verið sagt, öðrum fremur undan þegnar tíundargjaldi af fje sínu, og eins eiga þær eigi að gjalda aðra skatta, nema þegar það með berum orðum er tiltekið, að þær eigi að gjöra það, í lagaboðum þeim, er um þá skatta hljóða. Hinn helzti lögboðni skattur, er nú liggur á fasteign þeirra, er *alþingisgjaldið;* þó eru ljenskirkjurnar lausar við það, og eins sá hluti afgjaldsins af jörðum bændakirkna, er til prestsmötunnar gengur (sjá tilsk. 2. marz 1853).

Þegar einhverjar mjög nytsamar guðlegar bækur hafa verið prentaðar, eður sem mjög fræðandi hafa verið um ástand landsins, hefir kirkjunum á-stundum verið gjört að skyldu, til að koma slíkum bókum á prent, hverri að kaupa eina þeirra; og svo hafa þær orðið stundum að leggja fje til, þegar einstaka kirkja hefir verið byggð, og eins í einstökum fleirum tilfellum.

Þegar kirkjur komast í mál við aðra út af rjettindum sínum, fá þær, ef þær ekki auðsjáanlega hafa á röngu máli að standa, gjafsókn.

## 56. gr.

### Aðgreining millum ljens- og bændakirkna.

Þó kirkjurnar, eptir því fyrsagða, sje opinberar

stofnanir, geta þær þó verið undirlagðar eignarrjetti einstakra manna; og þetta á sjer stað um margar þeirra hjer á landi.

Stjórnin hefir hjer ekki grundvallað eina einustu kirkju, ekki heldur sóknarmenn með samskotum, heldur voru kirkjurnar byggðar með fyrsta af einstökum mönnum, er sjálfir lögðu fje til þeirra, eins og líka aðrir einstakir menn gáfu þeim gjafir.

Það hefir verið drepið á það hjer að framan, hvernig leikmenn vildu eigna sjer kirkjurnar, og eins hvernig biskuparnir vildu hrífa þær undan þeim og undir umráð sín með öllu, og að þetta stímabrak endaði við sáttina 1297, þannig að ýmsar kirkjur hjeldu áfram eptir henni að vera undir umráðum leikmanna á sama hátt, sem áður hafði verið; en sumar komust undan þeim á vald biskupanna.

En þó nú bændakirkjurnar hjá oss þannig sje sannarleg eign einstakra manna, þá er þó slíkur eignarrjettur talsverðum takmörkunum bundinn; og þetta hlýtur hann líka að vera, því stjórnin má engan veginn vera afskiptalaus af því, að kirkjurnar ávallt samsvari tilgangi sínum, með að vera sómasamleg samkunduhús, er opinber guðsþjónustugjörð verði framin í fullkomlega hneykslislaust; og þar eð augnamið kirknanna yfir höfuð er guðlegt, er það eðlilegt, þó þessar opinberu stofnanir fremur sje settar undir umsjón hinna andlegu valdsmanna, en hinna veraldlegu.

En auðsætt er, að stjórnin má hafa frjálsari hendur yfir góðsi ljenskirknanna, sem eru landsins

eign, enn yfir góðsi bændakirknanna, sem eru einstakra manna eignarrjetti undirlagðar; eins, að prestar, er að eins hafa ljenskirkjurnar að ljeni, ekki geta haft sömu ráð yfir þeim, sem eigendur bændakirknanna hafa yfir sínum eignarkirkjum.

## 57. gr.

### Um rjett presta yfir ljenskirkjunum og fjám þeirra.

Að því er góðs ljenskirknanna snertir, þá hafa prestar þau að ljeni, og njóta því alls arðsins af þeim, og þurfa ekki að standa nokkurn reikningsskap á honum. Hins vegar mega þeir hvorki farga nje brjála kirkjufjánum, og hafa engin ráð á þeim sjálfum, fremur enn nauðsynlegt er fyrir þá, til þess að geta notið fulls arðs af þeim. Þó þeir því á eina hliðina megi á hvern löglegan hátt gjöra kirkjugóðsin sjer svo arðsöm, sem þeir bezt vita og kunna, eru þeir þó á hina hliðina bundnir í þessu við það, að kirkjugóðsin ekki *mega rýrna sjálf við það á nokkurn hátt, nje heldur arður sá, er eptirkomandi prestar annars gæti af þeim haft.*

Það verður og að vera á ábyrgð prestanna, ef kirkjugóðsin fyrir handvömm skemmast eður rýrna nokkuð, eins og það og hlýtur að vera skylda þeirra, að gæta að því, að ekkert gangi undan kirkjunni, og skýra yfirbjóðöndum sínum frá því, ef þeir verða þess varir og þörf gjörist, svo það ekki gangi undan fyrir vanhirðingu þeirra.

Sjerstaklega er greinanda um *jarðir þær, er ljenskirkjum og prestsetrum fylgja,* að prestar mega eigi láta þær falla í eyði, heldur verða þeir að sjá um, að einlægt sje byggt á þeim, og eptir því, er menn almennt skilja tilsk. 15. maí 1705, eru þeir skildir að byggja þær upp á lífstíð, og mega eigi byggja leiguliðum út af þeim, meðan þeir sitja þær löglega, og standa í lögskilum með jarðarafgjöldin. Þeir mega ekki fækka kúgildum á þeim, nje lækka afgjaldið frá því, sem verið hefir, eður leyfa að borga það í ljelegum eða óútgengilegum aurum; ef prestur gjörir þetta samt upp á eigið eindæmi og nema full nauðsyn beri til, getur eptirmaður hans í brauðinu ekki verið bundinn við slíka byggingu. Fái prestur einhverja jörð ekki byggða eður með vanalegu afgjaldi, verður rjettast fyrir hann að spyrjast ráða hjá yfirmönnum sínum, hvernig hann skuli aðfara.

Í tilsk. 15. maí 1705 var öllum húsbændum, bæði veraldlegum og andlegum, er höfðu konungsjarðir til umráða, bannað, að leggja á bændur sína meiri byrðar, enn greiddar hefði verið af jörðum þeirra, svo langt menn hefði sögur um, og fleiri tálmanir voru húsbændum þessum lagðar í veginn fyrir því, að byggja þessar jarðir, sem bezt þeir kynni, og var þetta að nokkru leyti samkvæmt Jónsbók um byggingu á konungsjörðum. En þó menn álíti, að prestum með þessu hefði verið meinað, að byggja kirkjujarðir með hærra afgjaldi, enn eptir forngildunni, og að hinn rjetti skilningur þessa laga-

boðs eigi væri fremur sá, að þeir eigi mætti leggja nýjar kvaðir á leiguliða sína þar, þá virðist það mikið efunarmál, hvort slíkt bann nú lengur getur samrýmzt við skoðunarhátt löggjafans eptir því, sem hann nú lýsir sjer í lagaboði því, sem leyfir mönnum að taka svo háva leigu af peningum, er þeir geti fengið, nema þeir hafi nægt veð í fasteign fyrir láninu.

Kirkjujarðir má prestur ekki byggja, nema til rjettra leiguliða nota; ef hann veitir leiguliðunum meiri rjett yfir þeim, þá er slík bygging ólögleg að því leytinu, og getur ekki verið bindandi fyrir eptirmanninn, eins og prestinum og ber að bæta skemmdir þær, er jörðin við það hefir fengið. Presturinn verður nákvæmlega að sjá um það, að leiguliðinn ekki láti neitt ganga undan jörðinni, skemmi ekki hlunnindi hennar og sitji hana sem vera ber; hann stendur í ábyrgðinni fyrir álaginu, ef leiguliðinn ekki getur goldið það; sjá tilsk. 24. júlí 1789.

*Prestsetrið* má prestur nytka á hvern hátt, sem hann getur, án þess þó við það að rýra það í nokkurn máta, eins og hann ekki heldur má færa sjer í nyt hlunnindi þess, þau er eyðzt geta við of mikil afnot, frekara enn hverr leiguliði má gjöra eptir lögum; eins ber honum að sitja jörðina, svo hún í engu af sjer gangi, og halda við húsum hennar; og þegar hann eða hans fara frá, á að svara fullu álagi á prestsetrið; sjá tilsk. 24. júlí 1789. Hafi presturinn byggt þar hús umfram þau, er staðnum fylgja, má hann láta rífa þau og flytja burtu, ef hinn

viðtakandi prestur eigi vill eður megnar að kaupa þau eptir sanngjörnu mati (kgs.br. 22. marz 1748). Vilji því hinn viðtakandi prestur kaupa þau, en þeir eigi geti sætzt um verðið, verður hann að fá virðingarmenn útnefnda af sýslumanni til að meta þau, og sje annarrhvorr þeirra óánægður með þá virðingu, verður sá að fá yfirúttektarmenn útnefnda til að fá virðingunni breytt. Annars er bezt og kostnaðarminnst, að láta úttektarmennina virða hús þessi, um leið og prestsetrið er úttekið af prófasti í hönd hins viðtakanda prests.

Kirkjunni á presturinn að halda vel við líði, svo hún ávallt sje sómasamleg, láta bæta hana, þegar þarf, og byggja að nýju, þegar hún er orðin fallin; og þegar hann fer frá, á hann eður hans að svara fullu álagi á hana, að svo miklu leyti sjóður hennar ekki hrökkur fyrir því; og þó presturinn þá eigi eitthvað hjá kirkjunni, verður hann að missa það, því ekkert af slíkri skuld má hlaupa upp á eptirmann hans í kallinu eða rýra í nokkru tekjur hans; sjá tilsk. 24. júlí 1789, og kansellíbrjef 24. maí 1834, er þó segir, að einstaka sinnum, er svo á standi, megi vænta undantekningar frá þessu, ef þess sje farið á leit við stjórnina, svo presturinn fái skuld sína borgaða; en aldrei megi slengja neinu af þessari skuld á eptirmanninn, þó hann kynni að vilja taka hana að sjer.

Auk þess sem presturinn á að varðveita allar *þær bækur og skjöl,* er embættinu fylgja, svo þau einlægt sje vel útlítandi, svo á hann einkum vand-

lega að geyma öll skjöl og skilríki, er áhræra eignir kirkjunnar, eins á hann, en þó á kostnað kirkjunnar, að viðhalda öllum *ornamentis* hennar og *inventariis*, endurbæta þau, sem endurbætt verða, ef þarf, og eins útvega ný í stað hinna gömlu, er á þarf að halda, þegar þau eru orðin svo biluð eða úr sjer gengin, að þau ekki verða höfð lengur. Hann má eigi farga nje lóga neinum forngripum, er kirkjan á eður þar eru, án samþykkis stiptamtmanns og biskups, er eigi heldur mega leyfa það, nema mesta nauðsyn tilberi, heldur ber prestinum vandlega að varðveita þetta allt (kans. 19. apr. 1817).

Allar þær tekjur, er kirkjunni eru lagðar, á hann að krefja inn, og á ári hverju gjöra greinilega skýrslu fyrir þessum tekjum hennar og útgjöldum þeim, er hann kirkjunnar vegna verður að hafa. Þessir reikningar verða að byggjast á nægum skilríkjum, og, eins og fyrr er sagt, verða þeir að samþykkjast af prófasti, og standa undir yfirumsjón biskups; presturinn getur því ekki ráðizt í nein kostnaðarsöm fyrirtæki kirkjunnar vegna, nema hann fyrr hafi ráðfært sig um það við prófast, og fengið samþykki hans til þess. Tíundir og legkaup á hann að reikna kirkjunni til peninga eptir meðalverði allra meðalverða í þeim aurum, er nefndir eru í verðlagsskránni, sjá tilsk. 1853; en ljóstollana eptir verðlagi því, sem þar er sett á tólkinn, reglug. 17. júlí 1782. Hver kirkja á að hafa gegnumþrædda bók með blaðaeður blaðsíðutali, er prófasturinn á ókeypis að setja innsigli sitt fyrir og fullgilda; í bók þessa á að rita

1. allar eignir og ítök kirkjunnar, og eins vísítazíur; 2. búnað og áhöld kirkjunnar og lýsa þeim nákvæmlega, og 3. allar árlegar tekjur kirknanna, bæði vissar og óvissar, og eins útgjöld þeirra, nema hjer er þó eigi átt við aðrar tekjur þeirra, enn þær, er þær hafa af sóknarmönnum.

Það, sem kirkjan leggur upp, eður sjóð hennar, má presturinn hafa hjá sjer, og fara með sem það væri hans eign, án þess að gjalda kirkjunni leigu eptir það; en sje hann ekki fullveðja fyrir því fje, ætti hann að setja kirkjunni nægilegt veð fyrir því; og gæti hann það ekki, ætti hann eigi að mega sitja inni með sjóðinn, heldur ætti að koma honum á vöxtu gegn nægilegu veði, eins og það sýnist mega geta leitt til þess, að umsjónin yfir kirkjunni, tekjum hennar og reikningum yrði frá honum tekin.

Ef annars prestarnir láta prestsetrin, eða eignir og ítök kirknanna falla og níðast niður, og prófastarnir tvisvar eður þrisvar hafa áminnt þá um, að gjöra við því; en þeir ekki hafa hlýtt skipun þeirra um það, eiga þeir að missa brauðið, nema þeir fyrir öllu geti sett næga borgun (kgs.brjef 11. maí 1708).

Að því er kirkjugarðinn snertir, þá má presturinn láta slá hann, en engan veginn beita eða hleypa skepnum þar inn, eins og hann ekki heldur má hafa þar neitt slíkt, er óviðurkvæmilegt er að haft sje innan um legstaði hinna dauðu, þar sem friður og spekt á að drottna, og ekkert má finnast, er glapið geti alvarlegar og guðlegar hugsanir þeirra, er þangað koma. Legsteina þá og önnur minnis-

merki, sem sett eru hinum dauðu í kirkjunni eður kirkjugarðinum, á presturinn að láta liggja kyrra, og ekki líða neinum að skemma þá; sjá kans.br. 19. aprílmán. 1817.

Niðri í kirkjunni má ekki geyma sængurföt, klæðnað eða neitt annað, sem henni heyrir ekki til; þó ef þar vantar bekki til að sitja á, mega kistur standa þar, sem þá má og hafa fyrir geymsluhirzlur; en ef lopt er í kirkjunni, sem lokað er, þá má geyma þar þriflega hluti, er engin ólykt leggur af um kirkjuna. Í kirkjunni mega engin þing haldast, nje neinar gleðisamkomur; sjá tilsk. 29. maí 1744, 16. og 24. gr.

## 58. gr.

### Um rjett kirkjueiganda yfir kirkjum sínum og fjám þeirra.

Eins og optar hefir verið getið um hjer að framan, enduðu *staðamálin* svo 1297, að »*bændur misstu umráð kirkna þeirra, sem áttu meira enn helming í heimalandi, en hjeldu hinum, er áttu að eins helming eður minna enn helming þess*«; þetta hefir án efa komið til af því, að þegar bændur sjálfir áttu helming í heimalandinu eður meira, áleizt kirkjan að hafa þar næga vissu fyrir eignum sínum, en ekki þar, sem þeir áttu minna í því; en af þessu flýtur aptur, að bændaparturinn í heimalandinu, eður sem og kallast kaupahlutinn í því, má aldrei aðskiljast frá kirkjuhlutanum, því hann er að álíta sem

nokkurs konar veð, er stendur fyrir kirkjueigninni, eins og það flyti og beinlínis af fyrtjeðri sáttargjörð, að kirkjan með eignum sínum ætti að falla undir umráð hins opinbera, væri hann aðskilinn frá þeim, nema þá önnur næg fasteign væri sett í staðinn í öðrum jörðum, til að fylgjast með kirkjueigninni, og þetta á sjer sumstaðar stað, að útjarðir, sem eru bændaeign, fylgja kaupahlutanum. Menn mega því eigi selja eður á nokkurn hátt farga nokkrum hluta af eigninni, hvorki kirkjueigninni nje kaupahlutanum eður útjörðum þeim, er honum fylgja, og er öll sú sala og allt það brjál markleysa.

Eigendurnir geta verið fleiri en einn; en eins og skyldur þær gegn kirkjunni, er liggja á eigandanum, ekki geta skipzt svo í sundur á fleiri, að einn fái þessar skyldur, en annarr hinar, heldur þannig, að hverr beri þær að tiltölu við annan; eins geta kirkjueignirnar með tilheyrandi bændaeign ekki skipzt svo í sundur millum fleiri eiganda, að hverr eigi sinn hluta af þeim sjer útskiptan með ákveðnum ummerkjum, heldur verður öll eignin að vera sameign þeirra, en tiltala hvers eins getur verið misjöfn. Samt getur ekkert verið á móti því, að eigendurnir komi sjer saman um það, að einn skuli hafa umráðin yfir þessari jörðunni eður þessum hluta eignarinnar, og taka arðinn af honum til sín, en annarr aptur yfir öðrum hlutanum, og fá arðinn af honum; slíkur samningur getur haft fullt gildi millum þeirra, sem hann gjöra, en er yfirstjórninni eða hinu opinbera óviðkomandi.

þegar fleiri enn einn er kirkjueigandi, verða þeir að gefa einhverjum einum í sameiningu umboð sitt til að semja kirkjureikningana sín vegna, og hafa alla umsjón yfir þeim fyrir sig.

Í hvert skipti sem einhverr eignast kirkju eða part í kirkju, á hann hið fyrsta að láta biskup vita það; sama skylda liggur og á skiptaráðandanum (kgs.br. 5. marz 1751).

Hvernig kirkjueigendurnir sitja kirkjugóðsin eða halda þeim við, er á sjálfra þeirra valdi, eins og biskupi og prófasti er hvergi boðið, að hafa nein afskipti af því, eða athuga það á yfirreiðum sínum.

Allur arðurinn af kirkjufjánum er kirkjueigandans eign, nema hvað hann af honum verður að borga prestinum kaup það, er honum ber af kirkjunni eða prestsmötuna.

Að því er kirkjuna sjálfa snertir, þá hefir kirkjueigandinn sömu skyldna að gæta við hana, sem presturinn við ljenskirkju sína; hann á ávallt að halda henni svo við, að hún sje sómasamleg, bæta hana, þegar þarf, og byggja hana að nýju, þegar hún er orðin fallin, og eins þó hún farist af einhverjum óhöppum, hvort sem sjóður hennar hrökkur til þess eða ekki; öllum búnaði og áhöldum kirkjunnar á hann að halda við, endurbæta þau þegar þarf, og þegar þau, sem á þarf að halda, ganga úr sjer, útvega önnur nýtileg í þeirra stað. Hann má eigi farga forngripum frá kirkjunni fremur enn prestar frá kirkjum þeirra, heldur ber honum að vernda þá, sem bezt hann getur.

Á ári hverju ber kirkjueigandanum að semja reikning yfir tekjur og útgjöld kirkjunnar á sama hátt sem prestarnir verða að gjöra, og rita hann inn í kirkjubókina (kgs.br. 6. marz 1740, og 19. maí 1747); yfir sjóði kirkjunnar hefir hann fullkomin ráð, því þar er nóg fasteign í veði fyrir honum, eins og það og skoðast sem byrði, er liggi á eigninni, að viðhalda kirkjunni, hvað sem sjóði hennar eða efnahag eigandans líður (kgs.br. 5. marz 1751); þó ef sjóðurinn væri meiri en fasteignin væri verð, kynni virðast sem eigandinn ætti að setja veð fyrir því af sjóðnum, sem umfram væri.

Minnismerki þau, sem reist eru hinum dauðu í kirkjugarðinum eða kirkjunni, má hann ekki láta skemma fyrir vanhirðingu; yfir kirkjunni sjálfri eða kirkjugarðinum bera honum engin meiri rjettindi eða ráð, enn prestinum yfir ljenskirkju sinni eða kirkjugarðinum þar.

Ef kirkjueigandinn vanrækir skyldur sínar með, að halda kirkjunni í sómasamlegu standi, eða gjöra þær endurbætur samkvæmt lögunum, sem biskup eða prófastur álítur nauðsynlegar, má þrýsta honum til þess með lögum og dómi, ef hann eigi gegnir boðum þeirra í því, og getur þá rekið að því, að selja verði alla eignina bæði bændahlutann og kirkjuhluta, er aldrei mega aðgreinast, til að bæta úr þessu; það sem þá verður umfram af kaupverðinu, ber eigandanum.

## 59. gr.

### Um niðurleggingu kirkna.

Það er auðsætt, að hið opinbera má leggja niður ljenskirkjur, þar sem það álítur að slíkt eigi vel við, og að það megi ráða því eptir vild sinni, hvernig þar þá skuli fara með eigur, búnað og áhöld kirkjunnar, er þó ætti aldrei að verjast til annars, enn öðrum kirkjum til viðurhalds, og til að auka með laun annarra presta. Þó virðist, sem erfingjar þeirra, er gefið hafa fje til kirknanna, hvort sem það eru prestsetrin, annað jarðagóðs, eður aðra muni, geti heimtað þetta aptur, ef kirkjan er niðurlögð.

Það liggur og í augum uppi, að hið opinbera hlýtur að mega leggja niður kirkjur einstakra manna, ef það álítur það betra, en það getur þá eigi haft rjett til, að ráða yfir því eptir eigin vild sinni, hvernig skuli fara með fjármuni og eignir kirkjunnar. Ef ekki verður gjört neitt samkomulag um þetta við eigandann, virðist rjettast að fara eptir því, sem ákveðið er í »*Bessastaða samþykkt*« 1. júlí 1555, að helmingur af kúgildum kirkjunnar og lausafje falli til prestanna uppeldis, en hinn helmingurinn til eigandanna, og eins öll fasteign kirkjunnar og ítök falli til hinna síðarnefndu, en áhöld og messuklæði falli til annarra kirkna; eins virðist og að þær ætti að fá sjóð kirkjunnar, ef nokkurr væri (kgs.brjef 6. marz 1740).

# LEIDRÈTTINGAR:

Bls. $23^{8}$ l. o. m. „2. ágúst", les: 2. ágúst 1800.

— $25^{8}$ l o. m. „5. júní", les: 6. júní.

— $36^{6}$ l. e. m. „í pápiskri trú" les; í lúterskri trú.

— $36^{18}$ l. o. m. „öllum trúarbragðaflokkum" les: öllum kristnum trúarbragðaflokkum.

— $45^{8}$ l. n. m. „aðrar" ofaukið.

— 50 í enda 11. gr. er gleymt að geta þess, að enginn geti orðið prestur, nema hann kunni það, er til bólusetningar heyrir, kgs.br. 18. júlí 1821.

— $53^{9}$ l. n. m. „í 2. grein" les: í 4. grein.

— $71^{5}$ l. n. m. „sálmahók" les: sálmabók.

— $75^{1}$ l. n. m. „helgidaghaldið" les: helgidagahaldið.

— $76^{4}$ l. n. m. „1844" les: 1744.

— $82^{8}$ l. n. m. „föðurs" les: föður.

— $82^{8}$ l. n. m. „heilags anda" les: anda heilags.

— $82^{6}$ l. n. m. „12" les: 7.

— $92^{9}$ l. n. m. „7 vetra" les: 7 til 12 vetra.

— $98^{4}$ l. o. m. „lagadoði" les: lagaboði.

— $115^{2}$ l. n. m. eptir orðið „ekkjusjóðinn", bætist inn í: fyrr enn í því efni fullnægt sje boðum tilsk. 4. ágúst 1788.

— $119^{12}$ l. o. m. „saman;" les: saman,

$123^{9}$ l. n. m. „ala það" les: ala það upp

— $124^{14}$ l. o. m. „ó-ómerkt" les: ómerkt

— $125^{6}$ l. o. m. „sann" les: hann

— $134^{8}$ l. o. m. eptir orðið: „stjúpbörn" setjist tengdabörn

— $145^{11}$ l. o. m. eptir orðið: „sínar" eiga að koma orðin: „ef á þarf að halda", er standa í næstu línu eptir

— 157, aptan við tölulið 6 bætist:

Bls.

Í tilskipun 24. júlí 1789, 7. gr. er sagt, að þegar svo viðberi, að eitthvert prestakall standi lengi laust, eður prestur sá, sem það er veitt, eigi komist þángað í rjettum fardögum, skuli prófasturinn byggja prestsetrið meðan duglegum manni og neyta hentugustu ráða góðsinu til viðurhalds, og skuli sýslumaður styrkja prófast í þessu; og í 9. greininni er sagt, að hafi hinn fjærverandi eigi umboðið neinum að mæta sinna vegna við úttektina, skuli sýslumaður setja einhvern áreiðanlegan mann til þess, á hans kostnað.

— 193 l. 8. n. m. fátækra les: fátækra".

— 195 á millum 5. og 6. l o. m. hefir þessi klausa gleymst:

Svo virðist sem ómagaeyrir ekki eigi að tíundast; bæði kristinrjettur hinn forni og eins Árna biskups hafa sjerskildan kapítula um tíund af ómagaeyri, en nefna þar báðir þann mann að eins, er hefir ómagaeyri að vardveita, er hann tekur vöxtu af, þ. e. sem hann fyrir fjárhaldið fær eður eignast vöxtuna af, eður þó nokkurn hluta þeirra; og segir kristni rjettur hinn forni, að þann hluta vaxtarins skuli tíunda, er undir hann (þ. e. fjárhaldsmanninn) ber, sem það fje, er hann átti áður, en kristinnrjettur Árna biskups, að hann skuli það fje allt tíunda (sumsje er hann eignast vöxtuna af) sem hann ætti það sjálfur; en hvorigur kristinrjettanna nefnir þar á nafn, að tíund eigi að lúkast að öðru leiti enn þessu af ómagaeyrinum sjálfum, eður þeim hluta vaxtarins, er ómaginn fær; það er og margt fleira, einkum í kristnarjetti forna þessu til sönnunar. Samt verða menn að álíta eptir þeirri stefnu, sem tíundar gjaldið af fasteign nú hefir tekið, að tíund nú verði jafnt að lúkast af jörðum, hvort ómagar eiga þær eður ekki. Af þessu tíundarfrelsi ómaga virðist og beinlínis leiða, að þeir, eins og líka venjan er, ekki eigi að gjalda ljóstoll til kirkju, og verður lagast eptir þessu það, sem sagt er bls. 239.

— 195[14] l. o. m. „öll" les: 5. Öll

Bls.

— 204 4 seinustu línurnar eptir orðið „Eptir" eiga að falla burtu.

— 204. Við enda 44 gr. hefði átt að geta hluta þess, er prestum ber, af afgipt helgra daga veiða, og seinna er getið í 55. gr.

— 210[14] l. o. m. „prestar" les: prestur

— 210[14] l. o. m. „verða" les: verður

